# IÐUNN,

TÍMARIT

TIL SKEMMTUNAR OG FRÓÐLEIKS.

---

Ritstjórn:

Björn Jónsson, Jón Ólafsson,

Steingrímur Thorsteinsson.

SJÖTTA BINDI.

REYKJAVÍK.

KOSTNAÐARMAÐUR BJÖRN JÓNSSON.

ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA.

1888/9.

# Efnisskrá:

Bls.
Frelsisherinn, eptir Jónas Jónasson . . . . 1—82
Heilsufrœðin fyr á tímum, eptir Axel Ulrik (Þorv. Bjarnarson) . . . . . . . . . . . 82—111
Kona Bents riddara, eptir Aug. Strindberg (B. G. B.) . . . . . . . . . . . . . . . 112—134
Í tunglsljósi, eptir Guy de Maupassant (Hannes Hafstein) . . . . . . . . . . . 134—142
Æfin önnur, eptir Edv. Egeberg (G. G.) . . 143—154
Gullið og bræðurnir tveir, eptir Leo Tolstoj (B. J.) . . . . . . . . . . . . . . . . 155—159
Smávegis (B. J.) . . . . . . . . . . . . 159—160
Heilsufræðin nú á tímum, eptir Axel Ulrik (Þorv. Bjarnarson) . . . . . . . . . . . 161—179
Guð er kærleikur, eptir Leo Tolstoj (Þórh.Bj.) 180—200
Hinrik Pestalozzi, eptir H. Trier (Þorv. Bj.) 200—238
Sjálfs er höndin hollust (Ó. S.) . . . . . . 239—259
Sókrates, eptir Harald Höffding (Þorv. Bj.) . 259—282
Gamli-Toggi, sjálenzkt æfintýri (Guðl. Guðmundsson) . . . . . . . . . . . . . . 282—291
San Francisco eptir 1850, eptir C. de Varigny (B. J.) . . . . . . . . . . . . . . . 291—305
Um auðæfi, eptir G. Pfeuffer (B. J.) . . . . 305—312
Kvæði . . . . . . . . . . . . . . . . 313—316

# Frelsisherinn.

Eptir

Jónas Jónasson.



## I.

„Parturiunt montes“.

Það var heldr en ekki glatt á hjalla að Skarði á laugardagskvöldið í 23. viku sumars. Þar voru þá þrenn hjón að giftast, og höfðu þau safnað að sér öllum málsmetandi mönnum úr fyrir víst þrem næstu hreppum, og svo öllu því af ungu fólki, sem heldr var heiðr enn vanheiðr að hafa á mannamótum.

Það voru 180 manns í veizlunni; það má því geta nærri, hvílíkr glaumr og gleði hefir verið í brúðkaupinu.

Enn það var líka eins og náttúran hefði lagt sitt fram til þess, að gera brúðkaupsaftann þenna inn inndælasta og hátíðlegasta. Hún bætti úr því, sem skammsýni og fákænsku mannanna hafði yfirsézt.

Það var ekki svo húsum farið að Skarði, að þar

væri hægt að halda veizlu fyrir 80 manns — því síðr fyrir 180 —, enn það hafði engum komið til hugar fyrri enn allr söfnuðrinn var kominn þangað; þá sást það fyrst á, hvílík drottins velgerð það var við alla, bæði brúðhjón og gesti, að það var ekki húðarrigning eða froststormr um kvöldið.

Þad héldu sig flestir úti.

Kaffið og brennivínið var farið að svífa á karlmennina, þó ekki til stórmuna nema á einstöku mann, einstöku aldraðan bónda í sveitinni, sem hafði alizt upp á þeim duggarabandsárum, er enginn þótti maðr með mönnum, nema hann tæki sér duglega neðan í því.

Púnsið var orðið heitt, og prestrinn búinn að mæla langa og hjartnæma tölu fyrir hrúðhjónabollanum; glösum var hringt, og forsöngvarinn hóf upp brúðhjónakvæði, sem einn af skáldum sveitarinnar hafði ort; var gerðr að því enn bezti rómr.

Klukkan var orðin um 9.

Landslagi var svo farið á .... strönd, þar sem Skarð var, að allr aflíðandi lands horfði til vestráttar. Undirlendi var breitt og hallaði hægt og mjúklega frá fjallsrótum til sjávar. Ýmist voru móar eða mýrarsund um undirlendið, nema ofanundan bænum í Skarði; þar var nes eitt niðrundan slétt og mikið, og náði það nokkuð fram í sjóinn; svo var það lágt að framan, að yfir það féll í stórstraumsflóðum. Túnið á Skarði var allmikið, og rúmr helmingrinn rennislétt, enn hitt hraunþýft; þar hafði til skamms tíma verið tvíbýli, og annar bóndinn sléttað sinn hluta allan, enn hinn aldrei látið sér verða að hreyfa við einni þúfu.

Fjallið fyrir ofan Skarð var allhátt, og bratt þegar upp á það kom; upp undan bænum var skarð í fjallið alldjúpt, og snarbratt að á báðar hliðar; úr þessu skarði féll Skarðsá niðr hjá bæjarveggnum í Skarði, og skifti túninu í tvo jafna hluti.

Það var almæli, að það væri sérlega fallegt á Skarði; fjörðrinn blasti við bænum, og faðmaði nesið eins og máttug verndarvættr; til útnorðrs tóku saman himinn og haf, enn á móti risu vestrfjöllin hátt, og báru mjög fagrlega við loft; enn fallegast var þar þó, þegar blæjalogn var, og fjörðrinn lá dauðr eins og risavaxinn spegill millum fjallanna; þá skapaðist nýr heimr, sem stóð á höfði, niðri í sjónum; það var eins og ímynd þeirra töfraheima, sem þjóðsögurnar hafa skapað sér niðri í jörðunni.

Á þessari stundu var yndislega fallegt úti; tunglið var í fyllingu, og kom upp í miðju skarðinu; það var dimt fyrir utan og sunnan, enn breið, björt og fögur tunga lá neðan alt nesið og heim hjá bænum, þar sem bláljóst tunglsljósið lék um nesið og túnið; það var dúnalogn, og stafaði í sjóinn; fjörðrinn var kolblár og stirndi í hann í einstöku stað; það voru stærstu stjörnurnar, sem spegluðust í sjávardjúpinu.

Yfir norðrloftið lágu ljósgrá skýjadrög, enn að öðru var himininn alheiðr.

Öll náttúran hvíldist; hvorki heyrðist þytr af minsta andvara, nje gjálfr í báru við fjöruna; farfuglarnir voru farnir á burt til syðri og hlýari landa; heimafuglarnir íslenzku voru sofnaðir.

Það var eins og náttúran hefði hallað sér í værum blundi upp að þessu hægindi, sem hallaðist frá sjónum upp að fjallsrótunum.

Enn innan að úr bænum heyrðist glaumr og gleði, söngr og kæti; í stofukitrunni norðan fram við bæjardyrnar hamaðist organistinn í H.... kirkju að harmoniku einni, og dansaði þar inni sumt af inu unga fólkinu eftir gargi hennar.

Skáli óþiljaðr var að sunnanverðu; þar sátu menn inni og drukku, og voru farnir að gerast hreifir. Þó fór þar alt fram með enni mestu siðsemi.

Búr, eldhús, baðstofa, göng og bæjardyr voru troðfull af fólki, sem ekkert vissi hvar það átti að vera eða hvað það átti af sér að gera. Það var orðinn óþolandi hiti í bænum.

Margir voru úti á gangi; það var hvorttveggja, að það var hvergi hægt að vera inni, enda var veðrið svo, að ekki var síðr úti.

Enn það vantaði þó eitt úti; þar var hvorki að hafa kaffi né í staupinu.

— — Hallr hét einn af þeim, er að boðinu voru; hann var hálfþrítugr þetta kveld, og bar því ekki fátt til hátíðabrigðanna fyrir honum; það var líka auðsjeð, að hann var fyrir flestum enum yngrum mönnum, er þar voru staddir.

Vér höfum getið þess áðr, að klukkan var orðin 9.

Hallr var úti, eins og fleiri, og vissi eigi hvað hann ætti af sér að gera.

Hann ráðfærði sig stutta stund við nokkura menn úti á hlaðinu; það var auðséð, að þeir gerðu góðan

róm að máli hans, því að þeir gengu óðara með honum suðr fyrir bæ.

Sunnan undir bænum var sáðgarðr mikill; stóðu veggirnir í kring um hann nokkurn veginn, enn allr var hann orðinn grasi gróinn; það hafði enginn hirt um hann um langan tíma.

Garðrinn var rennisléttr, og hallaði hvergi út; meðfram veggjunum í kring stóðu þéttir og trénaðir njólaleggir, og löfðu utan á þeim rauð og skorpnuð njólablöðin.

Ef nokkurstaðar var álitlegt að skemta sér, þá var það þarna.

Hallr gekk nú til skála; þar var svo heitt og þungt loft, að nálega var kæfandi fyrir þá, er að utan komu.

Hallr bar þar fram þá tillögu, hvort mönnum þætti eigi ráðlegt, að færa drykkjusalinn út undir bert loft; það væri hvorttveggja, að hér væri illverandi fyrir hita sakir, enda kæmist hér ekki nema svo sem tíundi partrinn að brunninum af þeim, sem það væri ætlað.

Flestir þeir, sem inni voru, gerðu góðan róm að þessari tillögu; menn voru til fengnir, og hrip og annað þvílíkt var fært út í garðinn, og raðað ofan á nokkurum málsborðum, sem voru þar í bæjarsundinu.

Nú var borið út þangað það sem til þurfti.

Glös og skálar stóðu í röðum á borðunum, og aumingjarnir, sem lengst höfðu orðið að standa úti, flyktust að eins og lömb á garða, þegar þau eiga von á gjafamanninum með hneppið fram í garðann.

þeir, sem setið höfðu að drykkjunni inni í skálanum, höfðu sig í hægðum sínum út á eftir.

þarna var svo frjálst og fagrt úti. Hvað gat líka verið skemtilegra enn garðrinn þarna rennisléttr, með púnsborðinu í miðjunni, og veizlugestunum í hópum innan um garðinn; tunglið í fyllingunni steypti bláljósum geislum sínum ofan yfir garðinn; þétta gufu lagði upp úr púnsskálunum og glösunum upp af borðinu?; örmjóir, fagrbláir reykjartaumar þyrluðust upp úr vindlunum, sem verið var að svæla í ákafa. Mælskumennirnir héldu tölur hver í kapp við annan, og drukku minni hver annars með enni mestu snild.

Hallr stóð upp við búrstafninn — hann snøri suðr að garðinum— og gaf sig lítið fram í glauminn, meðan þessi minnahríð dundi af; hann drakk sum, en ekki öll, og svældi vindil sinn.

Loks varð nokkurt hlé á.

Hallr gekk fram að borðinu, tók stórt púnsglas nærri fult, og kneyfði í einum drykk.

Síðan gekk hann að búrstafninum aftr; þar lágu stórar hjólbörur á hvolfi; hann stökk upp á hjólbörurnar, og sagði hátt:

»Vilja menn gera svo vel og heyra mál mitt — má eg biðja mér hljóðs?»

Því játtu allir og drógu sig nær.

Hann þagði litla stund, eins og hann væri að sækja í sig veðrið. Svo tók hann til máls:

»Hér hefir nú margt verið talað í kvöld um landsins gagn og nauðsynjar, enda sér það á, að hér er komið saman það mesta mannval úr þessari sveit. Eg hefi því hugsað mér, að enginn stund

mundi vera hentugri enn þessi, til þess að leiða huga manna að nokkurum alvarlegum, og jeg vil segja bráðnauðsynlegum efnum, sem oss öllum hlýtr að vera mjög hugarhaldið um. Það er ið stóra og þýðingarmikla lífsspursmál ennar íslenzku þjóðar, það er *frelsi* hennar, og hvað vér, sem börn hennar, eigum að gera til þess að styðja að því».

Margar raddir: »Heyr! heyr!»

»Það er orðið sannreynt, að þessi ár, sem vér Íslendingar höfum átt að gefa oss lög sjálfir, hafa verið jafnan á því meiri og minni misfellur; þingið hefir ekki nóg vit og þekkingu til þess að gera þau almennilega úr garði, enda er það víst, að fleiri enn færri af þeim, sem á þingi hafa setið, hafa ekkert vitað í sinn haus um það, hvað þeir ætti að gera eða segja; þeir hafa ekkert vit á að koma saman almennilegum lögum, og þó að það væri aldrei nema þeir gæti það skár enn er, þá þora þeir það ekki; þeir eru logandi hræddir við stjórnina, svo að þeim verðr ekki að vegi að reyna að halda fram rétti sínum; þeir þykjast ekkert skyldugir til að vera á sömu meiningu og kjósendr þeirra, og svo ráða þeir flestu á endanum, sem stjórninni eru áhangandi; enn ef eitthvað er gert að lögum, sem er frjálst og viðunanlegt, þá stingr stjórnin því undir stól, og svo verðr það að engu. Svona eyðir þingið 30—40,000 af landsfje til einskis eða lítils, eins og það nú er. Eg hefi oft óskað þess, þegar eg hefi verið að lesa þingtíðindin, að eg væri kominn til þess, að segja þeim til syndanna, og reyna að stappa ögn í þá stálinu, heldr enn að láta stjórnina þjóna skrattanum með því að hafa okkur hérna

fyrir þræla,— þræla, segi eg, til þess að pressa út af oss gjöld, tolla og skyldur, enn neita oss um allan rétt annan, kýla mörvambir höfðingjanna, enn láta heilar sveitir svelta, og níðast svoleiðis á okkur, eins og hestaníðingar á bykkjum; enn svona má það ekki vera lengr; vér erum eins góð þjóð eins og Danir; það er ekkert betra blóð í Danskinum enn í oss; vér erum alment miklu gáfaðri og meiri menn enn þeir, höfum ekkert gert þeim, og því ættu þeir að gera svo vel og lofa oss að vera menn með frelsi og öllum réttindum, eins og þeir. Enn hér þarf alt að vera danskt: danskir þjófar embættismenn, eins og Fensmark, danskir snuðarar eins og kaupmenn, eins og við kunnum ekki að verzla sjálfir, og svo það sem til vantaði—: danskir Íslendingar, til þess að geta farið sem allra-verst með oss!»

(Margir sín á milli): »Þetta er aldeilis satt, sem hann segir. — Skratti segist honum vel —. Hann er held eg orðinn svo mentaðr, hann Hallr, hann veit hvað hann fer.—Við skulum kjósa hann á þing næst».

Menn voru farnir að hálfgarga hver framan í annan; Hallr sá á því, að tala hans hafði vakið nokkura eptirtekt, og fann, að það átti vel við að halda áfram, og ryðja sig í botn með það sem hann ætlaði sér.

Hann teygði sig því upp á hjólbörurnar, og kallaði stundarhátt:

»Má eg fá hljóð — eg var ekki búinn að tala út. Það er ótalmargt fleira, sem þarf að laga; það þarf ekki einungis að umsteypa allri stjórnarskránni,

því að hún er öll saman þrælsleg frá upphafi til enda; enn eg tala nú um það seinna betr, þó að það verði kannske ekki á þessum fundi. Vér þurfum fleira frelsi enn pólitiskt frelsi — við þurfum líka hugsunarfrelsi, og málfrelsi; eg hefi lesið um það í danskri bók, að sá hugsunarþræl dómr, sem liggi svona eins og bjarg á þjóðinni, sje prestunum að kenna; þetta var víst svo, enn nú kann að vera öðru máli að gegna. Nú er víða svo, að þeir eru ekki til annars enn hirða tekjur sínar; því er betr — menn eru nú alment hættir að trúa því, sem þeir segja, nema kannske einhver hjartveik kerling eða svoleiðis aumingja fáráðlingr. Enn hvað eiga þeir þá að gera, þegar svo er komið? Eigum vér að hafa þá til þess að hirða þessar vinsælu tekjur þeirra? Ef svo væri, þá væri nær að sópa slíkum ölmusuþegnum burt úr sveitinni, og skjóta heldr tekjum þeirra saman til þess að styrkja eitthvert þarft og þjóðlegt fyrirtæki, t. d. að senda mann til Ameríku til þess að kynna sér stjórnarhættina þar. Eg fyrir mitt leyti væri ekki á móti því, að hafa svo sem einn prest í sýslu til þess að jarða og skíra börn, ef þess endilega þykir við þurfa; enn kirkjugiftingar vil eg engar hafa; borgaralegt hjónaband bara og ekkert annað. Þeir hafa því ekkert að gera; þegar trúin er dauð og messur komnar úr móð, nema svo sem tvisvar þrisvar á ári, eins og í sumum sveitum — hvað á þá að bera þenna prestagrúa? Þegar mæniás og máttarviðir er fúið burt, á þá að skylda veggina til þess að halda uppi þakinu? Þegar trú og kirkjurækni er dauð og þjóðin orðin svo upplýst, að hún þarf

þess ekki við—á þá að skylda hana til þess að leggja slíkt á sig, að ala slíka menn? Eg segi því með öllum útlendum framfaramönnum: »Burt með alla presta og allan barnalærdóm»; enginn hlutr er óþarfari og óþokkaðri meðal barna enn kverið, þetta kalda trúargreinastagl, sem öllum leiðist, og enginn vill; eg segi því hátt hvar sem vill: burt með prestana, burt með lærdómskverið, því að þetta hvorttveggja drepr hugsunarfrelsi manna!»

Undir þessum hluta ræðunnar störðu allmargir hálfforviða á Hall; það voru miklu færri kunnugir þessum öfgum í frelsishugmyndunum enn í fyrra hlutanum var, enn eftir drykklanga þögn hófu nokkurir enna yngri manna upp röddina og sögðu:

»Já, burt með prestana og kverið!»

Enn ein rödd öldruð hóf sig hátt upp, og sagði:

»Enn hvað á að koma í staðinn?»

»Það er hægt að finna það; eg nefndi áðan að senda mann til Ameríku til að kynnast þar stjórnarháttum manna, til þess að vér Íslendingar getum fengið tækifæri til að kynnast því, að menta oss sjálfir undir það að eiga með oss sjálfir; enn sleppum nú því; hann er oss nógu óþolandi, þessi prestaskattr, enda eru menn nú farnir að sýna það í verkinu með því að tregðast við að gjalda, sem von er til; öll brauð á landinu munu gera framundir 200,000 kr.; helmingrinn af því ætti að falla niðr, enn hinum helmingnum ætti að verja til þess að menta alþýðuna; eg hefi oft hugsað um það, að það ætti allir unglingar eða börn að vera skyld-

uð í barnaskóla; og svo ætti að semja bók, sem ætti að læra þar, svo sem í staðinn fyrir barnalærdóm; þar ætti að vera fræðin, og ofboðsstutt ágrip af biflíusögum, og svo ágrip af náttúrufræði, búfræði, stjórnfræði og svona því helzta, sem mentuðum manni væri nauðsynlegt að vita; þar ætti og að læra ensku, enn dönsku held eg sé óþarft að læra; vér græðum ekkert á henni, eða viðskiftum við þá. Enskan er aftr bráðnauðsynleg; bæði er nú það, að við sækjum alla vora beztu verzlun til Englendinga, og svo getr vel skeð, ef stjórnin vill aldrei láta undan að kúga oss, að vér annaðhvort leitum undir vernd Englendinga, eða neyðumst til að hrekjast til Ameríku. Þetta ætla eg að biðja menn að athuga svo vel sem unnt er, til þess að menn geti orðið viðbúnari til þess að taka á móti þeim ráðum, sem mjer hugsast til að hjálpa við frelsi voru.

Með þetta fór hann ofan af hjólbörunum.

Í því bili var komið að innan úr bænum með stórar skálar með heitu vatni og annað, er til púnsgerðar þurfti, og leið nú ekki á löngu áðr enn menn voru seztir að þeirri krás, og töluðu hver í kapp við annan um ræðu Halls.

Einar gamli hreppstjóri á Moldastöðum, auðgasti maðr þar í sveit, var tekinn að gerast þægilega kendr, og það jafnvel heldr um of, er nú var komið; hann hafði setið við rommflösku í garðinum, meðan Hallr þuldi tölu sína; enn er hann var búinn, varð honum að orði:

»Heyr á endemi!, eg skal reyna að lækka rostann í helvítinu!», svo gekk hann fram að borðinu, og

beið á meðan aðrir voru að væta sér, og fékk sér í einu hálfu; svo kallaði hann upp: »Heyrið til piltar, gamli Einar á Moldastöðum ætlar að tala fáein orð!»

Svo gekk hann nokkurn veginn stöðugt að hjólbörunum, og steig upp á þær. Tunglið sló silfrlitkuðum ljóma á hvítgráan hærukransinn um höfuð honum.

Einar gamli var vel mentaðr að eldri mönnum; enn hann kunni eigi við nýbreytni tímans; enn eigi að síðr mátti hann sín ætíð mikils, þó að enir yngri menn væri farnir að gerast móthverfir í sumu.

Tölu sína hóf hann á þessa leið:

»Það er nú ekki víst, að þessu heiðraða samkvæmi finnist til um það, sem Einar gamli á Moldastöðum segir, þó að hann hafi hingað til þótt góðr til úrræðanna, þegar þeir voru ráðalausir, eftir það að þessi nýmóðins vindbelgr hefir blaðrað hér af heimsku sinni yfir ykkr. Eg læt mér nægja að lýsa yfir því, að öll þessi svarta vilsa, sem þú, Háafells-Hallr, hefir hér spýtt yfir menn af heimsku þinni, er ekki svara verð; það ægði svo saman hjá þér heimskunni og illgirninni, vindinum og græningjaskapnum, að eg get ekki fengið af mér að reyna að svara þér með ástæðum; það á ekki við að svara vitleysu með ástæðum; það tekst aldrei að sannfæra þá, sem hafa lamið heimskuna jafnfast inn í sig, eins og harðhnyktan hestskónagla. Enn það vil eg nú ráðleggja þér, áðr en þú ætlar að gera aðra jafnvitlausa þér í næsta sinn, að gefa betr gaum að því, sem aðrir þér slægari spýta í þig, svo að þú skiljir það betr, áðr en þú ber það

á borð fyrir aðra; þú þykist hata Dani, og hefir þó lapið þitt vit þaðan; þú vilt heldr vera undir valdi Englendinga — farðu til Írlands og vertu þar, og lofaðu þá svo; og eftir því sem þú hefir komið hér fram í kvöld, þá vildi jeg óska, að þú værir þangað kominn eða annað enn þá lengra: það væri landhreinsun. Taktu eftir þessu, sem eg segi þér nú, Hallr minn; þegiðu og lærðu að skammast þín áðr enn þú ætlar að gerast flokksforingi .... strandarmanna. Þá kann eg að geta notað þig í mínum hrepp; enn annars máttu fara til fjandans — og því fyrri því betra!»

Svo steig hann ofan af hjólbörunum aftr, gekk að borðinu og fékk sér í staupinu.

Það var auðséð, að Halli féll þessi tala illa, enn lét þó sem ekkert væri; hann glotti að eins, eins og hann annaðhvort vissi varla hvað væri farið með, eða virti það að vettugi.

Hann ætlaði sér að svára einhverju, og gekk að hjólbörunum, enn Teitr í Skarði var þá þangað kominn; hann var ungr bóndi heldr, enn að venju fremr dulr og óframfærinn.

Hann var ofrlítið hýrgaðr, og varð við það djarfari; menn urðu fullir eftirvæntingar að sjá Teit, sem varla hafði nokkurn tíma á mannfundum mælt, stíga í stólinn; enn hann lét sér hvergi bregða; hann stóð þar keikr í tunglsljósinu og hóf ræðu sína; hann talaði fyrst lágt og ódjarflega, enn sótti sig eftir því sem fram á leið.

»Hér eru ræðuhöldin farin að gerast alvarlegs efnis, og alvarlegri enn eg bjóst við að gæti orðið hér í kvöld. Hér hafa tveir talað af allmiklum

hita, og eg vil geta svo góðs til, að það hafi verið af sannfæringu. Síðari ræðan, sem minn heiðraði hreppstjóri hélt, var svo úr garði gerð, að eg leiði minn hest frá að tala meira um hana, enda var hann í því ástandi, að hann var naumast fær um að bera ábyrgð orða sinna, og sízt hefði mig hent að búast við að heyra slíkt frá jafngreindum og mentuðum manni og hann er. Það vekr mér mikla sorg; enn mér til mestu gleði þykist eg sjá, að hann sé að sofna þarna úti í garðshornin, svo að ekki muni þurfa að búast við slíku framar af honum í kvöld. Enn að þinni ræðu, Hallr, vildi eg snúa orðum mínum lítið eitt, af því að hún var eftirhljómr af þeim frelsisöfgum, sem nú ganga eins og grár köttr hér um sveitir. Af ræðu þinni mátti það ráða, að þú álítr Dani sem höfunda allra vorra þjóðarmeina, að það eru þeir, sem kúga og kvelja oss Íslendinga, að vér höfum alt ilt af þeim: aftrhaldssama og svikula embættismenn, vonda verzlun og þunga skatta. Enn það er ekki satt; stjórnin fer ekkert betr með Dani sjálfa enn með oss, nema ver sé; lestu blöðin og dæmdu svo um það, er þú hefir kynt þér málið; þú úthúðaðir þinginu fyrir heimsku, hræðslu við stjórnina og hugleysi við að fylgja sannfæringu sinni, ef hún annars væri nokkur; það er aldrei nema satt, að það væri miklum mun betra, ef þingmannaval væri betra, enn því verðr að tjalda sem til er, og eigi dugir að kasta skuldinni á þá fyrir það, þó að stjórnin neiti lögum; enn að setja stjórnina og þingið undir sama númer, finnst mér vera vitleysa, því að þau togast þó alt af á um

málefni landsins; enn að fá lögun á þessu, held eg sé heimska að hugsa sér, meðan sú stjórn sitr að völdum í Danmörku, sem hefir Rússa fyrir lærifeðr, og ekki sinnir neinum frelsis- eða framfarahreyfingum. Enn hvað skatta og skyldur snertir, þá veit jeg ekki til, að neitt af því skelli í Danastjórn, heldr hefir þingið mest umráð þess, að það fer mest til innanlandsþarfa; annað mál kann að vera, hvað því fé er öllu vel varið, enn það gengur nú oftast svo, að eitthvað fer í súginn. Enn ekki má ætla stjórninni alt ilt, þó að margt megi að henni finna, og betr væri að hún breyttist; ekki vissi hún, að Fensmark mundi stela fé landsins svo tugum þúsunda skifti, enn þegar fór að brydda á því, þá var henni sjálfrátt að setja hann frá og heimta út féð; og þar kemr fram fyrst óveruskapr og grunnhyggni bæði þings og stjórnar, að búa ekki betr um hnútana enn svo, að þegar til kastanna kemr, veit enginn hvar ábyrgðin er — enginn hefir ábyrgð á gerðum embættismanna, og sízt þeir sjálfir, þar sem svo stórkostlegum þjófnaði er svo gott sem ekkert hegnt. Enn hvað þessar frelsishugmyndir snertir, þá bera margir þetta dýrmæta orð svo á vörum sér, sem ekkert vita hvað þeir fara með; þetta orð, *frelsi*, það má teygja það á allar lundir, eins og hrátt skinn; það er líkt eins og *sannleikr* og hin *æðri þekking*; það er ekki enn kominn neinn til þess að segja oss, hvað það er, fyrir víst. Enn ef það er eitt af skilyrðum frelsisins, að vera laus við alla trú og alla presta, þá er það æðri speki enn eg fæ skilið, enda hefi eg nú ekki gengið í gegnum marga skól-

ana. Enn það veit eg, og það af eigin reynslu, að góðr prestr er prýði sveitar sinnar, og ef hann er góðr fræðari og lipr kennimaðr, þá er hann ekki öfundarverður af tekjum sínum; þær gjaldast ekki heldr svo vel; enn það vil eg líka manna fúsastr játa, að óreglusamr og ónýtr prestr er lítið betri enn ekki neitt, og ef til vill lakari; þau störf, sem prestum eru ætluð, fara eigi öðrum vel enn þeim, sem til þess hafa lært; lærdómr þeirra kostar fé, og það þurfa þeir að fá endrgoldið með atvinnu sinni, til þess að geta staðið sómasamlega í stöðu sinni, lesið og fylgt tímanum. Ef þeir eru hirðusamir, er það nóg alþýðumentun, sem þeir veita, og lög um uppfræðingu barna veitir; það er þá hverjum hægt að bæta þar við; enn að stofna eintóma skóla, sem allir eiga að nota, og verja tekjum presta til þess, er glæsileg hugmynd — enn hún á sér aldrei stað hér á landi, nema sem orð. Það er of strjálbygt hér til þess, og að gera alla að náttúrufræðingum, stjórn- og búfræðingum, er bæði óhugsandi og ógerandi; það hefir aldrei mikinn árangr. Það má vera, að lærdómskverið sé þurt, enn það er góðs prests að lífga það við; kverið er grindin utan um þá lærdóma, sem eiga að koma lifandi fram í samtali prestsins við börnin; það er ekki þurrara enn aðrar skólabækr; enn efni þess er þó það, sem þarfast er og nauðsynlegast til þess að gera barnið að sönnum manni, bæði fyrir þetta og annað líf. Þetta finnr margr, þegar hann fer að eldast, og þá verðr varla stjórnfræðin eða búfræðin nóg; þær grindr eru gleymdar, enn þá lifna að nýju hinar gleymdu hugleið-

ingar frá kverinu, og verða þá metnar rétt, þó að mönnum hafi leiðzt þær á barnsaldrinum; ef enginn ætti að læra annað á barnsaldri enn það, sem hann vill, þá er hætt við að einhverjum leiddist hitt líka, og færi svo ekki betr. Það þarf enginn að verða þræll í hugsunarhætti fyrir prestinn sinn eða kverið sitt eða stjórnina; menn hafa það mál- og ritfrelsi hér, að hverjum er heimilt að tala og rita alt það sem er að einhverju leyti til gagns — um hitt má gjarnan þegja — það verðr aldrei skaði að því. Enn í einu erum við þrælar, Íslendingar, það verð eg með kinnroða að játa hér í tunglsljósinu; vér erum vanans þrælar, þrælar hirðuleysisins og þrælar sjálfra vor; vér getum aldrei lært að verða sjálfstæðir menn; vér gortum af mentunarfroðu, sem ekkert er, og viljum með því ráða öllu, og eins því, sem vér höfum ekkert vit á. Vér getum aldrei lært að setja almennilega á, og drepum úr hor á hverju vori; ekki vænti eg það sé stjórnin, Hallr, sem teymir hafísinn hér upp að landi, eða telr oss trú um, að það sé búhnykkr að setja skepnur sínar í voða fyrir heimskulegan ásetning? Það er vor frámunalega þrjózka, að læra aldrei af skömminni og skaðanum, sem gerir oss að þrælum. Vér erum í hengjandi kaupstaðarskuldum fyrir tóman óþarfa, stjórnlausar kaffidrykkjur, nokkurar víndrykkjur og heimskuleg léreftakaup; kaupmaðrinn lánar oss óþarfann, af því að vér biðjum með þeim bænarsvip um þetta, eins og um lífið sé að tefla, og svo förum vér á sveitina, þegar að kreppir; er það stjórnin sem setr oss

á hausinn? Ónei, það erum við sjálfir; eg hefði gaman af að sjá, hvað miklum stakkaskiftum Íslendingar tæki í þessum efnum við nýja stjórnarskrá, og hvað þeim færist vel að stjórna sér að öllu leyti, ef þeir kunna ekki betr enn þetta heima hjá sér. Eg vil því heimta, að menn menti sig sem bezt, bæði andlega og verklega, siðferðilega og hagfræðilega, og þegar það er komið í kring, þegar menn eru orðnir sjálfstæðar sálir, færar um að ráða sèr, og frjálsar í anda, þá er tími til kominn að taka við og herja stjórnarbót út úr Danastjórn með oddi og eggju, ef hún, nefnil. stjórnin, verðr þá nokkur til, þegar sá dagr rennr upp. Eg hefi talað þetta óljóst og af fáfræði minni, enn eg ætla þó, að margt af því sé þess vert, að því sé gaumr gefinn».

»Þetta er nú líka alveg satt, sem hann segir».

»Því ætli það sé ekki».

»Nei, eitthvað var ljótt, sem hann sagði um okkur; sagði hann ekki við værum þrælar?»

»Ójú, og hann vildi ekki hafa stjórnarskrána strax».

»Því ekki það?»

Svona voru menn að malda á milli sín um tölu Teits, meðan hann fór ofan af hjólbörunum, gekk að borðinu og kveikti í vindli.

Nú var Hallr búinn að fá nóg; honum þótti þessi ræðan sýnu verri enn hin.

Hann trað sér því sem fljótast hann gat fram að hjólbörunum aftr, og stjakaði frá einum tveimr eða þremr, sem vildu ná í veldisstólinn, og steig sjálfr upp, og tók þegar formálalaust til máls:

»Ríkr er aftrhaldsandinn í ykkur, Íslendingar», sagði hann og hristi höfuðið; »og er það von, eftir meira en 600 ára þrælkun. Þessa blindni get eg skilið hjá gömlum mönnum, og er því það skynsamasta, að meta að engu það, sem þeir segja. Enn um ræðu Teits verð eg að segja, að mér blöskraði það af jafnmentuðum manni og hann er, að hann skyldi halda sína fyrstu tölu með jafnríkum aftrhaldsanda og hann gerði. Hann vill ekki stjórnarskrána strax; það er álíka skynsamlegt, eins og að vilja ekki lækna sjúkan mann fyrri enn hann sé kominn í andarslitrin. Enn það má hann eiga víst, að þegar Íslendingar eru búnir að fá fult stjórnfrelsi, þá fara þeir að sjá um sig sjálfir og stjórna sér betr við eyðslu og óárani, enn fyrri ekki; þegar það pólitiska óáran hættir, fara menn að finna, að það er líka hægt að gera við hinu; það væri gott að geta séð við hvorutveggja í einu, enn það dugir aldrei; það getr enginn orðið sjálfstæðr undir stjórnarófrelsi, og ánauð . . . .».

»Og ekki þú sjálfr, Hallr?» tók Teitr í Skarði fram í.

»Það er annað mál, þó einstakir menn geti hafið sig upp yfir manngrúann, til þess að berjast fyrir stjórnarfrelsinu; það eru ekki allir Íslendingar. Það eru til margar heiðarlegar undantekningar, sem jafnvel hafa stofnað félög til þess að berjast fyrir réttindum lands vors; þannig hafa komið upp Þjóðfrelsisfélagið í Reykjavík og Þjóðliðið í Þingeyjarsýslu; enn þessi félög hafa ekki orðið langgæð; þau hafa ekki orðið eins úthaldsgóð eins og þarf,

og bendir það á það, hvað Íslendingar eru orðnir þrælkaðir af ánauð Dana, að þeir una sér undir okinu. Mér hefir nú komið til hugar að reyna að stofna hér félag, sem ætti að geta breiðzt út um alt Ísland, ef vel væri á haldið, og orðið að ómetanlegu gagni, og svo öflugt, að Danir enda hlytu að láta undan því og gefa landinu nýja og viðunanlega stjórnarskrá, og enda það sem bezt væri, sleppa því alveg, svo að vér gætum komizt í samband við Englendinga eða Ameríkumenn. Þá skyldum við sjá, hvort ekki gæti eflzt auðr og velmegun á Íslandi og Íslendingar komið til með að jafnast við hverja aðra þjóð í heiminum . . . . .»

(Fjöldi manna) : »Heyr, heyr !»

. . . . . »og að síðustu jafnvel við stórveldin sjálf, þó að það yrði ekki að fólksfjölda, nema þeir færu að nema land í einhverri heimsálfu fyrir sig undir sinni eigin forsjá. Félag þetta ætti þannig að berjast af alefli fyrir frelsi landsmanna, láta kjósa alla þingmenn úr sínum flokki, ráða þannig öllum fjármálum landsins og stjórn þess, stofna innlendan iðnað, og selja enga vöru út úr landinu nema fyrir peninga eða nauðsynjar, sem væru eins ódýrar eins og á móti peningum, stofna banka og aðra sjóði, helzt í hverri sýslu, verðlauna einstaka dugnaðarmenn í stjórnmálum, iðnaði og búskap, og svo standa fyrir og gangast fyrir bindindi, að minsta kosti að nokkuru leyti, flæma alla danska kaupmenn frá landinu, enn taka verzlunina alveg í sínar hendr, kaupa gufuskip til siglinga landa á milli, og til fiskiveiða, hákarla- og hvalaveiða kring um landið, banna Frökkum og öðrum útlendingum

veiðar hér við land, og svo margt annað, sem eg man ekki enn í svipinn. Félag þetta dettr mér í hug, að skyldi heita *Frelsisherinn*, af því að það ætti að berjast með öllum vopnum og vélum, leyfilegum sem óleyfilegum, fyrir frelsi landsins, og halda svo velli með heiðri og sóma, sem Haraldr inn hárfagri í Hafrsfirði; enn ef svo ólíklega skyldi til vilja, að Frelsisherinn yrði undir fyrir ofstæki og harðstjórn Dana, þá væri annar vegr fyrir — að breyta eftir Skallagrími og öðrum stórhetjum fornaldarinnar, og flýja vestr um haf af nýju, og gera oss nýtt og frjálst Ísland á Alaska eða einhversstaðar annarsstaðar í Ameríku. Og þá hefir Frelsisherinn samt unnið glæsilegan sigr, að draga landsmenn undan okinu, og skilja Danskinum eftir auðan og beran hólmann, svo þeir geti þá grýtt honum á milli sín eins og þeir vilja. Enn eg vona, að slíkt þurfi ei að verða, enn, ef eg hefði forustu félags þessa á hendi, að eg fengi þá á endanum að sjá mína elskuðu fóstrjörðu frjálsa og fagra, auðuga og volduga undir verndarvæng guðs og náttúrunnar, eins og hún nú er fögr og inndæl hèr í tunglsljósinu».

Slík ræða og slík mælska hafði ekki heyrzt fyrri þar í sveit; Hallr var búinn að tala í sig ákafa; hann baðaði út höndunum og kinkaði kollinum framan í tunglið, eins og hann ætlaði að kalla það til vitnis upp á sannleika þessara orða. Enn það horfði kuldalega og alvarlega yfir hópinn, eins og áðr. Skýjadrögin á norðrloftinu voru farin að þéttast.

Tunglið var nær miðmundastað á lofti; nótt var

liðin nær óttuskeiði; veizlugestir voru að góðum mun farnir að fækka, sumir voru farnir burt, sumir sofnaðir, annaðhvort þar sem tiltækilegt þótti að fleygja sér inni í bæ eða úti; allmikil hrúga lá í kös í kring um Einar karlinn á Moldastöðum, og hafði einhver verið svo miskunnsamr, að kasta yfir þá reiðpilsum og öðru slíku dóti, til þess að verja þá hrolli.

Ræðurnar höfðu dunið hver á fætr annari frá hjólbörunum; alt af jókst áhuginn og alt af urðu mönnum ljósari annmarkar þeir, sem voru á stjórninni. Í sem fæstum orðum að segja: »Felsisherinn» var stofnaðr; rúmt hundrað karlar og konur var skrifað upp á lista sem dátar í her þessum. Svo var kosin þriggja manna nefnd til þess að semja lög og reglur fyrir herinn til að haga sér eftir.

Almennr samkomudagr var ákveðinn að Háafelli fyrsta dag vetrar.

Það varð sem vænta mátti.— Hallr varð formaðr nefndarinnar.

Sumir vildu kjósa Teit í Skarði, enn Hallr neitaði honum — hann væri ekki nema til trafala, eins og aðrir aftrhaldsmenn.

Minni Halls og Frelsishersins voru drukkin í óðaönnum, þangað til Ingjaldr . . . . strandarskáld kom að innan með blað í hendinni.

Honum fylgdi organistinn frá H . . . . kirkju, og var nú búinn að sleppa harmóníkunni, og allmikill flokkr með honum. Það var söngfélag hans.

Blaðið, sem hann hélt á í hendinni, var »minni

frelsisins». Hann hafði verið að yrkja það um nóttina, og söngfélagið að æfa sig á laginu.

Organistinn raðaði söngflokknum niðr, var sjálfr í diskants-flokknum, og setti sauðina, nefnil. milliröddina, sér til hægri hliðar, enn hafrana, bassana, til vinstri; svo hófu þeir sönginn á þessa leið:

Vín á skálum vinir hér!
von og gleði' í brjóstum er;
innra hjá oss alt sé glatt,
oft þó megum feta bratt.
Þegar skálin blikar bjarta,
bezt er þá að kalla' af hjarta:
frelsi og föðurland!
og hjörtun hrópa með:
frelsi! föðurland!.

Helga, fagra frelsisrós,
fagurt er þitt dýrðarljós!
Förum við það fram á leið
framfaranna markað skeið.
Þegar skal við þrautir stríða,
þá skal eigi bogna' og kvíða
fyrir vort föðurland!
enn hrópa hátt og snjallt:
frelsi! föðurlaud!.

Hér er fögur frelsisskál!
framkvæmdanna er komið mál.
Svíkjum aldrei okkar her,
áfram, bræður, skulum vér!
Áfram, bræður, engu kvíðum,
ótrauðir til sigurs stríðum,
fyrir þig, föðurland!
og hefjum heróp vort:
frelsi! föðurland!.

Kvæðið var vel sungið; í laginu lá svo mikið af töfranda fjöri, það var fólgið svo mikið traust og mikil hugrekki í hverjum samtón lagsins, að það lá við, að menn yrði að trúa á þá sannfæringu, sem væri lögð í orðin, sem það var sungið við. Það var hersöngr ens trúarörugga mannshjarta, sem berst við ofrefli, enn vonar þó statt og stöðugt eftir að vinna sigr á endanum.

»Lifi frelsið! lifi föðrlandið! lifi Frelsisherinn!» æpti Hallr svo hátt, sem honum lá rómr til, og hrópaði síðan nífalt húrra; tóku allir undir það, og þeir, sem voru æstastir frelsismenn, bættu enda því tíunda við.

Svo var minni Frelsishersins drukkið í botn af þeim, sem í eitthvað náðu.

Síðan var farið að tala um bindindi; enn með því að menn voru þá orðnir svo mátulegir, að menn voru til í alt, var þegar nærfelt umræðulaust samið bindindi undir forustu Halls, og komu um 60 á bindindislistann.

Svo kom einn með þá tillögu, að menn skyldu drekka minni bindindisins til ýtrari tryggingar, og skuldbinda sig til þess að láta þar við lenda, og »bragða ekki vín þetta árið».

Þessi tillaga fekk enar beztu undirtektir.

Óðara var sendr inn maðr til þess að fá það, sem til þyrfti að drekka rækilega minni bindindisins.

Maðrinn kom skjótlega aftr, og sagði, að það væri enginn lekandi dropi framar til, nema neðan í einni pytlu af brennivíni.

Það sló daufri þögn yfir hópinn.

Menn höfðu hlakkað svo mikið til að drekka minni bindindisins ! !

Vonum bráðar fóru menn að fara.

Klukkan 6 var enginn eftir úti.

Borðið stóð enn í garðinum, fult af tómum skálum, flöskum, púnsglösum, sykrskálum og öðru því, er til þurfti.

Dauf og döpr þögn grúfði yfir öllu. Tunglið varp bláfölvum ljóma sínum yfir þessa dauðakyrð.

Skýrákirnar á norðrloftinu voru runnar saman í þéttan, hvítleitan skýjabakka.

Enn Einar á Moldastöðum og fimm eða sex aðrir lágu enn og sváfu í garðshorninu.

## II.

„Köld er undiralda“.

Hér verðr að gera grein fyrir nokkrum þeim, er helzt snerta sögu þessa.

Hallr Hallsson bjó að Háafelli þar á . . . . ströndinni, þegar saga þessi gerðist; hann var af efnuðum foreldrum kominn, og voru þau nú bæði dáin; hann var einbirni, og hafði erft allan fjárhlut eftir þau.

Æfi hans hafði gengið hálfskrykkjótt: eintómar byrjanir, og annað ekki.

Þegar búið var að ferma hann, þá fastréðu foreldrar hans að gera úr honum lærðan mann; ekki var það reyndar fastákveðið, áðr enn hann fór að byrja á grammatíkinni, að gera úr honum prest; það gæti eins vel verið, að hann yrði »doktor» eða »lagajúristi», sagði móðir hans.

Hann lærði undir skóla heilan vetr, enn svo var það búið; hann hafði enga eirð við það.

Svo fór hann á Möðruvallaskólann; hann var þar einn vetr og nenti ómögulega að vera lengr.

Síðan varð hann búðarmaðr, og sigldi þaðan á verzlunarskóla. Enn það fór á sömu leið. Hann kom upp um vorið litlu fróðari enn hann fór.

Stundum var hann heima ár í bili.

Enn foreldrar hans vildu ekki hætta við svo búið.

Seinast fór hann á búnaðarskóla, og var þar einn vetr. Þá dó faðir hans á einmánuði.

Þá fór hann heim til móður sinnar, og tók til húsforráða með henni.

Hann var þá á fjórða ári yfir tvítugt.

Þar fann hann að lokum það, sem við hann átti.

Hann hafði enga stöðvun eða staðfestu í sér til þess að halda neinu námi áfram. Hann vildi helzt alt af hlaupa úr einu í annað. Hann var horfinn frá því á morgun, sem hann vildi í dag.

Það eitt, að standa fyrir búi og annast um það, átti við hann; það var náttúra hans.

Enn hann vildi láta bera á sér; í búskapnum fór hann að reyna að verða á undan öðrum. Hann vildi vera fremstr í öllu í sveitinni. Hann hélt sómasamlega í horfinu búi móður sinnar.

Þetta sama sumar, sem saga vor gerðist um haustið, hafði móðir hans andazt.

Hann bjó því með vinnukonunum einum, og geta þeir hælt því, sem vilja.

Enn Hallr var ekki á því ; hann vildi fara að staðfesta ráð sitt og kvongast.

— — Einar gamli hreppstjóri hafði búið á Moldastöðum mestallan sinn búskap, og búið ágætlega.

Hann hafði verið framfaramaðr fyrir 30 árum, og þá jafnvel setið sem varaþingmaðr á einu eða tveimr þingum, enn síðan hafði hann dregizt aftr úr.

Hann var því vanastr, að hafa töglin og halgdirnar í allri sveitarstjórn og öðru stórvægilegu, sem fyrir kom á . . . . strönd, og var hinn bezti forstjóri í öllum héraðsmálum.

Enn það átti ekki við hann, ef menn voru á öðru máli enn hann. Enn þó sló hann því aldrei út stórkostlega, nema þegar hann hafði eitthvað í kollinum. Þá var hann til með ausa úr sér sóðalegum skömmum.

Einar var kvæntr og átti tvær dætr.

Þorbjörg hét sú eldri. Hana átti Teitr í Skarði.

Herdís var yngri. Hún var heimasæta hjá föður sínum.

Hana vildi Hallr fá.

Og var það ekki heppilegt? Einar hafði ekki fremr auga á neinum fyrir tengdason heldr enn Halli.

Herdís var fríðasta stúlka þar um slóðir. Hún hafði það fríðleikslag, sem fremr er fátítt hér á landi, enn er fremr einkenni suðrænnar fegrðar.

Hún hafði nærfelt hreint grískt andlitslag. Hárið var kolsvart og mikið, yfirlitrinn hvítr og fremr fölr, drættirnir í andlitinu hreinir, og vöxtrinn tigulegr.

Hún var bæði vel að sér og dugleg heima fyrir. Það var því engin furða, þó Hallr vildi ná í hana öðrum fremr. Það voru líka álitleg efni í vonum frá Moldastöðum, svo sem í viðbót við Háafellsbúið.

Þau voru líka kunnug síðan þau voru börn, og verið þá jafnað saman, og enda komið mjög vel saman.

Það var enda talið áreiðanlega víst, og haft eftir einhverjum, sem hafði það eftir kunningjastúlku Herdísar, að hún vildi sjálf engan fremr enn Hall.

Enn það var einn annmarki á — að eins einn.

Þegar Einar gamli raknaði út rotinu í sáðgarðshorninu á Skarði, neri hann stýrurnar úr augum sér, og fór inn í baðstofu og fleygði sér þar upp í rúm fyrir framan tvær vinnukonur innarlega í baðstofunni.

Það var enn töluvert ryk í honum.

Hann lá þar endilangr upp í loft á rúmstokknum, krosslagði hendrnar undir hnakkanum, og lygndi augunum blýgráum út í hálfbjartan gluggann. Það var orðið hálfbjart af degi.

Svo fór hann að skeggræða við sjálfan sig:

»Þessi bölvaðr uppskafningr! Það er von hann láti svona, sem ekkert vit hefir á þessu; nei, ef hann heldr þessu áfram», sem hann kvað á, »þá þarf hann ekki að hugsa til þess að koma til mín í neinum erindagjörðum; ónei, eg vil ekki hafa skuggafífl fyrir tengdason!»

Eitthvað drundi meira í honum af þessu tagi, og var komið svo langt lestrinum, að heldr skyldi hann gefa hana Sigurði draugi eða Magnúsi hol-

góma, sem voru alræmdir laupar þar um sveit, enn Halli, ef hann héldi áfram uppteknum hætti með þenna pólitiska vindbögling, sem hann kvað á og tiltók. Þá fór að koma hreyfing fyrir ofan hann í rúminu. Vinnukonunni, sem framar lá, þótti þröngt, og vaknaði við vondan draum; hún fór að reyna að stjaka við karli, og sagði um leið:

»Hvaða bölvaðr klettr er þetta; farðu ofan af mér; er það ekki þú, Jónsi?, þú ert eins og vant er með bannsetta hrekkina; nú, farðu, farðu, skammastu burt, nú, farðu nú».

Einar gamli glotti í kamp, þreifaði upp fyrir sig, klappaði á kollinn á stúlkunni, og sagði kátbroslega:

»Og því er nú miðr, það er nú ekki hann Jónsi þinn, það er gamli Einar á Moldastöðum; hann dró sig hérna inn til þín, þegar honum var farið að kólna».

»Nú, farðu bara, hvað á þetta káf að þýða?; eg held þú getir hlunkast einhversstaðar annarsstaðar enn hérna».

»Nei, við skulum nú vera stilt, góin mín; mér rataðist svona einhvern veginn á plássið hans Jónsa þíns».

»Eg á engan bölvaðan Jónsa, og farðu!»

»Nei, það veit eg vel, hann er víst blessaðr, hann Jónsi þinn; er ekki svo?»

»Eg á engan Jónsa, og segi eg þér það enn; og hlunkastu svo einhvern tíma burt, og láttu mig vera».

»Jæja, greyið mitt, máske eg geri það fyrir þig,

eg heyri að Teitr er vaknaðr», sagði Einar og stóð upp, og gekk inn í hús þeirra hjóna.

Það var alt fólk vaknað í baðstofunni við samræður þeirra Einars og Siggu, og spunnust út úr því alllangar samræður í frambaðstofunni, þangað til Sigríðr var komin í fötin, og slapp fram til þess að hita á katlinum.

Einar gamli sofnaði sér góðan dúr inni í rúmi þeirra hjóna, og reið ekki heim fyrri enn undir kvöld. Enn það sagði hann Teiti seinast, að ekki þyrfti Hallr að hugsa til að fá Herdísi, nema hann fengi ofrlítið meira vit enn hann hefði sýnt í gærkveldi. »Blessaðr Teitr», sagði hann, þegar hann var kominn á bak; »reyndu til þess að vita, hvort honum er alvara með þessa vitleysu, því að þá held eg að það verði bezt að gera úr honum smiðjubelg».

Með það sló hann upp á, og Gráni þandi sig á flugaskeiði út alt tún og svo í hvarf.

## III.

Maðr, hví horfirðu fram?
„Eg sè eftir veginum fremri“.
Maðr, horfðu þér nær:
liggur í götunni steinn.

Laugardaginn fyrstan í vetri var stefnudagr að Háafelli, svo sem áðr var á kveðið.

Þriggja manna nefndin: Hallr að Háafelli, Gunnar í Selbrekkum og Árni á Ærlæk höfðu soðið saman lög Frelsishersins og skipunarskrá; hafði það gengið fljótt, því að flestir samþyktu það sem Hallr sagði.

Nú átti að ræða lög þessi í dag.

Það var ofsa-sunnanveðr og hláka; hann rauk kafþykkr með köflum, enn stundum reif dálítið til. Hvassviðrið var svo mikið, að naumast var stætt, og hrikti og brakaði í hverju tré.

Enn samt var sannfæring manna um það, hvað köllun þeirra væri þýðingarmikil fyrir ættjörðina, svo föst, að nær 30 enna helztu ungra manna voru komnir að Háafelli fyrir miðmunda.

Þessir voru inir helztu forsprakkar, sem orðnir voru út um næstu sveitir. Þeir höfðu talað máli þessa fyrirtækis, og áunnizt mikið.

Hallr hafði skrifað enum helztu þeirra bréf, til þess að hvetja þá til þess að fá sem flesta liðsmenn í Frelsisherinn, og sett þá skipun eftir samráði við meðnefndarmenn sína, að taka skyldi kvenfólk og enda börn, eldri enn tíu ára, í félagið.

Fyrst voru bornir saman nafnalistar þeir, sem félagsmenn komu með, til þess að fá yfirlit yfir liðsafla þann, er etja skyldi á móti stjórninni.

Síðan voru öll nöfnin rituð á eina skrá, og töldust þá nöfnin 236 : 130 karlar, 77 konur og 29 börn ófermd.

Að því búnu var farið að ræða lögin ; það var mikið verk og vandasamt, og var því ekki lokið fyrri enn almyrkt var orðið.

Lögin og umræður um þau, breytingaratkvæði og -tillögur set eg hér eigi ; það yrði á við 3 eða 4 fundi í þingtíðindunum ; enn grundvallaratriði laganna, stefna og þýðing, starf og verksvið Frelsishersins var hér um bil tekið fram á þessa leið :

1. Frelsisherinn á að neyta allrar orku í því, að fá sem flesta Íslendinga til þess að ganga í flokk með sér til þess að beita afli sínu á móti enni dönsku stjórn í því skyni að ná sæmilegum réttindum fyrir land sitt.
2. Allir alþingismenn skulu kosnir af þeirra flokki, og alt vald þingsins skal því komast í þeirra hendr; ef auðið er, skal koma öllum dönskum og dansklunduðum embættismönnum frá embættum, og setja lærða Íslendinga úr Frelsishernum í þeirra stað.
3. Enn fremr skal Frelsisherinn taka að sér umsjón með því, að allri atvinnu: landbúnaði, sjávarútvegi, iðnaði, vegagjörðum og öllum öðrum samgöngum verði komið í betra horf. Einkanlega skyldi hafa að marki og miði að koma því á, að banna öllum útlendum þjóðum fiskiveiðar við landið, og kaupa síðan gufuskip og flytja á því fiskinn til Spánar.
4. Enn fremr átti félagið að sjá til, að prestum yrði fækkað sem mest, enn tekjum þeirra varið til alþýðumentunar, og allr fjárhagr ríkis og kirkju aðskilinn.
5. Til að bæta fjárhag landsins, skyldi láta sér fyrst um sinn mest umhugað um, að lækka sem mest launahrúgu embættismannanna, taka af öll skattgjöld til þess að létta byrðinni á alþýðu; enn setja tolla á alla útlenda vöru, nema það sem allranauðsynlegast er, t. d. matvöru, járn o. fl.
6. Fyrst um sinn skyldi menn skrifa í allar sýslur landsins til þess að fá sem flesta í herinn; enn svo fljótt sem auðið væri, skyldi útvega sér prent-

smiðju, og gefa út á prenti ritgerðir fyrir almenning um stjórnarmál, einnig skyldi liðsmenn halda iðulega fundi til þess að halda mönnum vakandi við málefnið, og gera þeim sém ljósust réttindi sín.

7. Félaginu skal stjórnað af einum »general», og skulu offísérar hans kosnir í hverjum hreppi landsins; þegar skal séð um, að þeir geti fengið sér einkennisbúninga.

8. Tillag félagsmanna er 2 krónur, er leggist í sjóð hjá generalnum fyrst um sinn, þangað til fjárstjóri er fenginn. Því fé skal verja til framkvæmda félagsins.

Þessi voru grundvallaratriði laganna; enn hvé víðtæk og mikilfeng þau hafi verið, má bezt sjá á því, að þau voru rétt álíka löng og stjórnarskráin.

— Og svo var þessu stóra, þýðingarmika starfi lokið.

Eftir fund var talað um bindindi, og kosnir menn í nefnd til þess að ráða af um það, hvort Frelsisherinn ætti að ganga í bindindi um leið eða eigi; flestir voru reyndar á því; enn það þótti umtalsmál, hvort það ætti að vera frjálst bindindi þeirra á meðal, eða þeir ætti að ganga í Good-Templarregluna. Flestir voru á því, að sjálfstæðara væri, að Frelsisherinn hefði bindindi sitt fyrir sig, »enn væri ekki að hlaupa eftir neinni útlendri sérvizku».

Þegar allar þessar umræður voru á enda og menn voru farnir að standa upp og leita að húfum sín-

um og höttum, þá stóð upp einn ungr bóndi, mjóhljóðaðr og nefmæltr, setti upp stormhúfuna, og hallaði henni út í annan vangann, og sagði síðan :

»Ja, mér hefir nú si svona dottið í hug, fyrst við heitum nú her, og erum frelsisher, að hvort það væri ekki ómissandi, að það væri bestiltar nokkurar byssur og enda korðar líka til vonar og vara ; eg held það sé varasamt að vera vopnlaus. Ekki fór það svo vel, þegar hann Jörgensen herjaði á Ísland, og enginn gat neitt ; sýnist ykkur það nú ekki, piltar?»

Það runnu á suma tvær grímur, hvort ekki væri tiltækilegt að gefa gaum tillögu þessari ; enn flestir skildu þó betr, hvað Frelsisherinn átti að gera, að það var annað enn fara með vopnum og vígaferlum.

Það kvað því við hlátr í stofunni eftir litla hríð.

»Og eg held þess þurfi ekki, Jón minn», svaraði Hallr brosandi ; »það kemr aldrei til þess, að við þurfum á þeim vopnum að halda».

»Ja, hver veit það?», svaraði Jón með mestu alvörugefni ; »eg á reyndar gamla soldátabyssu, sem eg gæti nú notað; enn það væri gott að það væri svo sem 20—30 fleiri».

»Alt af ertu með einhverja respektina, Jón; ætl' þér dugi ekki ljárinn þinn, ef þú þarft að fara í bardaga», sagði Guðmundr í Barði, og hallaði ofrlítið á; »enn mér datt í hug, hvort það væri svo fjarlægt, sem eg ætla að stinga upp á ; eg á nefnil. dálítið safn af gömlum sálmum og rímum, t. d. Upprisusálmana og Fæðingarsálmana, og svo Olgeirsrím-

ur, Runsivalsrímur, Andrarímur, Ferakutsrímur og ýmislegt fleira, sem fáir eiga; eg hefi aldrei frið með þetta, allir vilja heyra þær, og þær eru alveg að rifna hjá mér; mér hefir nú dottið í hug— það datt í mig í gærkveldi — þegar Frelsisherinn væri kominn á þingið, að vita hvernig menn tæki undir það, að eg fengi dálítinn styrk af landssjóði til þess að gefa þetta safn út og selja það svo með vægu verði. Það hafa margar bækr ekki merkilegri verið gefnar út með styrk af landsins fé, svo að eg vildi svona vita í tíma, hvernig þið munduð taka í þetta».

»Við getum nú alt af talað um það, Guðmundr minn», svaraði Hallr, og kýmdi við; »enn hart þætti nú landsstjórninni það líklega, ef það væri sagt, að þær bækr hafi ekki verið merkari enn rímurnar þínar».

»Jæja, svo má hafa rímurnar fyrir hersöng, þegar við förum að berjast með byssunum hans Jóns í Háastekk», sagði organistinn frá H .... kirkju, og bögglaði upp á höfuð sér brúnum hérahárshatti, og batt vasaklút rauðflekkóttan yfir í hjálmaböndd, til þess að missa ekki af sèr hattinn. »Enn eigum við ekki að þruma frelsissönginn, þó það sé yfir þessum skálum? Vín á skálum vinir hér, o. s. frv.».

Allir sönghæfir hálsar í hópnum tóku undir með organistanum og sungu kvæðið til enda. Síðan fóru menn af stað.

Hvassviðrið var ofrlitlu vægara; það var stætt.

Hallr reið á leið með nokkurum hinum helztu af

samliðum sínum, og talaðist mönnum svo til, að fundr skyldi haldinn fyrir jólaföstubyrjun.

Hann skildi við þá Gunnar á Selbrekkum og Árna á Ærlæk skamt fyrir utan Skarð, og ætlaði svo að ríða aftr.

Þá var hvassviðrið orðið sýnu geigvænlegra enn það hafði orðið nokkurn tíma áðr um daginn. Það var kolniðamyrkr, og svo svart í lofti, að varla sá skil skýja og fjalla; það dundi ógrlega í fjöllunum, enn ofan að sjá iðaði fyrir gráhvítri móðu. Það var særokið á firðinum.

Það var eins og náttúran væri í öðrum eins hamförum og hugir þeirra .... strandarmanna. Enn sá var munrinn, að hún vissi hvað hún fór, enn það vissi enginn hinna; þeir fóru í gönum út á þá leið, sem þeir ekki vissu hvað var; enn hún söng á tölur sínar, spottandi, hermandi eftir það, sem fyrir henni var haft.

Þegar Hallr reið heimleiðis aftr frá þeim félögum, varð honum erfitt að bamba á móti stórviðrinu. Þegar hestrinn fór beint á móti, varð hann stundum að standa kyr, og einu sinni, þegar stormrinn stóð á hlið, sló hestinum flötum.

Þegar hann kom utan í hlaðið á Skarði, rauk dynjandi rigning á með ofsanum, og gerði þá það veðr, sem Íslendingar segja um, að »ekki sé hundi út sigandi».

Í sömu svifunum kom Teitr bóndi sunnan í hlaðið úr kaupstað með áburð á tveimr hestum.

Þeir rákust hvor á annan á miðju hlaðinu, því að hvorugr sá annan.

þeir heilsuðust síðan, kiptu ofan af klárunum, og báru klyfjarnar inn í bæjardyr.

»það er ekki fært fyrir þig að fara út í þetta, Hallr», sagði Teitr síðan og strauk um enni sér; »þú verðr náttúrlega í nótt».

Hallr tók því vel.

Svo fóru þeir inn.

— — — Er þeir höfðu lokið snæðingi, og tekið úr sér hrollinn með brennivínsflösku einni, þá leiddist samtal þeirra frá almæltum tíðindum og sveitamálefnum, heyskap og búskap, að öðrum málum: að frelsismálunum á Íslandi.

»þið munið hafa verið að koma fótunum undir Frelsisherinn í dag», sagði Teitr; »þú kant víst þaðan margt tíðinda að segja».

»Ekki tel eg það nú; enn komið er það á».

»Jú, og lög og skrá um tilgang og framkvæmdir hersins?»

»Já».

»Og hvað er nú aðalstefnan?».

Hallr sagði það í fám orðum, og sagði að lokum:

»Og mér þótti slæmt, að þú skyldir ekki vera í flokki með, Teitr».

»Ónei», svaraði Teitr ofrhægt, »mig vantaði til þess líklega bæði vit og vilja».

»þá hefði mikið vantað, ef satt væri; enn þó að viljann hafi vantað, þá veit eg að hitt hefir ekki verið vandræði með».

»Heldr virtist það nú verða í veizlunni um daginn; eg stóð nærri einn á móti ykkur öllum».

»þú hefir nú, ef til vill, hugsað betr málið síðan».

»Eg var búinn að hugsa um það áðr, og við það sitr».

»Jæja, enn hvað finst þér nú þá á móti þessu? ertu þá ánægðr með stjórnina, eins og hún er?»

»Nei, langt frá; enn henni verðr aldrei kipt í lag með þessu móti. Það sannast á sínum tíma».

»Jú, ef nýja stjórnarskráin yrði samþykt».

»Nei, það er nú hnútrinn, sem þið eigið að leysa, að sanna, hvað mikið gagn verðr að henni, og sýna það fyrirfram, hvaða órækar endrbætr hún ber með sèr».

»Nú, það er hægt held eg—færa stjórnina inn í landið og afla Íslendingum meira sjálfsforræðis».

»Já, ofan á».

»Og undir líka, kunningi».

»Jú, ef landsstjóri og stjórnin í Höfn yrði ekki á einu bandi; enn eg spái þér því, kunningi, það verðr seint, sem landsstjórnin hér á landi gerir annað enn það, sem hún veit að stjórninni felst vel á».

»Svo?»

»Jú, ef þið samþykkið á þinginu lög, sem stjórnin vill hvorki hafa né heyra, þá sannið þið til; landsstjórnin vill ekki sjá þau heldr; og hver samþykkir svo?»

»Já—þetta getr nú vel verið, enn það er þó takmark Frelsishersins, að berjast fyrir frelsi Íslands með öllu móti sem hægt er, að reyna til þess að hrinda af sér kúgunarokinu danska með öllu megni og reyna að feta okkar eigin götu; það getr engri þjóð farið fram, meðan hún er þjáð og þrælkuð; það sýna Norðmenn; þeir voru ættlerar og aum-

ingjar á meðan Danir höfðu yfir þeim að segja, enn svo hafa þeir runnið upp eins og fíflar í túni, og — hverju er það öðru að þakka enn frelsinu, sem þeir hafa?»

»Eg veit það vel; enn Norðmenn eru líka svo að segja alfrjálsir, og nærri einir um hituna með öll sín lög; ef þið væruð búnir að ná því takmarki, að vera gersamlega lausir við Danmörk, nema nafnið eitt, eins og þeir eru við Svía, þá væri annað mál; þar er reynd komin á frjálsa stjórn».

. . . . »Og þá reynd viljum við líka fá», greip Hallr fram í; »og eg skal þá segja þér, að það gengr betr enn nú».

»Eg efast um það».

»Jú, við höfum nóg fé í landssjóðnum, ef vel er á haldið, og má meira að segja auka það mikið með tollum og öðru, þó að lausafjár- og ábúðarskattr færi».

»Enn ætli það færi þá ekki að styttast í ölmusugjöfinni dönsku, tillaginu góða, ef við losuðum okkur við Dani að öllu?».

»Þeir eru skyldugir að láta það».

»Ekki lengr enn þeim sjálfum sýnist; — þeir geta tekið það af, þegar þeir vilja».

»Svo?»

»Jú, það átti að búa svo um hnútana, enn það tókst ekki».

»Já, svo, enn viltu þá ekki láta breyta neinu?»

»Jú, mörgu, enn annaðhvort miklu minna eða miklu meira».

»Hvernig þá?»

»Láta annaðhvort alt standa hér um bil í stað,

enn heimta, að stjórnin að eins haldi stjórnarskrána og brjóti hana ekki, brjóti ekki almennar réttindareglur, sem eiga ætíð að gilda milli þjóða og manna, og berji ekki höfðinu við steininn gegn því, sem sanngjarnar kröfur heimta — eða þá fara miklu lengra, einkanlega í því, að ákvarða konungi að eins frestandi neitunarvald. Svo vil eg enga konungkjörna þingmenn hafa, því að þeir misskilja stöðu sína, og eru ekki landi sínu það, sem þeim var í fyrstu ætlað að vera.

»Já, þetta er nú nokkurn veginn mín skoðun».

»Annað vildi nú verða á dögunum, þegar þið vilduð kenna Dönum um alt ilt, og jafnvel að Íslendingar drepa úr hor eða rækta illa túnin».

»Ja — fyrst er frelsið — og svo framfarirnar —; skoðum Norðmenn, þeir fóru ekki að verða menn fyrri enn . . . . .»

»Stóð líkt á fyrir þeim 1814 og okkur nú ?»

»Ja—nokkuð líkt;—enn þá Ameríkumenn?».

»Okkur verðr nú aldrei þeirra stjórn að fyrirmynd fyrst um sinn — það er of mikið sitt háttað hvoru».

»Enn þeir hafa frelsið, sem okkur langar svo eftir, og sem er nauðsynlegt skilyrði fyrir því, að við komumst á sanna leið framfaranna. Það hafa Danir alt af hamlað okkur með; þeir kúga okkur undir vondri verzlun, sjá um að við fáum sem minst fyrir saltfiskinn, og svona er það alt saman».

»Þessu er nauðsynlegt að ráða bót á, og vonandi að þing og stjórn geri sitt til að lagfæra það. Enn til þess að bæta verzlunina, þarf enga stjórn-

arbót; — það gera samkeppnin og kaupfélög landsins».

»Enn án frelsis vaknar ekki þessi viðleitni — án frelsis verða menn ætíð þrællundaðir og ófélagslyndir, gefnir fyrir að bauka hver í sínu horni, og draga alt í sinn hlut».

»Þú slær mikið um þig, Hallr, með þessu frelsi; enda er það ekki furða, sem formaðr Frelsishersins. Enn segðu mér nú nokkuð: —hvað er frelsi ?».

»Frelsi — nú — það». — Það stóð í Halli, svo að hann þagnaði um stund; loksins varð honum að orði: »Það er nú ekki svo auðgert að segja það í fljótum hasti».

»Segðu heldr þú getir ekki sagt það eða vitir ekki, hvað það er ;—skyldi það ekki vera það að mega ráða sér sjálfr, svo að enginn hafi yfir manni að segja ?».

»Jú».

»Grunaði mig ekki að þú ristir aldrei djúpt, því að það frelsi er eða yrði sönnu ógæfa og bölvun hverri veru, hverjum manni og hverri þjóð», svaraði Teitr alvarlega.

»Nú — — hvað er það þá?», sagði Hallr kuldalega.

»Ja, eg segi nú líkt og þú, að það er ekki auðsagt í fljótum hasti, því að það kemr fæstum saman um, og þess vegna leiðist mér alténd, þegar menn eru að henda á milli sín orðum og hugmyndum, sem þeir hafa litla sem enga hugmynd um. Enn pólitiskt frelsi er eitthvað í þá áttina að vera sú stjórnartilhögun, þar sem réttindi hvers manns eru svo trygð, að hann á alls kosti með að

neyta fyrirstöðulaust allra þeirra hæfilegleika, sem honum eru gefnir, til sannrar mentunar».

»Já», svaraði Hallr hugsandi; »enn þá ertu á mínu máli; frelsið hlýtr þá að koma fyrst áðr enn framfarirnar komast á».

»Enn á undan frelsinu þó sú manndáð og mannræna, mentun og framfaravilji, að menn kunni að nota frelsið; —annars er það eins og hnífr í óvita höndum».

»Enn það vaknar ekki fyrri enn frelsið er fengið».

»Jú, mentunin vekr það. Þess vegna verðum við að læra mentun, og það af Dönum, áðr enn við ætlum okkur að herja út af þeim meira frelsi».

»Menti þeir sig sjálfa fyrst; enn satt er það, margt má nú af þeim læra».

»Og á meðan svo er, finst mér réttast, að við dokum ögn við, og lærum af þeirra eigin stjórnarbaráttu, hvern enda hún tekr, og sníðum okkur svo stakk eftir því: fetum í þetta horfið, ef þeim vinst nokkuð sjálfum, enn ef þeir verða undir þar, sem losa vilja um, og ein nauðungarlögin og réttindarofin reka önnur, svo að þjóðin verðr múlbundin að þegja undir farginu — — ja, kunningi, hvað skal þá gera, Hallr minn?»

»Ja, fara af landi burt, held eg; nógu stór er Ameríka að taka við, ef á liggr».

»Neyðarúrræði er það; enn hvað skal segja? ilt verðr að búa við það, ef svona gengr til lengdar. Enn það fer aldrei svo: tíminn vinnr sitt starf, þrátt fyrir alt og alt, og á endanum vinnr það frjálsa og rétta sigrinn. Útlendar stórþjóðir hafa

vakanda auga á stjórnardeilu vorri við Dani, og það má hamingjan vita, hvað þessi þjóð á langt eftir ólifað sem ríki; hver ætli viti, hvað langt verðr þangað til að Danmörk verðr að lúta forlögum Póllands, eða einhverju svipuðu? — —enn hvað heldrðu verði þá um okkur, kunningi?»

»Við þurfum að vera búnir að ná frelsi voru þá».

»Gerir ekkert til; ef Danir að eins eigna sér þá nafnvald yfir hólmanum okkar, þá verðr það nóg til þess að allir þykjast eiga rétt á honum til þess að gera okkur að ábatasömu fiskiveri, og þá skulum við ekki gera of mikið úr þeim réttindum, sem við höfum, og því síðr þeim, sem Frelsisherinn ætlar sér að ná í; að fráteknu ýmsu smávegis, sem þarf að laga, gæti okkur ekki liðið betr undir neinni þjóð, heldr enn Dönum *nú*, ef við dræpum okkur ekki sjálfir á eyðslu og vondum ásetningi. Einir getum við aldrei bjargazt, meðan öll vor mentun er eintómt kák, útlend léreft og kaffidrykkjur, ekki fyrri enn vér verðum menn og kunnum að meta frelsi það, sem vér höfum, og biðja um eða heimta meira, og sjáum þá rétt hvað við þurfum. Það sæist bezt á, hvað við værum færir að taka við því nú, ef okkur væri alveg slept. Seinast, þegar losuð voru um okkur böndin, átti alt að endrbæta, og þá var byrjað á því, að keyra embættismannalaunin fram úr hófi; það gekk vel, og fekk framgang, því að það var lag, blásið á pípu stjórnarinnar; enn svo — þegar fleira átti að laga, þá fór að fara út um þúfur; svona færi það aftr fyrst, meðan vér erum svona illa mentaðir, og hverju værum vér svo nær?»

»Það lagaðist aftr», svaraði Hallr léttlega; »þó að menn reki sig á snöggvast, þá grær það aftr — — — enn að tosa þetta og toga við Dani, og hafa aldrei neitt, það er óþolandi; ¿það á Frelsisherinn og skal Frelsisherinn vinna, og, ef ekki með öðru móti, þá með því að leita til annara þjóða, og láta þær skipa Danskinum að gefa oss frjálsan tauminn; þá mætti þeir til — þeir þyrðu ekki annað».

»Ef einhver önnur þjóð sæi sér hag í því; annars ekki. Enn meðal annara orða, Hallr, hvað eg vildi segja», sagði Teitr og rendi af sjötta staupið, og bauð Halli, og saup sjálfr á flöskunni, »eg komst yfir dálitla dæmisögu hèrna um daginn; eg ætla að segja þér hana, þó að hún sé ómerkileg».

»Jæja, látum oss heyra», svaraði Hallr, og rendi niðr úr staupinu.

»Einu sinni hafði torfa af hafsíld og kópsíld sezt að inn á mjóum firði; enn þegar þar fór að verða lítið um æti, vildu síldirnar komast burt aftr. Enn þegar það var svo komið, þá vildi ekki gangrinn verða greiðr, því að úti fyrir var þétt þvergirðing af golþorskum, hlýrum, steinbítum og fleirum fiskum. Nú var úr vöndu að ráða; síldirnar voru undirgefnar golþorskunum, og máttu því ekki fara fyrri enn þeim sýndist. Þær gerðu nú sendiför á fund golþorskanna, og heimtuðu að þær fengi að fara, enn golþorskarnir bara börðu sporðunum, og sögðu: »»Við einir höfum vald í sjónum; bíðið þið eftir okkar hentugleikum; þið hafið nóg fyrir innan okkur, þið þurfið svo lítið»». Þetta þótti síldunum þung svör, og leituðu á land til mannanna og

báðu þá að reka burtu golþorskana. Mennirnir tóku vel undir það, røru með öngla og beitur og egndu fyrir golþorskana, enn steyptu niðr stórri netatrássu kring um síldirnar, og sögðust gera það til þess að hlífa þeim fyrir þorskunum, meðan þeir væri að vinna á þeim. Enn það sást brátt, að mennirnir skeyttu ekkert um síldirnar, heldr tóku það, sem þeir náðu af þorskunum á önglana og síldunum í netin, og skáru svo síldirnar niðr og egndu fyrir þorskana. Síldirnar sáu nú, að þetta dugði eigi lengr, og smeygðu nokkurum hafsíldum út með þorskagarðinum, og gerðu þær á fund annara sjávarskepna til þess að fá hjálp hjá þeim. Þær þurftu ekki langt að fara, því að rétt fyrir utan þorskana var heill vaðr af hákörlum, reyðarfiskum og öðrum stórfiskum sjávarins. Síldirnar báru upp fyrir þeim vandkvæði sín og létust mundu þjóna þeim trúlega, ef þeir brygðist fljótlega til aðstoðar. Síðan veittu hákarlarnir og reyðurnar þorskunum aðgöngu og átu þá flesta, enn færðu sig síðan innar, og sýndu síldunum í tvo heimana; þær gerðu þá enn síldir með gullkrossa á uggunum á fund þeirra, og fóru þær að semja um ýmislega útvegi og frelsisvegi; enn hákarlarnir svöruðu að eins: »»Sjaldan fer betr ef breytt er; þið unduð ekki þulbalda- og þumbalda-stjani þorskanna, og leituðuð þess, sem þið þektuð ekki, og verðið svo að sætta ykkur við það sem þið hafið bakað ykkur»». Að svo mæltu rendu stórfiskarnir sér á síldartorfuna, og supu hana hér um bil hálfa, enn hitt tvístraðist út um allan sjó og varð aldrei að síldartorfu framar».

»Svona fór það þá», svaraði Hallr; »enn hvern skrattann á nú þessi historía að þýða?»

»Það verðrðu að segja þér sjálfr, kunningi, enn það eitt veit eg, að ef þú hugsar um hana vel, þá færðu eitthvað út úr henni, sem eg skil ekki sjálfr enn þá; eg kann ekki að útskýra han fyrir neinum, enn læt hvern sjálfráðan».

Hallr var orðinn hugsi við alt þetta. Enn meira varð ekki af samræðunum að sinni, því að fólkið vildi fara að lesa húslestrinn. Varð fyrst langt umtal um það, hvort lesa skyldi á Jónasarhugvekjur eða Pétr, enn þá kom einn með spónnýjar Stefánshugvekjur, og af því að þær voru nýjar, forvitnaði menn að heyra þær. Þegar Teitr var á enda með lestrinn, og söngr, bænir og góðar stundir voru um garð gengnar, var farið að dæma um hugvekjuna; gekk til þess auk ýmissa annara útúrdúra góðr klukkutími.

Svo var farið að hátta. Hallr svaf frammi í dyralofti.

Enn hann svaf ekki hálfa nóttina.

Stormrinn buldi á bæjardyrunum fram undir dag.

Enn eins hvast var þó í brjósti Halls; hann gat ekki sofið fyrir heilabrotum; hann fann að hann hafði ekkert vit á því, svo sem til þurfti, að gerast pólitiskr flokksforingi; hann hafði látið Teit hræra í sér með magnlitlum orðavafningum, að honum fanst; enn þó réð hann ekki við þá.

Út úr þessum vandræðum sofnaði hann.

Óðara enn hann var sofnaðr, fanst honum hann vera þar enn í loftinu, enn þakið vera horfið.

Hann sá út í bláan geim, eins og þétta og djúpa móðu í fjarska. Fram undan sér sá hann breiða og slétta braut, og beggja megin við hana fagra og græna völlu. Á bak við risu fjöll í fjarska, og beltuðu sig þokubönd eftir þeim miðjum.

Svo sem góða túnslengd frá honum sá hann rísa höll eina fagra. Þangað lá brautin úr loftinu hjá honum.

Enn hvað höllin var fögr! Framan undir henni allri voru yndisfagrar súlnaraðir, enn á höfuðásnum yfir súlunum voru myndir og flúr úr marmara að sjá. Gnæfandi turnar gnæfðu upp í skýin til beggja hliða, enn í miðjunni breið bust með einlægum smáturnum. Alt á milli súlnaraðanna virtust honum eintómir gluggar, og var eintómt ljósshaf og ljómandi fegrð inn að sjá.

Frá höllinni eymdi til hans óm af söng og hljóðfæraslætti, sem snart eyrun með unaðsþýðum blæ.

»Hér er víst gott að vera; þetta er víst höll frelsisins», hugsaði Hallr með sér í svefninum. Hann þóttist hafa sig á fætr, og ganga eftir brautinni til hallarinnar.

Enn því hraðara sem hann gekk, því lengra virtist honum verða til hallarinnar; hún leið alt af lengra og lengra í burtu, eða öllu heldr: honum fanst hún alt af vera í sama stað, enn hann alt af firrast hana meir og meir. Það var eins og hann væri að elta tíbrá. Það kom yfir hann einhver ónota hryllingr og ofboð; hann fór að hlaupa, enn höllin færðist alt af fjær eftir sem áðr.

Vegrinn var orðinn óséttr og klungróttr; hann

rasaði í öðru hverju spori; bláa móðan þyknaði alt af meira og meira, svo að það djarfaði að eins til hallarinnar; þokuböndin í fjallinu uxu óðfluga, og voru farin að vefjast um tinda hallarinnar.

Hann hljóp alt af harðara og harðara; klungrið og gjóturnar á veginum varð alt af verra og verra; enn hann skeytti því ekkert; hann fann hann mátti til að ná til hallarinnar.

Enn loksins varð honum fótaskortr, og hann datt; enn er hann leit upp, virtist honum höllin standa rétt að segja yfir höfði sér; enn ljósshafið var horfið, framhliðin var daufleg og skrautlaus.

Enn í öðrum glugganum fyrir miðri framhliðinni stóð Jón í Háastekk, og mundaði ryðgaða soldáta-byssu, og kallaði hátt og mjótt fram um nefið:

»Á ekki að skjóta?»

Í því fanst Halli hann miða byssunni beint á sig.

Enn í hinum glugganum stóð Guðmundr í Barði og kvað hátt í Runsivalsrímum, og hafði stóran bóka-bagga undir vinstri hendinni.

Hallr ætlaði að standa upp í snatri og komast undan áðr enn Jón léti skotið ríða, enn þá hvarf höllin langt í burt, og hvarf gersamlega í þok-unni.

Það varð hálfdimt í kring um hann.

Hann stóð upp, og vissi varla hvert halda skyldi. Hann vissi ekkert hvar hann var.

Enn fram undan sér sá hann Herdísi á Molda-stöðum ganga í hvítleitum fötum, náföla og veiklu-lega, þvert fyrir; hún leit til hans eins og dauð-veikr maðr lítr í kring um sig, og sagði svo sárt

og raunalega, að það gekk bæði í gegn um merg og bein:

»Og þú, Hallr!»

Við þetta hrökk hann upp.

Hann var löðrandi sveittr og hálfhræddr.

Það var orðið hálfbjart af degi.

Hann var mjög fámálugr um morguninn, og fór vonum bráðara á stað heim til sín.

Þá var komið bezta veðr.

## IV.

Í sorg og dauða finnr hver sjálfan sig.

Hálfum mánuði síðar enn fyrr segir, var kominn snjór og hríðar; jörðin var öll hvít af snjó; náttúran hvíldi dauð undir líkhjúpinum, og beið í frostböndunum upprisu vorsins.

Þenna tíma var Hallr ekki eins og hann átti að sér. Hann, sem ætíð var svo glaðlegr og fjörugr, var nú oft þögull og hugsi.

Frelsisherinn stóð honum alt af fyrir hugskotssjónum; þetta stórkostlega fyrirtæki, sem honum fanst í fávizku sinni áðr vera vegr til að gera hann ódauðlegan í sögu Ísands, sem hann hafði hleypt af stað fremr af marglæti og eins konar andlegum gapaskap, fór smámsaman að verða honum að andlegri byrði.

Hann fann að sönnu, að það var hægt að koma Frelsishernum á fót, enn að koma fram tilgangi hans, og stjórna honum, berjast með þeim réttu vopnum, og beita sér og honum til þess að verða að liði — þetta var honum ekki ljóst; hann efaðist

stundum um, að það yrði nokkurt lið að honum. Kenningar aftrhaldsmannanna mat hann að engu; hann virti þær ekki svo mikils, að reyna til að reka þær; kenningar frelsismannanna skrifaði hann þegjandi undir í huganum, án þess að rannsaka þær heldr til hlítar; þessu gat hann hvorutveggju varpað frá sér með ró. Það var ekkert áhyggjuefni.

Enn hann var hvorugu nógu vel kunnugr til þess, að geta verið þar maðr í milli.

Blendingskenningar Teits í Skarði höfðu haft mikil áhrif á hann. Hann skildi þær reyndar heldr ekki vel, enn fanst þó að hann ekki gæti rekið þær með rökum.

Með öðrum orðum: sjálfr frelsismaðrinn, foringi Frelsishersins, var farinn að efast.

— Laugardagskveldið hálfan mánuð af vetri kom maðr á gluggann að Háafelli, og beiddist gistingar. Það var illhryssingslegt veðr og fjúk mikið.

Manninum var sögð heimil gistingin, og kom hann inn.

Hann var utan af strönd, og kunni frá tíðindum að segja.

Hann sagði frá því meðal annars, að Herdís á Moldastöðum lægi, og væri sögð mikið nær dauða enn lífi.

Það datt ofan yfir Hall. Honum flaug í hug draumrinn frá Skarði. Ef frelsiseldrinn ætlaði að kulna, eins og höllin fagra hvarf í móðunni og þokunni, og Herdís svo að birtast honum eins og lík með álösunarorð fyrir dánarkveðju!?.

Manntøtrið vildi fara að tala um frelsi og framfarir; það var auðheyrt á honum, að hann var einn af liðsmönnunum. Hann var upp með sér af því, eins og von var til.

Enn Hallr anzaði honum annaðhvort engu eða þá úti á þekju, svo að hann varð loks að hætta. Hallr gekk þegjandi um gólf með hendrnar fyrir aftan bakið, og krepti saman varirnar.

Hann var annars hugar. Frelsi, stjórnarbarátta, Frelsisherinn og alt hvarf í einu vetfangi, og það var eins og ekkert hefði rúm í hjarta hans nema þetta:

»Herdís liggr fyrir dauðanum, sú eina, sem eg elska».

Hann svaf svo sem ekkert um nóttina. Allr sá hetjuskapr, sem ætlaði að hefja herskjöld móti aftrhaldi og kúgun, varð að reyk, og sameinaðist í þessari einu kvíðandi spurningu:

»Skyldi hún ætla að deyja?»

Hið mannlega, hjartað, vann sigr.

Óðara enn birti af degi, var hann kominn á fætr og klæddr hlýjum vetrarfötum. Hann lagði sem skjótast á hest sinn og reið af stað.

Það var norðan-kalsaveðr, þokan ofan í mið fjöll, og skafrenningr, enn eigi snjókoma að mun. Frost var allmikið.

Hann reið dembing, og enda harðara þar sem berangr var; hann kom hvergi við nema snöggvast í Skarði. Þar frétti hann, að Þorbjörg hefði verið sótt út að Moldastöðum í gær.

Enn á leiðinni vaktist margt upp fyrir honum;

hann spurði sjálfan sig að því, hvaða rétt hann hefði til þess að ríða svona út eftir, þó að Herdís á Moldastöðum væri veik. Fyrir sjálfum sér fann hann, að hann hafði til þess hinn bezta rétt, sem fundinn varð, rétt ástarinnar; enn fyrir öðrum? — —.

Hvað mundi Einar gamli segja, að hann, framfara- og frelsishetjan, þyti undir eins á stað og þessi stúlka veiktist?

Honum lá við að skammast sín, fyrir hvað, vissi hann ekki; enn eigi leið á löngu, áðr enn inn betri maðr í brjósti hans vann sigr.

Innra með sér fann hann örugt vígi móti hæðni Einars, skósum og skensi heimsins. Það var sú vitund, að fylgja og hlýða sannri, mannlegri tilfinningu.

Og svo reið hann áfram, og kom um miðmundabil að Moldastöðum.

Hann drap þegar á dyr, og gerði boð fyrir Einar með þeim, sem til dyranna kom.

Einar kom til dyranna,og var miklum mun daufari enn hann átti að sér að vera.

Hallr heilsaði honum þegar, og tók hann því dauflega.

»Eg veit ekki hvar eg á að bjóða þér inn, Hallr; eg held það sé heldr mikið veikindaloft í baðstofunni hjá mér handa pólitíkinni þinni».

»Sleppum því nú, Einar minn», svaraði Hallr hálfdauflega; »enn má eg spyrja, hvernig líðr heima? eg hefi heyrt hún lægi, hún dóttir þín».

»Jú—henni líðr fremr báglega; það er verið að sækja prestinn til þess að þjónusta hana».

»Jæja».

»Þorirðu að koma inn?—Þú getr eins lokið erindum þínum við mig frammi, ef þú vilt; enn það er kalt frammi».

»Eg vil helzt koma inn», svaraði Hallr, kastaði af sér snjóMotunum, og gekk inn eftir Einari.

Í frambaðstofunni sagði Einar vinnumanni sínum, að hirða hest Halls, og gefa honum tuggu meðan hann stæði við.

Hann fór með Einari inn í hús hans.

Húsið var fremr snotrt, enn gamalt baðstofuhús. Stór fjögurra rúðna gluggi var á austrhlið og undir honum borð rauðleitt. Fyrir stafni voru tvö rúm. Var slegið fjalbríkum breiðum fyrir framan rúmin bæði til höfða og til fóta; voru þær að neðan greyptar ofan í rúmstokkana, enn að ofan voru þær negldar framan í slá eina, sem var fyrir ofan bæði rúmin. Af slánni og upp að gaflþiljunum var himinn úr þunnum fjölum, og lá þar uppi kambar, ullarskjóður, kembulár og ýmislegt annað skran.

Það rúmið, sem nær glugganum var, var rúm þeirra hjóna.

Í hinu lá Herdís.

Á stól á milli rúmanna sat Þorgerðr í Skarði.

Þar við rúmið var borð eigi stórt; á því stóð saumamaskína, og ýmsir aðrir smámunir.

Yfir við þilið á hurðarbaki var lagleg kommóða með gulflikróttum vaxdúk yfir. Á kommóðunni stóð brúnn saumastokkr spónlagðr, enn þar uppi yfir hékk dálítill spegill.

Hinu megin við hurðina stóð klukkukassi með gamalli átta daga klukku í.

Þar í horninu stóð stóll við borðið.

Þar vísaði Einar Halli til sætis.

Sjálfr settist hann á rúm sitt.

Svona sátu þeir nokkura stund þegjandi. Hallr horfði þangað, sem Herdís lá.

Hún blundaði. Veikindaroðinn í andlitinu gerði hana yndisfagra, og því fegri í augum Halls, sem honum leizt svo sem hún nú mundi vera víst brúðarefni dauðans.

Hún rumskaði við og opnaði augun.

Hann gekk til hennar og heilsaði henni og rétti henni hendina.

Hún gegndi að eins svo hann heyrði það, og féll svo í doðadeyfðina aftr.

»Hvernig lízt þér á Herdísi, Hallr?», spurði Einar.

»Hvernig öðruvísi en vel, eins og vant er», svaraði Hallr og settist á rúmið hjá Einari; »enn hefir ekki verið farið til læknisins?»

»Jú, það var fyrst farið til Jóns á Brekku; hann er farinn að lækna eftir Saurbæjarbókinni; enn svo dugði það ekkert; svo var farið til Þórðar í Hólmadal, sem fer nú svo mikið orð af, enn það var við sama».

»Enn því föruð þið ekki yfir um, manneskjur?»

»Það var gert í fyrra dag, enn þá var læknir ekki heima, og sagt hann mundi ekki koma strax; hann hafði verið sóttr eitthvað talsvert langt vestr».

»Væri þá ekki reynandi að fara aftr?»

»Eg held það sé vogunarspil að leggja það

upp núna, eins og veðrið er; eg fengi engan til þess».

»Enn er þetta ekki líka samvizkupóstr, að reyna ekki annað enn þessa gutlara? Ef enginn þorir að fara yfir um, skal eg reyna að komast það. Það væri þó líklegt eg fengi einhvern með mér».

»Öðrum stæði nú líklega nær, enn að þú færir, Hallr», sagði Einar og leit framan í hann; »enn ef eg fæ engan, þá verð eg þó feginn, ef þú vildir gera það».

Rétt í þessum svifunum var sagt að prestr væri kominn; það hafði ekki verið messað.

Einar fór út, og kom innan stundar með hann inn með sér.

Prestrinn var aldraðr maðr og hæruskotinn.

Undir eins og hann kom inn, gekk hann að rúminu og aðgætti Herdísi vandlega.

Hún var vakandi. Enn vegna magnleysis og deyfðar gat hún varla svarað orði, þó að hún vissi, hvað fram fór í kring um hana.

Hún var með ráði þessa stundina. Það var annars orðið mjög sjaldan upp á síðkastið.

Prestrinn vildi þegar byrja skylduverk sitt.

Hallr vildi fara strax af stað að leita læknisins, enn Einar vildi að hann biði eftir því, að þjónustað yrði. Lét hann það vera, enn tautaði eitthvað um, að það mundi lítið batna við það.

Þjónustugerðin fór þegar fram, og stóð eigi lengi yfir. Prestrinn las að eins hina vanalegu formála, og útdeildi síðan brauðinu og víninu. Að því loknu talaði hann upp úr sér lágt, enn blítt og skilmerki-

lega hjartnæma bæn, og skoraði um leið á alla, sem við voru, að biðja með sér fyrir hinni sjúku.

Svo söng hann eftir sálm úr sálmabókinni með blíðri og lágri röddu, og raulaði Hallr undir með honum.

Þó að ekkert í almennri guðsþjónustugerð hefði nokkurn tíma haft önnur áhrif á Hall, enn að finna hvort prestinum sagðist vel eða ekki, og hann áliti slíkt þýðingarlaust vanaverk, þá hafði þó þessi einfalda athöfn áhrif á hann.

Eftir buðu þau foreldrar Herdísar og systir hennar henni góðar stundir með kossi.

Hann sárlangaði til að gera það líka. Hann, sem var henni svo kunnugr frá barnsaldri, þegar þau voru nábýlisbörn, hann á Háafelli, enn hún í Víðidal, næsta bæ.

Enn þau voru orðin ókunnugri síðan — — og eldri.

Það var meira enn ástin ein, sem stílaði þessa löngun í hjarta hans. . Það var einhver innileg sampíning með hinni dauðasjúku mey— einhver ósjálfráðr samfögnuðr með henni, sem var nýbúin að fá fyrirgefningu synda sinna og vegabréf til guðs. Og þó fanst honum hann ekki trúa á sakramentið, að það hefði neina þýðingu.

Enn svona er mannshjartað djúpt, að það hylur ótal leyndardóma, sem mann grunar sízt. Það var til trú í einum afkyma í hjarta hans, sem hann hélt hann væri búinn að rýma burt fyrir löngu. — — —

Hann bauð Herdísi góðar stundir með handabandi og gekk svo burt.

Hún tautaði sálmvers fyrir munni sér. Rétt í þessu kom kaffið inn.

— — Að lítilli stundu liðinni fór Hallr af stað. Hann lét fólkið lýsa sjúkdómi Herdísar svo vel sem unt var, og fór síðan.

Enginn þar af heimili treystist að fara með honum. Duglegasti maðrinn var að sauðum, og mundi ekki koma heim fyrri en í myrkri að haldið var.

Kot var þar við túnjaðarinn; þar bjó fátækr bóndi, er Gísli hét.

Gísli þessi var svo gerðr, að hann flanaði aldrei að neinu; hann fór stilt og gætilega, og því köll-uðu dugnaðarmennirnir hann Gísla varasama. Enn þá loksins hann var kominn að einhverju, þá varð ekki á öllu betra liðsmann kosið til hvers er vera skyldi.

Þenna mann hitti Hallr, og bað hann að koma með sér.

Það gekk nú reyndar ekki orðalaust af; enn eftir langa mæðu fór þó Gísli að tína utan af sér fötin og fara í önnur.

Að öllu fór hann sér hægt. Svo fór hann fram í búr og fekk sér bita. Svo var hann ferðbúinn.

Þeir gengu niðr að sjó; þar hvolfdi fjögra manna far, sem Einar átti, hinn bezti bátr, með Engeyjar-lagi; þenna bát settu þeir fram.

Þeir settu til mastr og segl, þegar þeir voru rónir fáa faðma frá landi.

Þá var Gísli búinn að ná sér. Hann var hinn fimasti við bátinn, og er alt var til búið og skriðr var kominn á, tók hann ofan hatt sinn og las bæn.

Hallr gerði sama í einhverju ósjálfræði.

Veðr var líkt og áðr um daginn, nema hvassara. Enn nú var líka farið að rökkva.

Bátrinn klauf báruna yfir fjörðinn, og gekk liðugt, enda komu þeir um dagsetrsbil í vör.

þaðan var klukkutímagangr heim til læknisins.

—þegar þangað kom, var læknirinn nýlega kominn heim. Hann var að enda við að þíða sig upp að innan með mat og kaffi.

Hallr var honum ofrlítið málkunnugr, og var því látinn koma inn til hans.

Hann vildi fá læknirinn með sér.

Enn það var ekki við það komandi. Hann var þreyttr og laraðr eftir ferðina, og svo þurfti hann endilega að skrifa með pósti á morgun. það væri ekki að hugsa til að hann gæti komið fyrri enn á þriðjudag.

það gilti einu, hvort hann lagði að honum með illu eða góðu.

Loksins réð hann af að fara að lýsa sjúkdómnum sem bezt hann gat. Læknirinn þekti undir eins, hvað þar var við að eiga: taugaveiki, og lofaði að gera alt sitt til með meðulum.

þó fór hann sér að engu óðslega. Hallr mátti oft reka eftir honum. —

Loksins komust þeir af stað þaðan klukkan 9 um kvöldið.

þeir héldu hið hvatasta til bátsins aftr, bjuggu hann til siglingar og héldu af stað í guðs nafni út í myrkrið.

Veðrið var að harðna. Frostið var orðið nístingsbitrt, og fraus óðara og sýldi hvar sem vatn

kom á. Það var koldimt af nótt, og svartaþoka í lofti og niðr að láglendi, enn þokulaust með firðinum; ofanhríð var lítil, enn þéttr skafrenningr, og dimmleitt til láglendis að sjá. Sjór var ýgldr og ljótr, og boðaði verra veðr, þegar kæmi fram á nóttina.

Þeir höfðu ekkert annað enn vindstöðuna að átta sig eftir; þegar þeir voru komnir góðan kipp frá landi, sást ekkert annað enn grásvart öldufallið í kring um þá, og myrkrið og fjúkdimman í kring.

Gísli sat við stýrið, og stýrði meistaralega af sér öldurnar; það var eins og hann væri gæddr kattaraugum; hann varðist svo vel ágjöfinni, að Hallr þurfti ekki að taka til austrtrogsins nema þrisvar á leiðinni.

Loksins fór að bregða fyrir ljósi í austri. Það sást ekki nema einstöku sinnum, og sást sitt í hverjum stað í einu. Svo fór það að verða tíðara.

Loksins grylti til strandar; það sáu þeir á því, að hvítleitari rönd sást niðr við sjóinn enn ofar.

Þeir áttu að eins stuttan kipp að landi. Þá herti alt í einu veðrið; það gaus upp rjúkandi hvassviðri, myrkr og fannkoma, svo að ekkert sá; sjávarlöðrið ólmaðist um bátinn, og hálffylti hann svo að segja í svip.

Seglum varð ekki svift eða breytt; þau stóðu eins og samfeldar þiljur, og öll bönd og hnútar voru hörð og rend eins og gler.

Enn þetta stóð ekki lengi. Áðr enn þá varði, sigldu þeir upp á þurra fjöru, og þar slengdi bátnum flötum ofan við flæðarmálið.

»þeir komust að mestu ómeiddir undan bátnum, gátu dregið hann svo langt upp í fjöruna, að honum var óhætt fyrir sjó, og fóru svo að leita heim á leið».

Gísli þekti hvar þeir voru. þeir voru æðilangt fyrir sunnan Moldastaði, á Teigssandi; það varð því að sækja á móti hríðinni til þess að komast heim.

þeir héldu með sjónum og leiddust. þeir voru allir sýldir og klökugir, og því mjög stirðir. Eftir langa mæðu náðu þeir að vörinni ofan undan Moldastöðum.

þaðan héldu þeir heim á leið til bæjarins. þegar þeir voru komnir miðja vegu á milli, fóru þeir að sjá grylla stöku sinnum í ljósið sama sem áðr. Á það stefndu þeir.

Loksins komu þeir heim á hlað. þá sáu þeir hvað ljósið var; það var stór steinolíulampi, sem sem hékk í stofuglugganum, og hafði þítt alveg héluna af einni rúðunni.

Hallr fór sem skjótast upp á baðstofuglugga, enn komst ekki upp á vegginn fyrir fötunum. Svo voru þau orðin göddnð. Hann kallaði að eins við gluggann: »Opinn bæinn», og fór svo fram á hlað aftr.

Einar gamli kom sjálfr til dyra.

Hann leit út í stórhríðina, hristi höfuðið og sagði:

»Guði sé lof þið eruð komnir».

»Er Herdís lifandi?» spurði Hallr.

»Já».

»Guði sé lof», svaraði Hallr, eins og steini væri létt af honum.

»Já», svaraði Einar; »ef hún lifir af, þá muntu nú líka hafa nokkuð til hennar unnið».

»Getr verið», svaraði Hallr hægt og í hálfum hljóðum.

»Við skulum nú ekki tala um það núna, enn reyna að draga okkur í hlýjuna; — komið þið inn».

Hallr hafði farið úr snjóíötunum, meðan þeir töluðu þetta saman, enn Gísli beið og hreyfði sig ekki.

»Ætlar þú ekki að koma inn, Gísli?» spurði Einar.

»Nei, eg ætla heim, svo að konan mín verði ekki lengr hrædd um mig enn þarf», og með það gekk hann fram í dyrnar.

Hann leit við inn aftr, kvaddi þá með handabandi, og hvarf út í hríðina áðr enn þeir gátu komið orði fyrir sig.

»Honum er óhætt, hann hefir skrölt hérna á milli æði oft í öðru eins veðri og því arna; — hann er til með að koma á morgun aftr», sagði Einar; »við skulum koma inn».

Þegar inn var komið, fór Hallr að taka upp meðulin.

Herdís var vakandi — með nokkuru óráði; hún þekti ekki Hall, enn kallaði hann Vestrferða-Grím.

Það var alkunnr karl þar um slóðir.

Svo hélt hún, að hún væri komin til Reykjavíkr, og væri á gangi um Strandgötuna, og var að tala um skipin á höfninni, og miklaðist einkanlega eitt

þeirra; möstrin á því næði langt upp fyrir Akrafjall.

Henni var svo gefið inn af meðulunum, og var ekki við það komandi, að nokkur mætti gefa henni þau, nema Vestrferða-Grímr.

Enn alt í einu þekti hún, að það var Hallr.

— Það má svo sem geta því nærri, að Hallr var þar um nóttina.

Deginum eftir var Herdís við sama.

Enn í óráðinu hafði hún tekið það í sig, að enginn mátti vaka yfir henni nema Hallr.

Það má geta því nærri, að hann var tilleiðanlegr; hann sat óþreytandi við rúm hennar, nótt og dag í heila viku, og mátti heita svo, að hann festi aldrei blund allan þann tíma. Hann sat alt af á stól nálægt höfðalagi hennar, og hafði vakanda auga á hverri hreyfingu, hverjum kipp, sem hljóp um taugar hennar, var furðanlega liðugr að fallast á allar þær vitleysur, sem hún fann upp á í óráðinu, og hafði alt af ráð á, að sefa höfuðóra hennar með einhverju, þegar fram úr hófi vildi keyra. Enn þá lærði hann að biðja guð.

Honum fanst Herdís vera líf sitt; þegar menn ætluðu að hún ætti sem stytzt eftir, þá fanst honum lífið fjara úr hjarta sínu. Hann sá þar veikleika mannanna í stríðinu við dauðann í sinni aumustu mynd. Og í einhverju örvæntingarráðaleysi fór hann að biðja guð — heitt — af hjarta — með tárum!!

Enn eina nótt— að þessari viku liðinni, vaknaði hún upp úr löngum svefni; þá var hún með fullu ráði.

það veit enginn, hvað þau hafa talazt við — hvort það hefir verið langt mál eða stutt, enn víst hefir það verið stílað af samhljómi tveggja hjartna.

Undir daginn, þegar Einar gamli vaknaði, varð honum hálffelmt við: Hallr sat á stólnum á ská fyrir miðjum rúmstokknum, og hallaðist upp á koddahornið fyrir framan Herdísi; hún snøri fram í rúminu, og hafði hægri handlegginn yfir um brjóst Halls og upp með vanganum hinu megin; vinstri handleggrinn lá upp yfir svæfilinn og í kring um höfuð henni.

þau steinsváfu bæði.

þau höfðu sofnað svona í ógáti!

Herdís var orðin líflegri í andlitinu enn áðr; kollhríð veikinnar var af staðin.

»Nú er Herdísi óhætt, það sé eg», sagði Einar gamli, þegar hann var búinn að gá vel að hjónaleysum þessum; »enn hann skal fá það borgað, sá skratti, ef hann verðr nú ekki eins og eg vil hafa hann».

## V.

Hver er sjálfum sér næstr.

þá í vikunni reið Hallr heim til sín.

Herdís fór dagbatnandi.

Enn einhvern veginn var það svo, að Hallr var ekki ánægðr. Hann vissi og fann, að hann átti allan huga Herdísar, enn Einar gamli var ekki búinn að segja já og amen enn þá, og það var nú ekki svo létt á metunum, hvað hann sagði, karlinn sá.

Nú mundi hann eftir því, að fullnaðarfundr

Frelsishersins, um ýmsar nákvæmari ákvarðanir honum viðvíkjandi, átti að verða haldinn fyrir jólaföstubyrjun.

Enn nú var trúin dauð; hann lifði nú ekki lengr með lífi og sálu í því, að brjóta bág við stjórnina, eða gerast forvígismaðr fyrir ófullburða frelsishreyfingum. Sannfæringin var dofnuð, framkvæmdarlöngunin var sofnuð; hann sá, að það var betra og hyggilegra að leita sér orðs, fjár og frama með einhverju, sem hann var betr vaxinn, sem hann vissi betr, og meiri von var til, að hann gæti komið fram.

Fortölur Teits í Skarði, enn einkum Einars á Moldastöðum gerðu og sitt til; við það varð honum ljósari staða sín; hann félst ekki á alt sem þeir sögðu, enn það varð til þess, að hans eigin skýjaborgir léku á reiðiskjálfi,—og hrundu.

Svona hlýtr það að fara, að gerast forvígismaðr þess málefnis, sem maðr er ekki fær um, skilr ekki og ræðr ekki við.

Svona fer það, að ætla sér að halda því fram, sem ekki er insta sannfæring manns, heldr að eins stundarímyndun, stundarreykr eða mannalæti; það dettr úr því botninn, þegar minst varir.

Enn Hallr var í vandræðum.

Hann gat ekki fengið af sér að boða formönnum Frelsishersins, að hann væri genginn aftr úr skaftinu.

Enn honum hugsaðist, að þeim kynni að vera farið líkt og sér, að þeir hefðu dofnað, þegar frá leið.

Honum kom því til hugar, að reyna að þegja Frelsisherinn í dá, og lét því ekkert á sér kræla. Hann boðaði ekki til fundarins.

— Seint á jólaföstunni fekk hann bréf frá þeim Gunnari í Selbrekkum og Árna á Ærlæk, sem hér fylgir eftir:

„Með því að þér hafið sýnt undarlegt skeytingarleysi í því efni, að kalla saman fund þann, er ákveðinn var fyrir jólaföst, sem formaðr og „general" Frelsishersins, hefir komið upp óánægja með ýmsum liðsmönnum út af því, og skorum við því á yður, í nafni Frelsishersins, að þér kallið saman fund ið allrafyrsta hægt er, til þess að mál þau verði þar útkljáð, sem mest liggr á. Við vonum, að þér látið ekki hirðuleysi yðar frekara hamla þessu velferðarmáli fóstrjarðar vorrar".

Þetta bréf kom Halli illa; enn þó réð hann af að rita þeim aftr, bera fyrir sig ýmsar annir, og biðja þá að kalla saman fundinn fyrir sig.

Litlu seinna var honum boðað, að aðalfundr skyldi haldinn í Frelsishernum á gamlársdag að Háafelli.

Á gamlársdag var allrabezta veðr, bjart og frost nokkurt; það hafði komið hláka um jólin, og var því snjóbert og rifahjarn yfir alt.

Snemma morguns lagði Hallr á hest sinn, og reið af stað hvað af tók, og alla leið út að Moldastöðum.

Frelsishermennirnir á bæjunum, sem hann reið hjá, gláptu á hann, þegar hann fór hjá, og skildu sízt í, hvað hann gæti verið að fara.

Enn sumir stungu saman nefjum, og sögðu:

»Honum er orðið annara um, að það fari ekki illa um reiturnar hans Einars gamla á Moldastöðum, enn um frelsið; verði honum gott af».

Enn hann reið af út að Moldastöðum, og lét á engu bera; Einar gamli tók honum vel, eins og hann var vanr, enn var venju framar kýmileitr á svipinn.

Það bar ekkert til tíðinda um daginn.

Enn um kvöldið, þegar húslestri og borðhaldi var lokið, og liðið var á vöku, vissi Hallr ekki fyrri til, enn Herdís kom inn með bakka mikinn.

Á bakkanum stóð konjaksflaska mikil, fyrir víst pottflaska, ferstrend og fornleg, með lágum stút; þar var og vatnskanna með sjóðandi vatni, og stórt sykrker, og tvö glös.

Einar gamli varð nú mjög brosleitr og hýr, og bað Hall að gera svo vel.

Þeir brugguðu nú í glösin, og tæmdu þau fyrstu, og töluðu þá út um alla heima og geima.

Þegar búið var að brugga í þriðja glasið, leit Einar gamli svo glottaralega til Halls, og sagði:

»Eg trúi það ætti að verða fundr hjá þér í dag, eða var ekki svo?»

»Ó—ójú, það átti að halda fund», svaraði Hallr, eins og honum væri ekki mikið um þessa spurningu gefið.

»Það mun hafa átt að setja Frelsisherinn á laggirnar til fulls, heyri eg sagt».

»Eg trúi þeir ætluðu sér það», svaraði Hallr jafnutan við sem áðr.

»Þeir? — svo sem hverjir?» svaraði Einar aftr og lét sem það kæmi flatt upp á sig.

»Gunnar á Selbrekkum og Árni á Ærlæk».

»Varst þú ekki sjálfr pottrinn og pannan í öllu saman? — ekki man eg betr?»

»O—ójú, reyndar var það nú,' enn eg er að hætta við það, held eg».

»Á? þess varði mig sízt; kemr þér ekki saman við herliðið?»

»Eg veit það ekki; enn ....»

»Eru þeir þá að gefast upp á vígvellinum, soldátarnir?»

»Nei, þeir halda áfram».

»Ert þú þá að gefast upp?«

»það held eg».

»Og skræfan; það hélt eg ekki, að Hallr á Háafelli mundi gera».

»þú mátt kalla mig skræfu, ef þú vilt, enn eg blanda mér ekki inn í þetta mál framar».

»það er fallegr sonr, að svíkja svona ættjörð sína, þegar henni ríðr mest á».

Hallr gegndi engu, enn hrærði ótt og títt í glasinu.

»Enn hvað átti nú þessi Frelsisher að gera? ætluðuð þið að fara að herja á Dani?»

»Við skulum nú sleppa öllu spotti; eg vil tala um þetta blátt áfram við þig, Einar minn».

»Ja, eg spurði bara í einlægni, eins og mér er lagið; eg hefi gaman af að vita hlutina, eins og þeir eru», svaraði Einar, og hvarf hæðnisblærinn að nokkuru af andliti hans; »hvað átti nú Frelsisherinn að gera?»

Hallr varð nú ofrlitlu hressari; hann fór að gruna

hvað Einar fór, að hann vildi komast fyrir skoðanir hans. Einar vissi vel, hvað Frelsisherinn átti að gera, og hvernig nú stóð á, og fann Hallr það, að hann ætlaði að leiða hann í gönur. Enn hann fann líka, að ekki dugði annað enn segja hér um bil satt. Honum fanst Einar lesa í hug sinn.

Hann sagði honum því höfuðatriðin úr skrá Frelsishersins.

»Já, mikið átti nú að gera», svaraði Einar, er lestrinn var á enda, »sízt er því að neita; fáum stjórnvitringum hefði víst dottið í hug að koma öllu þessu í verk í einu; varstu nokkurn tíma svo grunnhygginn að halda, að það væri hugsanlegt?»

»Já, eg hélt það».

»Og jæja, til þess þurfti þó meira enn meðalflón».

»Eg held eg hafi líka verið það», svaraði Hallr hálfvandræðalegr; »enn eg sá það í tíma, að þetta var tóm loftbygging, svo að eg fór að hægja á mér, þegar eg sá, hvernig í öllu lá».

»Já, svo hún hryndi ekki ofan á þig og dræpi þig».

»Jæja, hvað sem nú um það hefði orðið —; eg fann bara, þegar eg fór að hugsa um þetta betr, að það var sumt á veikum rökum bygt, og sumt svo, að það var ómögulegt að koma því fram; svo fann eg, að eg var ekki fær til þess að standa fyrir því; mig vantaði mentun til þess».

»Þú hefðir nú aldrei tekið upp á þessu, ef þú hefðir verið betr mentaðr enn þú ert í þeim efnum».

»Það getr vel verið».

»Enn hver kom þá fyrir þig vitinu?»

»Eg veit það ekki; eg held eg hafi fundið það út sjálfr; svo vaktist eg til umhugsunar um sumt af ýmsu, sem Teitr í Skarði talaði við mig, og svo þú, meðan eg var hérna í vetr».

»Á, var það svo? — enn þér er líklega óhætt að eigna mér mestan partinn af því; því að þó að Teitr í Skarði sé hálfhringlandi í pólitíkinni, þá á hann þó mér að þakka, að hann er ekki vitlausari enn hann er, og eg var það, sem bað hann að tala við þig, og reyna að fá þig ofan af þessari vitleysu».

»Á?» svaraði Hallr og hleypti upp brúnunum, og leit á Einar stórum augum.

»Ojá, mér féll það illa, að eins gott mannsefni, eins og þú ert, skyldir gefa þig við þessum vindböglingi, sem hlaut að verða að engu, eða, ef bezt gerði, til athlægis. Eg hafði alt af gott álit á þér í rauninni, og vildi svo feginn bjarga þér, ef eg gæti; enda var það sannast að segja, að eg hefði aldrei» — hann skelti lófunum á öxlina á Halli — »látið það við gangast, að hafa pólitiskan smiðjubelg fyrir tengdason».

Hingað til hafði Herdís setið á rúmi sínu og verið að hekla eða við eitthvert annað svoleiðis smávegis fítl; enn nú fann hún ástæðu til þess að taka kertið, sem stóð á borðshorninu hjá henni, og fara fram.

Hallr jankaði að eins við, og leit á Herdísi.

»Nú, eg held þér liggi ekki á að stroka fram,

stelpa», sagði Einar glottandi, er hún gekk fram; »nú jæja, hún er þá farin».

Loksins mannaði Hallr sig upp, og sagði :

»Enn viltu þá hafa mig það nú ?»

»Upp á hverju ætlarðu að taka næst?»

»Sjá um búið og jörðina mína».

»Og hætta við alla pólitík?»

»Ekki veit eg það — og það held eg þó, enn að minsta kosti að hætta við Frelsisherinn, og allar svoleiðis öfgar —; eg er búinn að fá andstygð á því».

»Já, menn fá nú oftast andstygð á þeim, sem menn hafa svikið», svaraði Einar; »enn ef þú skiftir þèr ekkert af því máli, hvorki til né frá héðan af, enn lætr það deyja svona út, eins og fuðr í sinu, þá skal eg ekkert hafa á móti því, að hafa þig fyrir tengdason».

»Jæja», svaraði Hallr feginsamlega; »eg skal lofa því».

»Svo skulum við þá klingja upp á það», svaraði Einar, og sló glasinu svo fast við glas Halls, að það sprakk ofan í botn.

Svo drukku þeir trúlofunarminni, og tóku svo höndum saman og kystust eins og hjartans ánægðir tengdafeðgar.

Svo saup Einar gamli á konjaksflöskunni, lét í glasið sitt upp til miðs, og blandaði síðan, og bauð Halli að gera ið sama.

Síðan staulaðist hann fram í húsdyrnar og kallaði :

»Sigga, farðu fram og segðu henni Dísu að koma inn».

þeir héldu áfram að drekka og tala saman; þá kom það meðal annars upp úr kafinu, að Herdís hefði átt góðan þátt í því, að Hallr hafði snúizt á hina réttu leið, því að hún hefði sagt honum, að honum væri ekki til nokkurs hlutar að hugsa, að þau fengi að eigast, nema hann hætti við Frelsisherinn».

Að stundu liðinni kom Herdís inn.

það var ekki að sökum að spyrja: Einar rak hana til þess að setjast á milli þeirra, og harðskipaði þeim að kyssast. Svo klappaði hann ómjúkt á herðarnar á dóttur sinni, svo að hún kiknaði við á stólnum, og sagði:

»Ertu nú ánægð? Nú ertu búinn að fá mannsefni í bólið».

Hún roðnaði við og gegndi engu.

Einar skellihló.

Hallr sagði heldr ekkert, nema tók ofrlítið þétt utan um hendina á henni undir borðinu, og sagði lágt:

»það er búið!«

Einar gamli tæmdi nú glasið sitt enn — það var það fimta —, og var nú orðinn hér um bil út úr; hann hefði oltið út af stólnum, hefði Hallr ekki brugðið við og náð í hann.

þau komu honum þá bæði upp í rúm.

Enn þegar þau höfðu hagrætt honum á koddanum, svo vel sem þau gátu, snøri karl höfðinu ögn við á koddanum og drafaði:

»Ja — ef þú drepr ekki andskotans Frelsisherinn, Hallr, og kæfir hann niðr, þá skaltu fá fyrir ferð-

ina; þá skaltu ekki fá eitt hár af henni Herdísi minni; það sver eg við hausinn á mér— og — —».

Meira heyrðist ekki; það varð að óskiljanlegu urri.

Og svo fór hann að hrjóta.

Enn þau hjónaefnin drógu sig yfir á rúm Herdísar, og sátu þar á tali langt fram á nótt. Fólkið var að spila fyrir framan.

Svo var Halli fylgt til stofu og boðið að hátta þar.

Hann gat ekki sofnað undir eins; það var margt, sem réðist á huga hans í einu. Hann var mjög sæll með sjálfum sér að vera trúlofaðr Herdísi, enn hann var þó ekki alls kostar ánægðr með það, hvernig tildrögin voru orðin að því.

Hann fann, að hann var orðinn sekr í tvennu, framhleypni og lítilmensku: að þjóta í vitleysu út í það, sem hann hafði ekkert vit til að koma að neinu leyti fram, og var að sumu leyti óhugsanleg staðleysa; og hitt, að læðast svo þegjandi frá flokki sínum.

Hann fann reyndar, að það var eðlilegt, að hverfa frá vitleysunni, þegar hann fengi vit á því, að svo var. Enn það var annað verra: hann var ekki sannfærðr um, að það væri alt rangt og vitleysa, sem hann slepti. Enn hann ásetti sér að kynna sér það betr, og sjá svo hvað setti.

Enn að hlaupa svona þegjandi úr liði — að svíkjast burtu, það gat hann ekki afsakað. Loksins komst hann á þá niðrstöðu, að rita þeim foringjunum, Gunnari og Árna, bréf, og reyna þar að gera skynsamlega grein fyrir liðhlaupi sínu.

Hann stílaði töluvert af bréfinu í huganum. Honum fanst það rækalli smellið hjá oss.

Enn svo fóru hugrenningarnar að smáruglast og dofna, og það leið ekki á löngu áðr enn hann sofnaði. — — —

— — — Síra Sveinn var kominn upp á stólinn fyrir góðri stundu, þegar þeir Einar og Hallr komu í kirkjuna á Skarði á nýársdag. Þeir höfðu orðið seinir í heimanbúnaði um morguninn.

Prestrinn prédikaði skýrt og skorinort, eins og vera ber; hann var nokkuð meira enn miðaldra maðr, mitt á milli gamla stíls og nýja stíls.

Framfaramönnunum fanst hann sveigja í ræðu sinni að því, að þeir gripi fram fyrir tímann og sjálfa sig, elti þær hugmyndir, sem þeir ekki væri færir til, enn gleymdi því, sem fyrir hendi væri að endrbæta og laga heima hjá sjálfum sér.

Hann sagði þetta væri gömul synd mannkynsins, að elta fjarlæga skugga; Cicero gamli hefði sagt: Vér erum vanir að fara langferðir, jafnvel langt yfir haf út, til þess að sjá það, sem vér virðum ekki viðlits heima hjá oss; vér eltum útlendan hégóma og hugmyndir, ósæmandi og ósamkvæmar þjóð vorri og landi, í stað þess að laga þær hugmyndir, sem heima fyrir væri til, og koma þeim í það horf, er gæti verið landi og þjóð til sóma og frama. Hann rakti þetta mál út í æsar með dæmum úr enu daglega lífi.

Síðan snøri hann sér að enu andlega lífi, sambandi mannsins, og einkanlega hinnar nýju tíðar, við guð, trú og kristindóm, og eggjaði menn eigi síðr í þeim kaflanum, að byrja nýtt líf með nýju

ári. Hann var eigi síðr heitr eða talaði af ákafa og sannfæringu í þeim kaflanum.

Flestir hlustuðu vandlega á ræðu prests; nokkurir Frelsishermenn drápu titlinga eða hniptu hver í annan.

Eftir messu voru menn á gangi úti og inni og hvar sem vera vildi; veðrið var svó bjart og fagrt, að það var unun að vera úti.

Hallr stóð úti við kirkjuvegg, og var að tala þar við einhvern.

Gunnar í Selbrekkum kom aðvífandi sunnan hlaðið, og óðara enn hann sá Hall, kallaði hann upp, svo allir heyrðu, sem úti voru:

»Ertu þarna, Grautar-Halli? heyrðu mig um hálft orð, ef þú mátt vera að því».

Margir hlógu af þeim, sem úti voru.

Hallr brá lit, enn gekk þó til hans.

»Þú straukst af fundinum í gær, eða heldr á undan honum — ertu að svíkjast úr liði með okkur?» sagði Gunnar, af töluverðum móði, eins og honum væri mikið niðri fyrir.

»Já, eg er farinn að sjá, að þetta er vitleysa, sem við höfum ætlað okkur; eg er horfinn frá því síðan eg fór að kynna mér málð betr».

»Og bölvaðr þyrillinn —; enn við hverju var líka að búast af þér, sem aldrei hefir haft staðfestu til neins».

»Hvað sem þú segir um það — mér stendr það á sama; það bítr aldrei á mig til muna».

»Það er auðheyrt þú hefir ekki til ónýtis lent í niðrsetunni á Moldastöðum —; hvað kostar stelpan

mikið meira enn svikin og sannfæringuna? Segðu mér það, Grautar-Halli!»

«Skiftu þér ekkert um það; enn segðu mér, hvað mikið af þinni sannfæringu hefðirðu selt á Moldastöðum, hefði þér dottið í hug að troða henni fram þar? Enn þar var nú lokað dyrunum, þegar til þín sást».

»Og svei! eg hefði ekki viljað nýta hana til þess að hrækja á hana, þó að mér hefði staðið hún til boða, og svo viljum vér ekki heldr hraknýta þig í flokki með okkur í Frelsishernum framar».

Það lá við að Hallr þyti í Gunnar og gæfi honum á hann; honum sveið, þegar hann var skammaðr eins og hundr í fjölda manna viðrvist; enn tífalt þótti honum verra að heyra Herdísi niðrað. Fólk var farið að safnast í kring um þá.

Í þessu bar Einar á Moldastöðum að.

»Hættu þessu, Gunnar, og farðu», sagði hann kuldalega og hart, og gekk í milli þeirra; »Hallr er miklu meiri enn þú, aumingja uppskafningrinn!»

»Þið eruð báðir hvor sem annar, fjandans óhræsin», sagði Gunnar, svartr af reiði, og gekk burt, og dreifðist flokkrinn brátt. Einar og Hallr gengu til baðstofu.

Þess má geta til skýringar samtali þessu, að Gunnar var ókvæntr, og bjó með ráðskonu, og hafði oft leitað lags að koma sér inn undir á Moldastöðum, enn aldrei hepnazt.

—Hallr reið með Einari út eftir aftr um kveldið.

## VI.

„... Nascitur ridiculus mus“.

Vetrinn leið og vorið gekk í garð; hafísinn kom og fór aftr, fannir leysti úr hlíðum, og flatinn var orðinn grænn.

Það voraði svona líkt og gerist, góð tíð með köflum, en kuldaskot á milli; kóngsbænadagshretið og hvítasunnukastið voru hálfslæm, og fardagaflanið ógnarlega kalt, enn þó komst flest svona bærilega af, nema hjá einstöku manni, sem ekki kunna við að búa svo, að það hrökkvi ekki eitthvað upp af úr hor hjá þeim á ári hverju.

— Frelsisherinn hélt um vetrinn fund mikinn á þorraþrælinn, og var þá Gunnar á Selbrekkum kosinn »general» með atkvæðafjölda. Enn hvað sem því olli, þá fór að brydda á ósamkomulagi með ýmsum í hernum. Hitinn og ákafinn fór að minka, eldrinn að kulna, sannfæringin að sljóvgast. Það smádoðnaði yfir félaginu.

Á þeim fundi var ályktað, að skrifa skyldi ýmsum betri mönnum í næstu sveitum, sem menn höfðu veðr af að væri frelsisvinir, og biðja þá að safna liðsmönnum í herinn.

Þá var lokið að prenta lög félagsins, og kom alt upplagið á fundinn. Að fundarlokum var ákveðinn fundr að nýju á sumardaginn fyrsta.

Gunnar og Arni rituðu um 40 bréf, og báðu alla að senda sér ið fyrsta svör sín, að þau gæti komið til umræðu á fundinum á sumardaginn fyrsta.

Tíminn var stuttr. Enn þeir vonuðu, að menn tæki þessu stórvægilega frelsisstarfi svo báðum hönd-

um, að þeir þyti upp til handa og fóta, að ganga í lið með sér.

Enn það brást; að eins þrjú bréf komu aftr, og þau lýstu öll vantrausti bæði á málefninu í þeim stíl, sem það var, og enda á forstöðumönnunum.

Engir aðrir svöruðu.

Eitt bréf kom að sönnu nokkuru eftir sumarmál; það var líks efnis, og svo bætt við, að annaðhvort mundu þeir þar stofna pólitiskt félag út af fyrir sig, enn væri eigi að bindast öðrum, eða þeir gengi í félag með Þjóðliðinu í Þingeyjarsýslu; það væri álitlegra og öflugra fèlag enn þetta.

Þessar undirtektir urðu mjög til þess, að draga afl úr Frelsishernum. Menn mistu trúna hægt og hægt, og þá var þegar dauðameinið tekið að búa um sig.

Það sást þegar á fundinum á sumardaginn fyrsta.

Hann var verr sóttr enn áðr var.

Þá var fundr settr á föstudaginn í fardögum.

Enn alt af var trúin að minka; ráðagerðirnar um vetrinn höfðu gengið fram úr hófi, enn ekkert varð af framkvæmdum.

Foringjar og nefndarmenn hersins riðu hver til annars, lögðu saman daga og nætr, enn aldrei gerðist neitt. Mest var samt um heimreiðar á Selbrekkum; Gunnar komst í heyþrot fyrir hestagjafir, og varð að fá heylán á Moldastöðum.

Á föstudagsfundinn komu einir sjö menn, og gerðu ekki neitt sögulegt heldr enn fyrri.

Enn úr því vesladist Frelsisherinn upp; það hefir aldrei heyrzt neitt af honum síðan.

— — — Brúðkaup Halls og Herdísar varð eins og erfisdrykkja eftir Frelsisherinn.

Það var haldið á Jónsmessu um vorið í Skarði.

Það var um 60 manns í brúðkaupinu.

Teitr var nýbúinn að reisa stofu mikla; var hún óþiljuð, enn tjölduð innan ábreiðum og áklæðum, og hinn bezti veizlusalr.

Um kveldið var ið yndislegasta veðr, blæjalogn og blíða; himininn var lítt skýjaðr.

Yfir norðrloptið lágu þéttar skýjaraðir, enn heiðríkt niðr við sjóndeildarhringinn. Sól var horfin í haf út, og rann með sjónum; það var eins og glóandi eldskjöldr veltist með haffletinum.

Logandi geislahaf svall og ólgaði á iðandi bárunum út á firðinum. Það var eins og allr fjörðrinn væri glóandi gullbráð, sem titraði við í höndum náttúrunnar.

Skýin glóðu og loguðu í öllum litbrigðum aftanroðans á norðrloftinu. Sumstaðar var eins og blóð fossaði ofan af einum hamrastallinum á annan; sumstaðar sá á horn og hlöð á saffranmötli kveldroðadísarinnar, enn sumstaðar ólgaði litaprýðin í öllum tilbreytingum frá daufum fölva upp í sterkasta blóðlit á litlum bletti.

Þetta var alt af að breytast. Sólin fór að dýfa sér í sjóinn, og sendi geislandi logakrúnuna langt á lopt upp; loksins hvarf hún til fulls.

Þá var eins og gullbráðin á firðinum storknaði alt í einu; geislahafið dofnaði, og birtan fór að minka.

Kveldroðinn á skýjunum fór smámsaman að dofna;

skæru litirnir ljósu hurfu fyrst, og urðu dökkir, enn þeir dökku hurfu gersamlega.

Margir horfðu hugfangnir á allar þessar breytingar.

Enn rétt þegar að seinustu rákirnar af kveldroðanum á skýjunum voru að fölna og grána, kom Einar gamli á Moldastöðum út úr bæjardyrunum í Skarði, og var þá farinn að verða sætkendr, enn ekki um of.

Hann benti á norðrið og drundi hægt :

„Mikli frelsisroðinn rauði,
reykr — bóla — vinda-ský!“

Svo gekk hann lengra fram á hlaðið; þar stóðu nokkurir ungir menn, sem flestir höfðu verið fyrstir á frelsisherskránni í veizlunni þar haustið áðr.

»Hérna getið þið nú séð það, piltar», sagði hann, »hvað hann er langgæðr, Frelsisherinn íslenzki; þarna var kvöldroðinn svo skær fyrir svo sem klukkutíma, enn nú er alt orðið að reyk ; svona fer það nú, þegar þið farið að pólítiséra. Er annars ekki komið í blöðunum látið Frelsishersins ?«

»Ekki veit eg til þess, eg held hann lifi enn», svaraði einn úr hópnum.

»Jæja, sálaðr er hann þó alténd—; það hefir heyrzt að hann hafi sálazt af ofraun».

»Svo? eg veit ekkert um það».

»Jæja, greyið mitt, þú svarar ekki betr enn þú veizt, eg veit það; enn eg segi þér það satt, að þessi fundr er erfisdrykkjan ; komd' inn og fáðu í

staupinu, Jói minn; mér hefir aldrei líkað svo illa við þig!»

Svo fóru þeir inn aftr.

— Inni í stofunni var stórt borð fyrir gafli, og var þar púnsborð mikið, sett með öllu því er á var þörf.

Brúðr og brúðgumi sátu fyrir miðju borði. Enn hvað hún Herdís var þá falleg í skautbúningnum sínum!

Menn voru orðnir ofr-mátulegir, enn ekki meira.

Hitinn var orðinn lítt þolandi þar inni af púnsgufunni, mannfjöldanum og svo svælu af vindlareyknum.

Þá kom einn með þá tillögu, að menn skyldu fara út ofrlitla stund að fá sér »frískt loft».

Sáðgarðrinn gamli var með sömu ummerkjum og haustinu áðr. Þéttr þeli var sprottinn um hann allan, og heimulublöðin voru farin að breiða sig út með garðslaginu í kring.

Enn hjólbörurnar voru farnar; í þeirra stað stóð þar bláleit kerra, og lágu fjalir ofan á.

Menn söfnuðust suðr í garðinn af gamalli venju, og fóru að tala saman í smáhópum.

Eigi leið á löngu áðr enn Teitr í Skarði steig í stólinn —; hann stiklaði upp á vagninn, og hóf að tala.

Ræðu hans kunnum vér eigi.

Hann talaði um fegrð náttúrunnar á . . . strönd og þann auð, sem þar væri fólginn í jörðu; enn hann lagði niðr fyrir mönnum, að sá auðr fyndist ekki nema eftir honum væri grafið; með elju og

dugnaði mætti neyða jörðina til þess að selja fram auðæfi sín mönnunum til hagsmuna.

Hann tók fram, hvað allr skynsamlegr félagsskapr væri hamingjusamlegr fyrir land og lýð; hvað einangrunarskapr og launkofapukr sundraði kröftum manna, enn að margar hendr ynni aftr á móti létt verk.

Félagsskap til sveitarframfara og búnaðarframfara hefði enginn bannað; hann væri studdr af því opinbera.

Svo bar hann fram þá tillögu, að menn skyldi nú stofna hér búnaðar- eða framfarafélag til eflingar búnaði og mentunarframförum þar í sveit.

Menn tóku þessu vel; það var eins og menn yrði fegnir einhverju hressandi og svalandi, eftir að lognið var komið á eftir ákafann um vetrinn.

Það er skemst frá að segja: veizlunni var slitið um sólaruppkomu.

Þá var komið á fót allfjölment búnaðar- og framfarafélag, eða réttara sagt »framfarafélag .... strendinga», og voru formennirnir Hallr á Háafelli og Einar á Moldastöðum, enn aðalframkvæmdastjóri Teitr í Skarði.

Að öllu þessu búnu reið hver heim til sín og brúðhjónin heim að Háafelli, nema Einar gamli; hann var sofnaðr, þegar hann var kosinn formaðr búnaðarfélagsins, enn það þóttust allir vita, að hann mundi taka við kosningu í þann flokk; hann hafði ætíð verið á undan til slíkra framkvæmda, og sumir gátu þess til, að þetta félag væri af hans toga spunnið.

þeir sögðu hann vildi koma því á, til þess að draga yfir Frelsisherinn, sem var nú orðinn að athlægi, að minsta kosti í nærsveitunum.

Enn hvað sem honum eða stofnendum félagsins gekk til þess, var sama; hugsunin var góð.

Um framkvæmdir félagsins vita menn lítið; það er svo ungt enn.

Hallr býr á Háafelli, og býr vel; hann ann mjög konu sinni og hún honum.

Einar gamli kemr þar oft, og lízt ágætlega á hjá tengdasyni sínum. Hann hefir sagt, að það sé sjálfsagt, að Hallr flytji á Moldastaði, þegar sín missi við; þeir sé svo miklu betri jörð enn Háafell.

Ekki hefir Hallr gefið sig við pólitík síðan, enn heyrzt hefir það eftir honum, að hann hafi í huga, þegar Einar gamli sé frá, að bjóða sig fram á þing.

---

# Heilsufræðin fyr á tímum.

Eptir

Axel Ulrik,

lækni í Kaupmannahöfn.

Það er ekki orðið fyrr en á vorum dögum, það heilsufræðin á við vísindaleg rök að styðjast.

það varð ekki fyrr en seint og síðarmeir, að menn almennt færu að kannast við það, að heilsufar manna er háð skilyrðum, sem manninum er í sjálfs vald sett að fullnægja, og mestu um að ráða; og því um seinna fóru menn að skipa háttum sínum samkvæmt þessari þekkingu. Meðan heilsufræðin hefir verið að ryðja sjer braut, hafa ýmsar lykkjur lagzt á leið hennar, og eru þær talandi vottur um þá lífsskoðun, sem mestu hefir ráðið í þann og þann svipinn.

það hefir verið sagt, að marka mætti menningarstig hverrar þjóðar á því, hve mikið hún eyddi af sápu. Hitt er þó enn órækara, að enginn vottr er jafnólyginn um þroska neinnar þjóðar, jafnt í andlegum og líkamlegum efnum, eins og einmitt það, hversu mikinn gaum menn gefa heilsufræðinni. Saga heilsufræðinnar er ein grein af menningarsögu mannkynsins.

I.

Frá upphafi vega sinna hlýtur maðurinn að hafa átt í stríði við veikindi og dauða. Oss er það ekki auðgjört, að gjöra oss neinar glöggar hugmyndir um það, hvernig þeirri baráttu hefir verið háttað, meðan engar sögur fara af mannþjóðinni. það er sanni næst, að ætla, að menn hafi haft fast í minni sér það sem reynzt hafði vel gefast við hinu eða þessu, og svo hafi þær ráðleggingar gengið mann fram af manni. Nægar sannanir eru til fyrir því, að menn þegar snemma á öldum hafi haft gott lag á því, að verjast árásum óvina og villudýra.

Leifarnar af vatnahjöllunum í stöðuvötnunum í Svisslandi eru fagur vottur um það, hve hyggilegan viðurbúning menn höfðu sjer til varnar gegn árásum óvina; það eru hin fyrstu virki frumbyggja þessarar heimsálfu. En svo virðist, sem allar þær þjóðir, er skammt eru á leið komnar í menntun, skoði öll veikindi eins og eitthvert óskiljanlegt böl, er engri vörn sé hægt við að koma. Ef draga má saman dæmin af stöku blámannaþjóðum í Afríku, er engi kynni hafa fengið af menningu vorra daga, þá er sanni nær að ætla, að særingar, töfra- og galdraþulur og töfrastafir hafi verið algengustu læknisdómarnir framan af öldunum. Og á þessu skyldi enginn láta sig furða, þegar menn athuga það, að trúin á slík meðul er ekki aldauða enn, og það meðal menntuðustu þjóða.

Svo sem kunnugt er, hafa menn fundið hinn fyrsta vísi til menningar þeirrar, er nú búum vjer að, í Egiptalandi hinu forna. Í þessu landi er það og, að vjer rekum oss á hinn fyrsta vísi til læknismenntar og heilsufræði, og sannar sögur hafa menn af því landi frá því fyrir nærfelt 6000 árum. Svo segir í fornsögum Egipta, að guðinn Ósíris hafi vanið þjóðina af skrælingjabrag og bælt niður þá óhæfu, að eta mannakjöt, sem verið hafði eldgamall vani. Smámsaman tók læknislistin þeim framförum í Egiptalandi, að það varð alsiða, að hver læknir fyrir sig fjekkst ekki við nema einn sjúkdóm. Á sumum »papyrus»-rollunum, er fundizt hafa í gröfum Egipta, hafa menn nú fundið skrásetta fullkomna sjúkrafræði og meðalafræði. Þar er brunnurinn, sem margir síðar hafa ausið

úr, og þar á meðal Hippokrates, hinn frægi gríski læknir, og hafa menn ekki annað vitað, en að ýmsar ráðleggingar hans væri eptir sjálfan hann, fyrr en menn fundu þær í þessum fornu ritum orði til orðs. Fyrst og fremst er ráðlagt hóf í mat og drykk; föstur og uppsölumeðul voru og mjög tíðkuð; en jafnframt því voru og tíðkaðar særingar og töfrabrögð, til þess að verjast ásókn illra anda.

Það er sumra manna mál, að Gyðingar, meðan þeir voru ánauðugir í Egiptalandi, muni hafa tekið upp ýmsa af háttum Egipta, þar á meðal umskurnina, og ætla menn, að hún sé hinar síðustu menjar hinna fornu mannblóta; nú þóttu nóg fáeinir blóðdropar. Á Egiptalandi voru ekki aðrir umskornir en prestarnir, en með Gyðingum allir karlmenn, til merkis um, að öll þjóðin væri helguð Jehóva.

Svo sem kunnugt er, var Móses látinn nema öll vísindi Egipta, og í Mósesbókunum finnum vjer einnig fjölda af fyrirskipunum, er snerta varðveizlu heilsunnar, er benda á það, að Móses hafi verið furðanlega nærri því, að hafa rjetta skoðun á orsökum sjúkdóma. Fyrirskipanirnar eru gerðar í nafni Jehóva, og er ekki til þess að taka, þar sem óttinn fyrir hegningu og reiði drottins þarf mestu um að ráða hjá þessum rangsnúna þrælalýð. Ekki er hægt að sjá það, að Móses hafi rennt neinn grun í sóttnæmi, en sjúkdómar og landfarsóttir eru skoðaðar sem refsidómar guðs yfir spilltum mönnum. Sagan um það, að Jehóva á næturþeli fer um allt Egiptaland og drepur alla frumgetninga, er saga um skæða landfarsótt; og þegar sagt er frá

því, að Senakerib Assyrakonungur, sem sat um Jerúsalem, hlaut að létta umsátinni af því, að Jehóva sendi morðengil sinn í herbúðir Assyra, þá er það ekki annað en að drepsótt kemur upp í liði þeirra. Aptur er ekki fjarri sanni að geta þess, að Móses kunni að hafa rennt grun í, að skaðlegir yrmlingar kynni að vera í svínakjöti, þar sem hann bannar að hafa það til manneldis. Það er miður hægt að gera sjer skiljanlegt, hvers vegna bönnuð er nautn á kjöti annara dýra, en nær sanni er, að bann það styðjist við það, að dýr þau hafi reynzt óholl til átu. Það er auðskilið, hvernig á því stendur, að bannað er að eta nokkura skepnu eptir að meira en 2 dagar eru liðnir síðan henni var slátrað, þar sem lögin eru gefin í landi með því loptslagi, að allt dautt hlýtur að úldna þar mjög bráðlega. Skepna, sem finnst dauð, er óhrein; hver sem snertir á henni, er óhreinn fram undir kvöld, og hlýtur að hreinsa sjálfan sig og fatnað sinn.

Af fyrirmælunum um það, hver dýr skuli talin óhrein og hver hrein, þykir mega í það ráða, að þá þegar hafi menn haft hugmynd um það, að engi hræ-æta væri hentug til manneldis.

Í Thalmúð, sem er útskýring Móseslaga, eru nákvæmari fyrirskipanir, sem miða til þess, að menn geti verið óhræddir um, að skepnur þær sje heilsugóðar, sem ætlaðar eru til manneldis. Móses gefur ráð við því, hvernig verjast eigi múrætusveppum, og margt af því, er hann fyrirskipar til heilsuvörzlu, meðan í herbúðum væri búið, er svo lagað, að full þörf væri að fara eptir því enn í dag.

Meira að segja: eitt af tíu lagaboðorðunum er verulega mikilsvert fyrir heilsuna, og er það 3. boðorðið: um 7. daginn sem hvíldardag. Menn kannast nú almennt við það, að það sje einkar hollt fyrir heilsuna, að hafa hvíldardaga með vissu millibili, og því hafa menn eigi viljað sleppa hvíldardeginum.

Í fornöld ljetu Grikkir sjer mjög um það annt, að uppeldið væri svo, að líkaminn yrði hraustur og vel á sig kominn; reyndar kann að mega segja það Aþenuborgarmönnum til lofs, að þeir ljetu sjer þó enn meira um hugað andlegan þroska og ágæti.

Í Spörtu bönnuðu lög Lýkúrgs allt óhóf í mat og drykk. Allir, jafnt auðugir og snauðir, voru skyldir að vera í mötuneyti; var þar mest haft til matar mjölmeti og aldini, og svört súpa búin til úr blóði og svínakjöti, krydduð ediki og salti. Allir spartverskir sveinar voru vandir við glímur, skeið og skilmingar, til þess að styrkja líkamann og gjöra hann liðugan. Við sömu íþróttirnar voru spartversku stúlkurnar vandar; því það þótti varða ríkið mestu, að þær á síðan gæti alið hraust og heilsugóð börn. Það er og í frásögu fært, að einmitt fyrir iðkun þessara íþrótta jókst spartverska kvennfólkinu hugrekki, og það fann betur til sín, enda fylgdi það því, að það bar sig forkunnar vel. Einu sinn sagði kona frá Aþenuborg við spartverska konu: »Það er hvergi nema í Spörtu, að konur drottna yfir karlmönnum». En spartverska konan svaraði: »Það er af því, að vér einar kvenna ölum karlmenn».

Til leikanna í Ólýmpíu sótti allt Grikkland. Það voru kappleikir; þar voru þreytt í kapp skeið, stökk, glímur, hljóðfærasöngur og skáldskapur; sá sem af öðrum bar, hlaut að leikslaunum sigursveig, annaðhvort lárviðargrein, eða smjörviðar, og honum var fylgt sigurhrósanda til ættborgar hans, og þar var honum fagnað sem hinum mesta fremdarmanni. Borgin var hróðug af honum, og ekki gat neinn faðir vænzt þess, að hafa neinn sóma jafnmikinn af syni sínum og þann, að sonur hans ynni sigur í Ólýmpíu.

Víða á Grikklandi voru skólar, öllum jafnheimilir, er gymnasía hjetu; þar tömdu menn sjer alls konar fimleika, og við þá tíðkuðust laugar. Þeir, sem við þessa skóla lærðu, voru kallaðir gymnasiastar, og síðar meir var það algengt nafn á læknum, og útbreiddu þeir meðal almennings þessa siði. Fyrir miðdegismatarmál á hverjum degi tók efnamaðurinn í Aþenuborg laug í baðklefa sínum; þeir sem fátækir voru, tóku laugar í baðhúsum þeim, er gjör voru til almennings þarfa, og þar tóku þeir úr sér hrollinn, þegar kalt var. Þar fóru menn að kannast við það, að sóttnæmi gæti valdið sjúkdómum, og má marka það af því meðal annars, að meira en 400 árum f. Kr. burð reyndu menn að draga úr drepsóttinni í Aþenuborg með því að kynda bál mikil í borginni, og reykja í húsum. Plato spekingur lætur sjer skiljast, að það sje óheilnæmt að reisa háreista múra umhverfis borgir, og hann leggur það til, að í borgum sje menn til kvaddir, er gæti þess, að strætunum sje haldið hreinum. Elzta rit, er vjer þekkjum um heilsufræði, er eptir

Hippokrates: »Um lopt, vatnsból og hýbýli«. Hann bendir á það, hver áhrif landslag og loptslag hefir á landsbúa, og þykist hann af þeim rökum að nokkru leyti geta gert sjer grein fyrir því, hvað Asíuþjóðirnar eru framtakslausar og hugdeigar. »Og við það bætast svo stjórnarhagir þeirra«, segir hann. Yfir Asíu mestallri drottna konungar; en þar sem menn finna það, að þeir eiga ekki sjálfir ráð á sjer, þar hirða menn miður um að temja sjer íþróttir og vígfimi; öllu fremur hættir mönnum þar til að látast vera til slíkra hluta óhæfir.

Í Rómaborg var lengi fram eptir öldum læknismenntin höfð í litlum metum, og það var ekki nema höppum og glöppum, að þar voru góðir læknar, enda seinna á öldum, svo sem þá er Hippokrates kom til Rómaborgar. Rómverjar trúðu á guði, sem sumir voru hollvættir, en sumir meinvættir; var nú allt undir því komið, að tryggja sjer vinfengi hollvættanna, en forðast ásókn meinvættanna. Heilsudísin Salus var hollvættur sjúkra manna; aptur var meinvættur, er Mephitis hjet, er olli sóttveiki. Árið 291 f. Kr. b. gaus upp skæð drepsótt í Rómaborg; þá gerðu Rómverjar út sendimenn til Grikklands eptir læknaguðinum Æsculapius (er Grikkir kölluðu Asklepios), því hann átti hof mörg í Grikklandi. Þeir fengu með sjer líkneski guðsins og fluttu til skips ásamt lifanda höggormi frá hofi hans; en er til Rómaborgar kom, var höggormurinn laus látinn, og lagðist hann á sundi til hólma nokkurs í Tífurá, og var á hólma þeim hof reist Æskulapi. Allar varnir við sjúk-

dómum voru í Rómaborg annars ofboð barnalegar. Ef landfarsóttir gusu upp, þá var þotið í sibyllínsku bækurnar til þess að leita frjetta, en þær voru samsafn af spásögnum og tvíræðum ummælum, er þýða mátti á hvern veg, er vera skyldi. Þegar eitthvað slíkt bar að höndum, var það og, að Rómverjar hjeldu guðum sínum veizlur; þeir ljetu líkneski guðanna sitja að borði, og báru fyrir þau allan góðan fagnað, til þess að blíðka þau. Það kvað svo rammt að, að skynsömustu og fróðustu menn lögðu hinn mesta trúnað á þessar hjegiljur. Kató hinn eldri, sem að maklegleikum var í miklum metum fyrir stjórnvizku sína, herfrægð og mælsku, átti sirpukorn af töfraþulum, er hann geymdi eins og sjáaldur auga síns, og þeim einum gjörði hann að treysta, hve nær sem sjúkdóm bar að höndum.

Það, sem nú hefir verið greint, er allt sannsagt; því fremur má menn furða á því, að Rómverjar unnu fjölda stórvirkja, er öll virðast miða til þess, sem nú er talið stuðla til heilsubóta, svo sem er hin stórkostlega lokræsagjörð innanborgar, baðhúsin og vatnsveitustokkarnir. En það er sanni næst að ætla, að menn litla sem enga hugmynd hafi gjört sjer um það, hversu mikilsverð þessi stórvirki voru fyrir heilsu manna, heldur hafi þau eingöngu verið gjörð til hagræðis og hægri verka.

Þegar talin voru 138 ár frá því, að Rómaborg var byggð, var gert »lokræsið mikla«, sem enn stendur, og liggur mynni þess út í Tífurá, en að því lágu önnur lokræsi smærri, er lágu undir strætunum. Þetta »miklu lokræsi« hefir verið fjarska-

vandað smíð; það er hlaðið úr vandlega tegldum steinum án alls múrlíms, en svo vandlega samskeyttum, að ræsið stendur enn nálega óhaggað, og svo er það vítt, að vagn með heyhlassi mundi geta farið um það, og botn þessi liggur fullum 26 fetum neðar en grundvöllur borgarinnar eins og hann þá var. Til þess að ná vatni inn í Rómaborg, þótti aldrei of miklu varið. Bezta vatnið, sem hægt var í að ná, var uppsprettuvatn frá fjöllum; en þau voru æðilangt frá borginni, og var því ekki annars kostur, ef veita átti vatninu þaðan, en að byggja afardýra vatnsveitustokka, og eru enn eptir talsverðar rústir af þeim, og eru þær meðal hinna stórkostlegustu rústa frá fornöld. Vatnið rann í opnum veitustokkum, er háar steinhleðslur hjeldu á lopti; voru það ýmist steinstöplar eða steinbogar. Grundin umhverfis Rómaborg er enn krök af stúfum af þessum vatnsveitustokkum; á keisaraöldinni voru þeir orðnir 9, og veittu þeir á hverjum degi inn í borgina 1,500,000 teningsmetrum af vatni; kom þá eitt teningsmetr á mann, því fólksflest mun borgin hafa það orðið, að 1½ miljón manna var í henni; auk þessa vatns fjekkst talsvert vatn úr brunnum innanborgar, því þar var talsvert af uppsprettum. Það sem olli því, að svona mikið var brúkað af vatni, var það, að Rómverjar höfðu fjarska miklar mætur á því, að baða sig. Hvorki fyrr eða síðar hafa böð verið jafntíðkuð og í Rómaborg í fornöld. Þar voru reistar skrautlegar hallir, þar sem almenningi var heimilt að baða sig; í baðhöll þeirri, er Karakalla keisari ljet reisa, máttu 3000 manna laugast í senn. Síð-

ar á keisaraöldinni varð hóflaus þessi baðfíkn manna; á 4. öld e. Kr. b. er mælt, að 856 baðhús hafi verið í Rómaborg. Þá tóku allir laugar, ekki einu sinni, heldur opt á sólarhring, og þá fór alls konar ósómi að verða samfara þessum laugaferðum.

Fram eptir öldunum höfðu allir Rómverjar verið hinir sparneytnustu, en eptir því sem óx ríki þeirra, og þeim lærðist það að láta þræla vinna allt það, sem erfiðara var og óvirðulegra þótti —en að þrælum höfðu Rómverjar hertekna menn af þjóðum þeim, er þeir lögðu undir sig — þá fór að aukast með þeim öll sundurgerð, og þeir að hneigjast til óhófs bæði í mat og drykk. Að vísu var almúginn, og það langt fram á keisaraöldina, hófsamur og komst af með lítið; það var almennt, að menn ljetu sjer lynda, að hafa eina leigukompu til íbúðar, einn þræl, einn fatnað; en til matar höfðu þeir kál, lauk, ögn af kjöti og ódýrt vín; en meðal ríkismanna fór alls konar óhóf sívaxandi; þó tók út yfir ofát þeirra og sælkerabragr. Um allt Rómaveldi var farið til útvega á hinum dýrustu krásum. Þegar Rómverjar mötuðust, þá lágu þeir á lágum legubekkjum. Miðdegismatnum gjörðu þeir þrjár atrennur, fyrirmat, aðalmálsverði og aukamat, og voru í hverjum um sig margir rjettir. Til fyrirmatar voru hafðir skelfiskar, ostrur, egg, kálmeti, o. s. frv.; í aðalmáltíðinni voru undirstöðubetri rjettir, villisvínakjöt, svínslær, bjúgu, hjerar, gæsir, endur, fasanar, þrestir, og ýmislegt fiskmeti, en auk annars voru höfð ýmisleg aldini, olífur og sætabrauð. Vín var ótæpt drukkið; fengust ýmsar

víntegundir frá grenndinni við Rómaborg; sumt var lengra aðfengið frá Grikklandseyjum. Einu sinni heimsóttu þeir Cicero og Pompejus auðkýfinginn Lúkullum óboðnir, og báðu hann ekkert við hafa, og vörnuðu því, að hann gæti látið hafa neinn viðurbúning; en hann mátti segja þjónum sínum, í hvaða sal þeir ætti að bera á borð, og var snæðingur sá, er hann ljet þá setjast að, svo kostulegur, að nema mundi 27000 kr. að voru peningatali; svo sjaldgætir voru rjettirnir og svo langt að fengnir; en hjá Rómverjum var ágætt allt fágætt. Það þurfti góða heilsu til þess að þola alla þessa ofneyzlu; og fyrir það spilltu líka margir heilsu sinni á því, að gefa sig við almennum málum. Af þessu má sjá það, að það er ekki ný-tilkomið, að átveizlurnar eiga góðan þátt í því, að mikilsmetnir menn eldast illa.

## II.

Þegar menntun fornaldarinnar var liðin undir lok, varð nýr hugsunarháttur ráðandi öllum lífernisháttum og siðum. Forna öldin hafði verið fjörmikil og frækin, enda treyst mikið sjálfri sjer, svo að stundum varð við of, og allt of hneigð hafði hún gjörzt til sællífis. En allt þetta veik úr sessi, og í stað þess settist í hásætið andi miðaldakirkjunnar, sem heimtaði sjálfsafneitun, föstur og meinlæti. Til þess að hreinsa sálina og bæta, þótti það beinasti vegur, að misbjóða líkamanum. Sú öld var því eigi hlynnt læknislist eða heilsufræði.

Sá, sem í raun rjettri var upphafsmaður munkalifnaðar, var Antonius hinn helgi, egypzkur munkur.

Hann dró sig út úr mannlegu fjelagi, og fór út í eyðimörku til þess að lifa þar við harðrjetti, hættum horfinn. Að hans dæmi hófst einsetumannalíf; meðal þeirra voru sumir, er kallaðir voru »stylitæ»; þeir ljetu fyrirberast á hám súlum; síðan voru stofnaðar munkareglur, er langa stund rjeðu miklu um menntunarástand þjóða. Það þótti vottur um heilagleika, að hirða alls ekkert um hreinlæti. Þá var nú ekki mikið haft við að lauga sig; það þótti guðhræðsluvottur, að vera sem skítugastur og morandi í lúsum. Híerónymus prestur hinn helgi lofar egypzkan einsetumann fyrir það, að hann greiddi sjer aldrei nema á páskunum, og ljet fötin drafna í sundur á skrokknum á sjer.

Nú tóku næmir sjúkdómar að geysa um norðurálfu heims meira en menn vissu nokkur dæmi til fyrr. Líkþrá var mjög algeng, og þóttust menn vita, að hún væri næmur sjúkdómur. Voru líkþráir menn látnir búa í húsum út af fyrir sig, og vörður hafður á þeim; voru hús þau kölluð »hospitalia», en hjer á landi afbakað í spítala. Stundum sáu menn þessa líkþráu aumingja fara um landið með sárum og kaunum; maður, sem settur var þeim til gæzlu, fór þá með þeim með hrossabrest í hendi til þess að gera mönnum aðvart, er fram hjá færi, að eigi kæmi þeir of nærri þeim. Kýlasóttin fór yfir sem landfarsótt, og liðu jafnaðarlegast fáein ár á milli; en hve nær sem hún gekk, hrundi niður fólkið. Stundum stóð hún yfir árum saman, eins og drepsóttin, sem gekk á árum Jústinians keisara; hún stóð í 49 ár (531—589). En verri en allar drepsóttir, er áður höfðu gengið,

var hin afarskæða kýlasótt, er gekk á 14. öldinni, sem almennt var kallaður »svartidauði«; er svo ágizkað, að í honum hafi hrunið niður hjer um bil fjórði hver maður í þessari heimsálfu, eða nærfellt 25 miljónir manna.

Eins og þá stóð á, voru menn alveg varbúnir við þessum plágum, og gátu ekki gert sjer neina grein fyrir þeim. Menn leituðu að undirrót þessara meina á himnum, og fundu hana þar, en ekki á jörðinni. Það var ekki það eitt, að menn höfðu trú á því, að stjörnurnar boðuðu forlög manna og rjeðu örlögum, t. d. þegar stórar halastjörnur höfðu einhvern frábrugðinn ljóma, eða þegar einhver ægileg loptundur sáust, eða þá þegar Satúrnus og Júpíter stóðust svo á, að ófögnuð þótti boða. Menn töldu sjálfsagt, að aðalorsökin væri refsidómur drottins yfir spilltu mannkyni. Mönnum þótti því ekki annað vænlegra til þess að afstýra engli dauðans en að gefa fyrir sálu sinni til kirkna og klaustra Menn gáfu allt, sem menn gátu við sig losað, og það varð brátt ljóst, að kirkjan var lystargóð. Þegar hún hætti að geta þegið, ljet hún troða gjöfunum upp á sig. Þegar svartidauði árið 1350 geysaði sem ákafast í Lybiku, gáfu borgarmenn til kirkna og klaustra allt sem þeir áttu af fjemætu; og þegar munkarnir ekki vegna rúmleysis gátu geymt meira, þá hentu menn gjöfunum í þá inn yfir klausturmúrana.

Jafnframt drepsóttinni gengu nú eins og landfarsóttir geðveikindi; menn hálftrylltust af ótta, og lögðu í einhverju ofboði á sig alls konar meinlæti.

Það er merkilegt að heyra frásögurnar um það, hvað ákafir »flagellantar» gátu verið í meinlætagjörðum við sjálfa sig, en svo voru nefndir trúarvinglsmenn, er uppi voru á 13. og 14. öldinni. Þeir fóru um í stórflokkum; fyrst voru það því nær eingöngu lítilsháttar menn, en seinna meir slógust í flokkinn tignir menn og klerkar, karlar, konur og börn; þeir tóku allir upp sama búninginn; það var svört kápa með rauðum krossi; allir höfðu þeir svipur í höndum (og af þeim dróg flokkurinn nafn). Þegar þeir komu til einhverrar borgar, ljetu þeir vera í fararbroddi menn með fána; hjeldu þeir svo syngjandi inn í borgina; það, sem þeir sungu, voru iðrunarsálmar; í hverri borg leituðu þeir að kirkjunum, og fyrir framan ölturu píslarvottanna flettu þeir sig klæðum og ljetu hýðast með svipunum. Þegar þeir þá höfðu látið gera sjer þá ráðningu, er þeim þótti við þurfa, þá var lesið upp brjef, sem engill, að sögn, hafði komið með til altaris Pjeturs postula í Jerúsalem; voru menn í því hvattir til iðrunar og yfirbótar. Svo er frá sagt, að í Strasburg hafi allur hópurinn legið flatur á kirkjugólfinu, 2 og 2 í kross, og hafi forsöngvarinn kyrjað upp yfir þeim: »hefjið til bænar hendur yðar, að guð afstýri hinum ógnarlega dauða; hefjið til bæna arma yðar, að guð sjái aumur á yður». Þetta faraldur fór ekki að eins um stöku bygðarlög, heldur gekk það um allt Þýzkaland, Ungverjaland, Bæheim, Frakkland og Ítalíu. Svo mikill var ákafinn, og svo mikið fannst mönnum um þessar prósessíur, að skugga kastaði á vegsemd kirkjunnar; hún hlaut því að skerast í leikinn; Klemens

páfi hinn 6. umferð þessara svipubræðra, að viðlagðri bannsekt.

Hræðsla manna við dauðann kveikti upp aðra vitleysu, sem var enn affaraverri, og það var sá grunur, að drepsóttin væri svo til komin, að illir menn vildu birla öðrum eitur. Mönnum hugkvæmdist það, að ólyfjan hefði verið borin í vatnsbólin, og má vera, að menn þá þegar hafi rennt einhvern óljósan grun í það, hvað neyzluvatnið getur átt mikinn þátt í því, að útbreiða næm sóttarefni. Á þeim öldum, þar sem trúarofsi var svo ríkur og almennur, þótti mönnum engin hvöt líklegri til slíkrar óhæfu, en trúarbragðahatur hjá þeim, sem voru annarar trúar. Voru því Gyðingar hafðir fyrir sökum. Og á þeim ljetu menn koma niður hefndirnar. Í Bern og Freiburg voru nokkrir Gyðingar hafðir fyrir sökum; voru þeir teknir og píndir til sagna, og játuðu sig seka; þótti mönnum þá ekki framar þurfa vitna við. Í Basel trylltist skríllinn, og hneppti alla Gyðinga í hóp inn í stórt trjebúr, og var það fært á bál og brennt með öllu saman. Áþekkar atfarir voru í borgunum þar í grennd niður með Rín, og eins í Strassborg. Í Meginzuborg voru 12000 Gyðingar kvaldir til dauðs. Árið 1349 loguðu víðsvegar um Þýzkaland, Frakkland og Ítalíu bálin, þar sem Gyðingar voru brenndir; það var ekki farið í neina launkofa með það, og enginn reyndi til að sporna við því.

Það er til skjal eitt frá þeirri öld, sem er lærdómsríkara um þetta efni, en langar frásagnir.

það er brjef frá Friðrik landgreifa í Türingen til ráðherranna í borginni Nordhausen, sem var ein af frjálsum borgum þýzka ríkisins; en brjefið er svo látandi: »þjer, borgmeistari og ráðherrar í borginni Nordhausen! Vita skuluð þjer, að vjer höfum brenna látið alla Gyðinga, svo langt sem lönd vor ná, fyrir hina miklu mannvonzku, er þeir hafa sýnt öllum kristnum lýð, þar sem þeir hafa viljað ráða kristnum mönnum bana með því að láta eitur í alla brunna. En vjer erum sannfróðir um og höfum sannreynt, að þetta er satt. Vjer ráðum yður því til, að þjer látið drepa Gyðingana hjá yður, guði til lofs og dýrðar og kristnum lýð til hjálpræðis».

Lengi fram eptir öldunum eldi eptir af þessum grun um það, að kýlasóttin ætti rót sína að rekja til þess, að allur þorri manna hefði fengið ólyfjan. þegar kýlasóttin 1630 geysaði í Milano, stóð svo á, að Spánarkonungur hafði nýsent út lýsingu á fjórum frakkneskum mönnum, er sloppið höfðu úr varðhaldi í Madrid, en voru grunaðir um það, að breiða út eitruð smyrsli. þegar frjettin kom um þetta til borgarinnar, þar sem sóttin var í algleymingi, þótti einsætt, hvaðan drepsóttin stafaði. Maður einn aðkomandi til borgarinnar þreifaði hendi sinni um vegg dómkirkjunnar, til þess að ganga úr skugga um, hvort í honum væri marmari. Honum og förunautum hans var veitt atganga, og þeim misþyrmt og kastað í fangelsi. Í annari kirkju þurkaði gamall maður ryk af bekk með skykkjulafi sínu; óðara gullu við konur nokkrar og sögðu: hann er að rjóðra smyrslum um bekkina; og hann

var handtekinn og píndur til sagna. Brátt fór svo, að engi þorði öðrum að trúa; tortryggni og ýmugustur fór vaxandi, jafnvel millum nágranna, vina og hjóna, jafnt meðal æðri sem lægri, og var þetta eitthvert hið þyngsta ofanálag á aðrar hörmungar drepsóttarinnar.

Þess er ekki sjaldan getið, og þar á meðal einnig í frásögunum um þessa drepsótt í Milano á það vikið, að kirkjuferðir hafi einmitt orðið til þess, að faraldur þetta espaðist hvað eptir annað. Þetta er vel skiljanlegt, þegar menn athuga, að það var orðið alsiða, þó skaðsamlegt væri, að jarða lík inni í kirkjum. Allir vildu fá legstað undir kirkjugólfinu, og helzt svo nærri altarinu, sem kostur var á. Væri ekki hægt að fá legstað innan kirkju, þá þótti betra en ekki að fá legstað rjett við kirkjuveggina. Kirkjurnar voru því ávallt fullar af óþolandi ódaun, og þegar einhver skæð drepsótt gekk sem landfarsótt, þá var auðvitað hvergi hættara við að taka í sig sóttarefnið en einmitt í kirkjunum. Menn þóttust einnig taka eptir því, að suma daga vikunnar sýktust til muna fleiri en aðra daga, t. a. m. þriðjudagana, 2 dögum eptir kirkjuferðina. En þetta styrkti menn í gruninum, sem menn höfðu gert sjer um það, að einhverjir af illvilja hefðu eitrað bekkina.

Annað, sem studdi að því, að veikindi áttu svo hægt með að útbreiðast, var það, að menn voru alveg fjarlægir því, að hugsa nokkuð um þrifnað og hreinlæti. Salerni þekktu menn ekki. Það var komið fram á 17. öld, þegar bæjarstjórnin í París

varð að fyrirskipa það, að hafa skyldi kamra í hverju húsi. Árið 1342 þurfti að banna það í Göttingen, að hægja sjer í ráðstofukjallaranum, þar sem menn sátu saman og drukku. Við krossferðirnar tókust böð aptur upp um stund í Norðurálfunni, eptir að krossferðamennirnir höfðu kynnzt þessum sið, sem var svo algengur á austurlöndum. En það leið ekki á löngu áður en böðin lögðust niður aptur. Þar að kom, að menn hættu algjörlega við það að þvo sjer, og það löngum tímum saman. Árið 1571 gengu tignir menn í Schlesíu í fjelag, og hjetu því, að þvo sjer aldrei. Sápa var óþekkt. Það var ekki fyrr en 1520, að sápugjörð var fyrst vakin upp í Lundúnum.

Menn stóðu þannig verjulausir fyrir landfarsóttum. Menn kunnu engi ráð til þess að lækna sjúkdómana, og menn töldu það ómögulegt, að sporna við því, að þeir breiddust út. Þeir menn, sem lengst þóttu á leið komnir og hæst hugðu, leituðu þar athvarfs, sem gullgjörðarlistin var. Gullgjörðarmennirnir voru upphaflega efnafræðingar, er reyndu að búa til gull úr málmblendingum. Seinna vaknaði hjá mönnum von um það, að búa til gull með því að ummynda eitthvert annað efni í gull; og loks hugkvæmdist mönnum það, þótt kynlegt væri, að allt væri undir því komið, að finna efni, er kallað var »spekingasteinninn«; sá, sem hafði hann, gat ekki að eins búið til gull, heldur læknað alla sjúkdóma og lengt líf manna. Hinir skarpvitrustu menn á miðöldunum lögðu sig í líma til þess að grafast eptir þessu, og unnu hvíldarlaust við ofna sína og deiglur. Opt þóttust

menn þegar hafa höndlað hnossina, þegar eitthvert kynlegt efni myndaðist í glóheitri deiglunni, en það þurfti ekki lengi að fagna; samt tóku þeir aptur til óspilltra málanna með nýrri von, þegar kólnað var í deiglunni og búið að fleygja burt gjallinu. Á þennan hátt glöppuðust menn á að finna ýms efnasambönd, er síðar komu að haldi; en kynjaefnið, sem lengst hafði verið eptir grafizt, og mest var þráð, það fannst aldrei.

Hjer má svo að orði kveða, að mjög svo skiptir í 2 horn, þar sem annars vegar eru hóflausar vonir, en hins vegar fullkomin örvílnan allra bjarga, og mundi slíkt vera alveg óskiljanlegt, nema menn gættu að ástandinu, eins og það var á miðöldunum, bæði að því er menntun snertir og annað. Það er ekki hægt með fám orðum að einkenna þær löngu aldir; en það sem er efst á borði og mest gengur í augun, er það, að miðaldirnar eru styrjalda- og róstuöld hin mesta og hjátrúaröld. Styrjaldir voru tíðar, og þær voru vanar að draga eptir sig hungur og hallæri. Þegar Gyðingaofsóknunum og svipubræðrafaraldrinu linnti, hófust galdrabrennurnar, og eru þær hinu samboðnar. Frá því snemma á miðöldunum, og allt fram á daga 30-ára-stríðsins, mátti svo að orði kveða, að aftökur sakamanna væri sumstaðar hversdagslegir viðburðir. Þegar fram á leið miðaldirnar, var það sjálfsagt, að hjá hverju þorpi var eitthvert leiti, þar sem gálginn stóð, og í honum hjengu líkin til ógnar og viðvörunar, og stóð af þeim óþolandi ódaun, en hræfuglar flögruðu um hann hópum saman. Það voru tyllidagar fyrir alþýðu, þegar saka-

menn voru af teknir, og í gróðaskini treindu böðlarnir sem lengst lífið í þeim, sem lífið áttu að láta. Það er einkennilegt, að böðullinn í París fjekk í þokkabót tiltekinn skammt af víni og matvælum frá ýmsum klaustrum í höfuðborginni. Aldrei hefir stjettahatur verið meira en þá; þó tók út yfir, hversu illa herramenn fóru með bændur. Þegar nú við þetta bætist, að kirkjan ofsótti villutrúarmenn með báli og brandi, þá fer að verða skiljanlegt, að loptið, sem menn önduðu að sjer í Norðurálfunni, var í þyngsta lagi, þar sem það var fullt af reykelsi frá klaustrum og af nálykt.

## III.

Á miðöldunum var því þannig hvervetna lítið sinnt að gæta heilsunnar; en allt öðru máli var að gegna um hjúkrun sjúkra. Þess var áður getið, að handa líkþráum mönnum voru spítalar reistir. Þegar kýlasóttin geysaði, voru í sumum borgum reist sjúkrahús fyrir þá, sem úr henni sýktust; voru þau sjúkrahús kölluð »lazaret», eptir Lazarusi. Við þau sjúkrahús þjónuðu jafnast munkar og nunnur, og reyndust opt svo vel, að þó klaustralýðrinn hefði ekki annað til síns ágætis, þá væri það eitt ærið þeim til varnar.

Í Þýzkalandi ganga margar sögur, og þær margar sannar, um Elísabet hina helgu; hún gaf sig alla við því, að hjúkra líkþráum mönnum, og ljet hún það ekki á sig fá, hvað viðbjóðslegur sá kvilli er. Hún varð skammlíf, af því að hún reyndi of mikið á sig, enda var hún ein af þeim, er fegnir vilja skilja við þennan heim. Þjóðverjar skoða

þessa konungbornu konu, er var svo mikill mannvinur, sem þjóðardýrðling sinn; hafa mörg skáld orðið til þess að kveða um hana, og margir listamenn til þess að gera myndir af henni, þar sem hún fer ofan frá Wartburg til þess að bera líkþráum mönnum mat og drykk.

Auk þess að reisa sjúkrahús fyrir kýlasóttarsjúklinga, fóru menn og á síðustu öldum miðaldanna að neyta annara varna við þeirri drepsótt. Svo var að sjá, sem Klemens páfi hinn 6., sem var manna hyggnastur, muni hafa haft veður af því, að sótt sú væri næm; því það er um hann sagt, að einn sinni, þegar sótt sú gekk sem landfarsótt, hafi hann læst sig inni í herbergi sínu, og ljet þar sífellt kinda bál mikið, og hlaut allt, sem honum var fært, að fara gegnum logann. Á 15. öld tóku menn á Ítalíu að gera almenn samtök til þess að verjast næmum kvillum; og á næstu öld þar á eptir varð það alsiða í mörgum borgum á Ítalíu, að reisa mjög rammar skorður við því, að efni næmra sótta gæti útbreiðzt; þannig var þá boðið að brenna allt innanstokks úr húsum, þar sem næmir sjúkdómar höfðu komizt, bræla innan húsin, banna allar samgöngur við hús, þar sem næmir sjúkdómar höfðu náð að festast o. s. frv. Stjórn og yfirvöld könnuðust þannig við, að sóttirnar væri næmar; en almenningur var enn ekki farinn að láta sjer það skiljast.

Smámsaman fór nú að lagast öll skipun á mannlegu fjelagi, og voru því samfara ýmsar breytingar til bóta á efnahag manna og lífernisháttum. Við Ameríkufundinn víkkaði sjóndeildarhringur manna,

en prentlistin og siðabótin studdu mjög að því, að glöggva hugsanir manna. Siglingar til áður ókunnra landa og verzlun við þau fluttu nýjar vörur á heimsmarkaðinn. Nú tók að skipta ekki síður um lífernisháttu, en lífsskoðun.

Um þetta leiti fóru menn almennt að neyta ýmislegs, er áður var óþekkt. Áður hafði brennivín hvergi verið búið til eða selt nema í lyfjabúðum, enda hafði þess að eins verið neytt sem læknislyfs; en eptir lok þrjátíu-ára-stríðsins komus tmenn upp á að búa það til með miklu hægara móti, og varð það þá miklu ódýrara en áður. Upphaflega höfðu menn ekki búið það til úr öðru en vínberjum; en smámsaman komust menn upp á að búa það til úr korni og jarðeplum. Við þetta hófst brennivínsdrykkjuskapur, og fór hann því miður allt of ört í vöxt meðal hinna norðlægari þjóða þessarar heimsálfu. Fyr var ölgerð hvergi nema í klaustrum; en síðara hluta miðaldanna varð hún svo algeng, að heita mátti, að hún væri á hverju efnaheimili. Á öndverðri 16. öld fóru menn að komast upp á tóbaksbrúkun í Evrópu, og reyndu þó ríkisstjórnirnar að sporna við því með hörðum lögum. Jakob fyrsti á Englandi lagði háan toll á tóbak sem óhófsvöru, af því að það »spillti heilsu alþýðu, loptinu og jarðveginum». Tyrkjasoldán var þó enn harðskeyttari; 1610 ljet hann það boð út ganga, að stinga skyldi pípunni gegn um nefið á hverjum manni, sem uppvís yrði að því að reykja tóbak.

Á miðri 16. öld fengu menn í þessari heimsálfu hin fyrstu kynni af kaffi. Það kom frá austurlöndum (Arabíu), og varð fyrst algengt í Tyrkja-

veldi, sem vonlegt var, þar sem Múhameðstrúarmönnum er bannað að drekka vín. Þaðan af komst það til hirðarinnar á Frakklandi, og varð í mestu metum hjá Lúðvík 14. En ekki fór kaffið að verða verulega algengt fyr en tókst að flytja kaffitrjeð til Vesturheimseyja, og rækta það þar, en þar fjekk það hinn bezta vöxt og viðgang. Ekki eru nema tvö hundruð ár, sem menn hafa haft nokkur kynni af tei hjer í álfu, og fluttist það fyrst til hennar með Indlandsförum; hið sama er að segja um flestar kryddjurtirnar. Sykur þekktu menn að vísu áður í ýmsum myndum, en það hafði ávallt verið fremur torgætt, og því var það öllum almenningi um megn, að geta veitt sjer það.

Fyrsta sykurgjörðarhús á Þýzkalandi var stofnað árið 1574.

Klæðasnið var lengi fram eptir ofboð áþekkt því, sem nú tíðkast á munkum. Yzt fata var löng kápa, sem því nær var eins í sniði á körlum sem konum, háum sem lágum, leikum sem lærðum. Innan undir kápunni voru menn í kyrtli, og innst fata var skyrta. Við og við hafði menn langað til að taka upp einhvern snöggfeldara búning en kápuna; en kápan varð seig fyrir. Það var ekki fyr en á 16. öld, að gamla klæðasniðið varð að víkja úr sessi fyrir hinu nýja, og fór þá svo, að kvennfólkið, jafnan fastheldið á forna siði, hjelt síða klæðasniðinu og víða, nema hvað það gerði kápuna nærskorna um mittið. Karlmenn tóku upp buxur, fyrst stuttvíðar, svo algengar stuttbuxur, og loksins urðu þær síðar, eins og nú gerist, en kápan ummyndaðist á ýmsa vegu, í stuttkápu, í treyju

og því um líkt, þangað til loksins úr henni varð frakkinn, svo sem hann tíðkast nú. Skyrtan var lengi fram eptir dýrindisfat; það var ekki umtalsmál, að neinn ætti nema eina, og hún var látin bala, þangað til hún var upp táin; því lín var afardýrt fram eptir öldunum; en á 16. öldinni fer það að falla í verði, því bæði eykst til muna línvefnaður, og auk þess fengu menn nýtt tóskaparefni, er til margs var fullt eins hentugt og lín, og var það baðmullin. Arið 1559 var fyrsti baðmullarstranginn fluttur til Englands.

Ýmsar breytingar til bóta á högum manna og jafnframt því sívaxandi þrifnaður og hreinlæti mun hafa verið það, sem hvað mest vann að því, að kýlasóttarfaraldrarnir fóru sírjenandi úr því að leið miðja 17. öld; og á 18. öldinni eru þeir alveg dottnir úr sögunni. En jafnframt því var annað, sem að því vann sjálfsagt til góðra muna. Reynslan hafði sýnt það, að það hafði komið að góðu haldi, að varna öllum samgöngum, þar sem ekki var um stórt svæði að ræða, og tóku menn því það ráð upp, að þvertaka fyrir allar samgöngur við lönd þau, sem kýlasóttin gekk í, en þessu var miklu hægara við að koma á 17. og 18. öldinni, heldur en á þessari öld, með því að samgöngur voru þá miklu ótíðari og minni.

Það voru einkum austurlönd, er reynzt höfðu aðalbólfesta þessarar næmu drepsóttar, og því voru rammastar skorður reistar við samgöngum við þau. Í hafnaborgunum voru settar sóttvarnir á þann hátt, að hverju skipi, sem nokkur hafði sýkzt á, voru bannaðar samgöngur við land í 40 daga frá

því að drepsóttin hafði síðast gert vart við sig; seinna urðu frestin styttri, en eigi að síður var nafninu haldið á þessari sóttvörn, að hún er enn kölluð á flestum norðurálfutungum »quarantina«. Ef skipið aptur hafði vottorð um það frá einhverri höfn, sem það hafði komið í á leiðinni, að engir næmir sjúkdómar væri á því, þá voru því leyfðar frjálsar samgöngur. Á landi þurfti allt meiri viðurbúnað. Kæmi drepsóttin upp á einhverjum vissum stað, þá var hann afkróaður með herliði; og þegar hún geysaði í Tyrkjaveldi, þá voru með endilöngum landamærum Tyrkjaveldis hermenn skipaðir á vörð, er áttu að gæta þess, að engar samgöngur yrði við drepsóttarbælið. Menn eiga nú bágt með að gera sjer nokkra hugmynd um, hvað ríkt var á lagt, að allrar varúðar væri gætt. Lítil saga sýnir bezt, hve ríkt var að gengið. Árið 1815 sýktust nokkrir menn í borg á Ítalíu, er Noja heitir, og er það hið eina sinn, síðan kýlasóttin hætti að ganga í þessari heimsálfu. Menn urðu hræddir um, að að kynni að taka sig upp nýtt faraldur, líkt og gengið hafði fyr á öldum, og var því öllum vörnum beitt stranglega. Óðara voru hermenn sendir móti borginni; umhverfis hana voru grafnar 2 djúpar grafir, og voru á þeim vindubrýr beint undan borghliðunum. Ekkert mátti til borgarinnar flytja nema matvæli; það voru einu samgöngurnar, er leyfðar voru. Fallbyssukjaptar ginu á móti borghliðunum, en hermenn voru settir á vörð með gröfunum, og var þeim boðið að skjóta hvern, er rjeðist til þess að laumast út. Sjúkur maður reyndi í óráði til þess

að komast út hjá varðmönnunum, en var skotinn. Einn af borgarmönnum hafði fleygt spilum til eins af hermönnunum; honum var stefnt fyrir hermannadóm, og var það dæmt, að hann skyldi skjóta, ásamt hermanni þeim, er tekið hafði upp spilin. Í borginni voru rifin niður og brennd 192 hús, er menn höfðu sýkzt í. Á þennan hátt tókst að hleypa ekki þessum vogesti út úr borginni, og má vera, að með því hafi verið fyrir það tekið, að nýtt drepsóttarfaraldur geystist á nýjan leik um þessa heimsálfu.

Löngu áður en hinum mannskæðu kýlasóttarfaröldrunum var linnt, var bólan farin að ganga. Líkt og aðrir næmir sjúkdómar kom bólan frá austurlöndum, og komst hún til norðurálfunnar með krossferðamönnum. Þegar bólan var búin að hjer fótfestu, linnti henni aldrei til fulls. Sá var munur kýlasóttarinnar og bólunnar, að, hvað sem til þess kom, þá sneiddi kýlasóttin hjá stöku manni, en það var sjálfsagt, að bólan tíndi upp alla áður en lyki; það þótti ekki umtalsmál, að allir hlyti að fá barnabóluna, sem hún þá var kölluð. Hún var afar-mannskæð.

Á 18. öldinni vann hún á hjer um bil 10. hlutanum af öllum íbúum norðurálfunnar. Fáir kvillar eru jafn-hræðilegir og bólan, þegar hún er illkynjuð. Í megnri bólu koma útbrot um allan líkamann, sem megna fýlu leggur af; samfara þeim er áköf sótt, og þau eru afarviðkvæm, svo að sá, sem bólusjúkur er, má þakka fyrir að bíða skjótan bana. Menn hræddust líka bóluna fremur en alla aðra sjúkdóma, og kviðu henni meira, og það

því fremur, sem menn kunnu eigi ráð við henni, og ómögulegt þótti að forðast hana. Sóttvarnir og samgöngubönn komu að litlu haldi, og var það bæði af því, að heita mátti, að bólan lægi aldrei niðri, og af því, að það var svo afarerfitt að hafa þær viðsjár sem þurfti, þar sem innilegutími bólunnar er 14 dagar. Hjer um bil á miðri 18. öld þóttust menn allt í einu hafa fengið óyggjandi varnarmeðal gegn bólunni, en það reyndist viðsjárverðara en svo, að það næði að ávinna sjer almenningshylli. Höfðingskona ensk, frú Montague, hafði í Miklagarði fengið vitneskju um það, að á austurlöndum væri það tíðkanlegt, að setja bólu, og þetta reyndi hún á syni sínum, og gafst vel. Þetta, að setja bólu, studdist við þá reynslu, að bólan varð jafnaðarlegast vægari á barninu, þegar því var sett hún, heldur en þegar það sýktist af bólunni. Nú er það fjarska-fátítt, að nokkur fái bóluna optar en einu sinni á æfinni, og því þótti það óskaráð, að láta börnin fá væga bólu, með því að setja þeim bólu með vökva, teknum úr hrúðrum bóluveikra manna. Þegar þeim var bötnuð bólan, mátti telja það víst, að þau mundu aldrei framar bólu fá. En á þessu var ein ónota-snurða; það gat komið fyrir, að bólan snerist illa, og jafnvel yrði bólusetta barninu að bana; auk þess var það ekki hættulaust, að útvega sjer bóluefni og geyma það, jafnskaðvænt sóttarefni. Allt um það tíðkaðist bólusetningin talsvert, einkum meðal heldra fólks, þangað til hún lagðist niður, þegar kúabólusetning komst á, sem síðar mun getið verða.

Annars stóð læknislistin á fremur lágu stigi langt fram eptir 18. öldinni. Miðaldaþokunni var enn ekki algjörlega ljett af náttúruvísindunum. Læknarnir rugluðu óskköpin öll um eðli sjúkdómanna, og eptir fornum vana ráðlögðu þeir meðul eptir ýmsum ytri kennimerkjum sjúkdómanna. En náttúruvísindin voru nú komin á þann rekspöl, að ekki gat hjá því farið, að þau kæmi læknisfræðinni að haldi. Frá því á 16. öld voru læknar almennt farnir að kynna sjer byggingu mannlegs líkama, því þá fóru menn að krylja lík til vísindalegra rannsókna. Áður hafði kirkjan þvertekið fyrir það, að nokkur bæri slíkt við, og lagði bannsekt við því, ef nokkur dirfðist að skera í mannslík. Eptir að hringferð blóðsins var fundin öndverðlega á 17. öld, fóru menn að fá hugmynd um störf líffæranna. Uppgötvun stækkunarpípunnar og fundur hinna svo nefndu »infúsíóns»-dýra á ofanverðri 17. öld hafði látið menn ganga úr skugga um, að meira fannst milli himins og jarðar en nokkurn hafði dreymt um í klaustraklefunum á miðöldunum. Menn fóru að gera sjer ýmsar ímyndanir um þessi ósýnilegu kvikindi, og renndu þegar grun í, að þau kynni að vera óvinir, skæð lífi manna og heilsu, og koma fram margar kátlegar tillögur um varnir við þeim. Einn spekingurinn lagði það til í fullri alvöru, að flæma burt þessi kynjadýr með miklu harki, t. a. m. fallbyssuskotum og lúðragangi; menn ímynduðu sjer, að þau svifu um í loptinu og væri á vöxt áþekkust maurum.

Nú varð tvennt samferða: náttúruvísindunum

fleygði fram, og spekingar 18. aldarinnar þóttust eigi brjóta odd af oflæti heimspekinnar, þótt þeir horfðu lítið eitt lægra en heimspekingarnir höfðu áður verið vanir, og færi nú að hugsa um það, sem að haldi mætti koma í hversdagslegu lífi. Það eru einkum Frakkar, er hjer voru í broddi fylkingar. Í Frakklandi var heil sveit vísindamanni, er Encyclopædistar voru nefndir, er reru að því öllum árum, að fá ummyndað og þá auðvitað að þeirra hyggju umbætt mannlegt fjelag, og þóttust þeir byggja allt það, er þeir vildu til stofna, á rjettri þekkingu mannlegs eðlis. Einn hinn merkasti í þeirri sveit var Voltaire; hann barðist jafnt fyrir bólusetningu og hugsunarfrelsi; hann ljet sjer engu miður um það annt, að bæta heilsufar manna í París en að fá nýja skipun á dómum. Og Rousseau mælti máli heilsugæzlunnar, þegar hann með allri sinni málsnilld var að brýna það fyrir mönnum, að hverfa aptur til upphaflegs ástands mannkynsins. Þessu lík umbrot voru í öllum efnum á undan stjórnarbyltingunni miklu á Frakklandi.

(*Þorvaldur Bjarnarson* hefir íslenzkað).

---

# Kona Bents riddara.

Brot úr „Folkets öden“, skáldsögu frá 16. öld,

eptir

August Strindberg.



»Ástin? Náttúrlega girnd!» svaraði greifinn ungi hinum aldraða læriföður sínum; þeir voru á leið til háskólans í Prag, og styttu sjer stundir með samræðum,' meðan þeir biðu byrjar fyrir utan elfarmynnið.

»Nei, ungi herra!» sagði meistari Franciscus Olai. »Það er hún alls ekki; hún er annað meira; en hvorki hefir hin háfleyga guðfræði nje hin djúpskyggna heimspeki getað komið orðum að því. Á okkar hálærðu tímum eru menn of trúarveikir; en það á rót sína í því, að áður á tímum voru menn of trúarsterkir. Jeg lifði í byrjun þessarar aldar, og jeg vann að því, að kollvarpa gömlum æruverðum byggingum, hrörlegu musteri hroka og eigingirni; jeg tætti blöðin úr helgum bókum og reif myndir niður af kirkjuveggjunum; jeg var í hóp þeirra manna, ungi herra, sem lokuðu klaustrum og gengu af hinni gömlu trú; en þeir hlutir eru til, ungi herra, sem hin alvalda náttúra hefir sjálf stofnsett, og þeim getum vjer ekki þokað úr stað Jeg ætla nú að tala um Amor eður ástina, þann eld, sem aldrei deyr, þegar hann er í sínu rjetta

eðli, en slokknar mjög svo fljótt, ef ekki er allt eins og vera ber, já, sem getur breyzt í hatur, þegar verst lætur».

»Hve nær er hann þá í sínu rjetta eðli? Það er líklega ekki opt!» sagði greifinn og hagræddi sjer í bekknum.

»Hvort sem það er opt eður ekki, þá kemur ástin eins og leiptur af himni, og þá yfirgengur hún vilja vorn og vit; en það er komið undir því, hvern hún hittir fyrir, hvort hún á langt líf fyrir höndum eður ekki. Því hvað það snertir, þá fæðast mennirnir með mismunandi hæfilegleikum eður náttúrufari, og líkjast í því fuglunum og öðrum dýrum. Sumum svipar til skógarhænsnanna, þiðursins og orrans; þeir þurfa heilt kvennabúr, eins og Tyrkinn; vjer vitum ekki hvað veldur þessu; en svona er það og þetta er eðli þeirra; aðrir líkjast smáfuglunum, er taka sjer nýjan maka á ári hverju, og enn eru aðrir saklausir sem dúfur og lifa í eindrægni alla sína æfi; þegar annar makinn fellur frá, vill hinn ekki lifa lengur».

»Hefir þú nokkurn tíma sjeð dúfur meðal heimsins barna?» spurði greifinn efablandinn.

»Jeg hefi sjeð margt, kæri herra; jeg hefi sjeð orra taka saman við dúfu, en það fór út um þúfur; jeg hefi sjeð karldúfu taka saman við gauk, og gaukurinn er fugla verstur; því að hann vill njóta gleði ástarinnar, en ekki sjá fyrir börnunum, og þess vegna kemur hann þeim fyrir; en jeg hefi líka sjeð dúfur, herra!»

»Sem ekki klóuðust?»

»Jú, það gerðu þær, þegar þröngt var í búi og illt til fanga; en það spillti í engu vinfengi þeirra; og sko, .þetta er einmitt ástin. Jeg þekki eina andar-tegund, herra, sem er svo eðli farin, að karlfuglinn ávallt tekur saman við einn kvennfugl af sínu kyni, og sje annar fuglinn skotinn, þá flýgur hinn ekki burt; hann bíður einnig eptir skotinu, og fyrir því er þessi önd talin heimskust allra fugla».

»Það er um frjóvgunartímann, meistari gamli!»

»Nei, ungi herra, þær halda saman allt árið, og frjóvgunartími þeirra er á vorin. Á vetrum eru ungarnir ekki með þeim, og þá eru þær einar saman, en skilja aldrei; þær eta saman, veiða saman og hvíla saman; þetta er ást; og þar sem sálarlausum dýrum er ljeð þessi fagra tilfinning, hví skyldi hún þá ekki vera til hjá manninum?»

»Jú, jeg hefi heyrt, að hún sje til hjá manninum, en að hún hverfi með giptingunni».

»Girndin hverfur að nokkru leyti; en þá kemur ástin í ljós».

»Vináttan er það eina, sem nokkuð er varið í».

»Víst er um það, ungi herra; en ástin er einmitt vinátta milli karls og konu. En það er hægt að segja svo mikið um þetta efni, og það má skoða það margvíslega; jeg skal segja yður sögu, ef þjer viljið, sem jeg hefi sjálfur verið sjónarvottur að, og má vera, að þjer getið grætt eitthvað á henni; hún er frá yngri árum mínum; síðan eru nú liðin fjörutíu ár; en jeg man hvert atvik, eins og það hefði borið við í gær. Á jeg að segja yður hana?»

»Já, byrja þú, meistari! Það er ekki mikið um

gaman, þegar móti blæs. En náðu í ljós og vín, áður en þú byrjar, því að jeg ímynda mjer, að sagan þín haldi manni varla vakandi».

»Það má vel vera, að hún haldi yður ekki vakandi; en hún hefir haldið vöku fyrir mjer margar og allt of margar nætur», sagði Franciscus, og fór að sækja það, sem greifinn bað um.

Hann kom brátt aptur; þeir hagræddu sjer á bekkjunum, og Franciscus hóf frásöguna á þessa leið :

»Það er sagan af konunni hans Bents riddara. Hún var fædd á öndverðri þessari öld og átti tigna foreldra; henni var mjög vandað uppeldi, og er foreldra hennar missti við, setti fjárhaldsmaður hennar hana í klaustur. Tók hún þar öllum fram að vandlætingu og trúarákefð, húðfletti sig á frjádegi hverjum og fastaði á helgum; þegar fram liðu stundir, varð þetta ískyggilegt; hún ætlaði jafnvel að svelta sig til bana, því að hún áleit það skyldu sannkristins manns, að deyða holdið og lifa með guði í Kristi. Þá urðu tveir atburðir til að breyta lífsstefnu hennar gersamlega: fjárhaldsmaður hennar sóaði eigum hennar og strauk af landi burt, og þar með var úti dálætið hjá klausturstjórninni; því að klaustrið var veraldleg stofnun, og hryggir og volaðir fengu þar ekki inngöngu. Þegar svo var komið, tók hún að efast. Annars var efinn þeirra tíma mein, og hún fór ekki varhluta af því. Stallsystur hennar voru alls ekki trúaðar, og yfirmenn hennar engar trúarhetjur. Einhverju sinni var hún send til að vitja sjúkra.

Það var fögur og afskekkt skógargata, sem hún átti leið um, og mætti hún þar ungum og fríðum riddara. Hún nam staðar og horfði á hann, rjett eins og henni hefði birzt engill af himnum; í fimm ár hafði hún ekki litið karlmann augum, og var hún nú orðin fulltíða. Hann stöðvaði hest sinn ofurlítið, heilsaði henni — og hjelt leiðar sinnar. Upp frá þeim degi varð hún leið á klaustrinu, en langaði út í heiminn. Allur hugur hennar hneigðist að veraldlegum efnum; freistarinn vjek ekki frá henni, og hún sat optast nær í fangaklefanum. Einhverju sinni var brjefi laumað inn til hennar. Það var frá riddaranum. Hann átti heima hinum megin við vatnið gagnvart klaustrinu, og gat hún sjeð borg hans út um gluggann á klefanum. Þau hjeldu nú áfram brjefaskriptunum. Það fór að kvisast, að miklar breytingar á öllum kirkjumálum væri í vændum, að klaustrunum ætti jafnvel að loka, en klausturbúar allir að leysast undan eiði sínum.

Þetta kveikti nýjar vonir í brjósti hennar; en þegar hún varð þess vís, að hægt væri að leysa menn undan eiði sínum, þá trúði hún ekki lengur helgi eiðsins, og þá brustu öll bönd; hún trúði nú að eins á mátt sinn og meginn, þvert ofan í öll kirkjunnar boð og mannasetningar. Vinstúlka hennar ein kom því upp, að hún skrifaðist á við riddarann, og þá var hún dæmd til að húðstrýkjast. En það átti ekki svo að fara; því að einmitt sama daginn kom út konungsboð, að nú skyldi klaustrunum lokað. Það var riddarinn, sem flutti boðorð þetta — riddarinn hennar. Hann opnaði

klausturdyrnar fyrir henni og bauð henni hönd sína og hjarta.

það var fyrsti áfanginn af lífsleið hennar».

»Fyrsti?» sagði greifinn og hampaði glasinu. »Endar sagan ekki á því, að þau náðu saman?»

»Nei, herra, þannig enda ævintýrin; en í lífinu er þetta byrjunin. Jeg gleymi aldrei deginum eptir brúðkaupið; jeg var prestur þeirra, og gaf þau saman; þau komu út úr brúðarhúsinu til morgunverðar og ljeku við hvern sinn fingur; það var eins og þessi hnöttur hefði verið skapaður fyrir þau — að eins fyrir þau tvö, eins og sólin skini að eins sakir þeirra. Blóðið svall honum í æðum, honum fannst hann geta tekið alheiminn í fang sjer; allar hugsanir hans miðuðu að því, að gera henni lífið sem ljúfast og ánægjulegast; og hún var í sjöunda himni, neytti hvorki matar nje drykkjar, og vildi ekki vita af því, að vor synduga jörð væri til. Nú, þessi heilaköst í henni voru menjar fyrri tíma, þegar himininn var allt og jörðin ekkert; en hann var barn hinna yngri tíma, og vissi vel, að leið mannsins til himinsins lá um jörðina».

»Og þarna lenti þeim saman?» sagði greifinn.

»Jú, þarna lenti þeim saman, eins og þjer segið. Jeg man einmitt eptir þessum morgunverði; hann tók til matar síns eins og hver annar hungraður maður mundi hafa gert, og hún sat og horfði á hann; hún talaði um fuglakvak, hann um kálfsteik. Svo rak hann augun í það, að hún hafði fleygt brúðarfötunum á stól í borðsalnum kvöldið áður, og minnti

hana þá á, að allt ætti að vera í reglu á hverju heimili».

»Þá fór víst að grána gamanið!»

»Jeg læt vera. En ský dró fyrir sólu, og hún fann, að ekki var allt sem skyldi. Henni fór eins og þeim, sem ganga í kletta: hún ljet aptur augun til þess að sjá ekkert. En hjer bættist meira við. Hann var í þungum hugsunum út af uppskerunni, og ætlaði að ganga út á akurinn; en hún bað hann að vera heima hjá sjer og nefna ekki neina vinnu á nafn á þessum degi».

»Það var heldur bjánalegt!»

»Nú, nú, hún var alin svona upp, og það var klausturlífinu að kenna; þar hafði hún lært að virða að vettugi guðs handaverk. Riddarinn var þá kyr heima og stakk upp á við hana að koma með sjer á veiðar, og því tók hún feginsamlega».

»Þótti henni ‚fínna' að ganga á blóðvöllinn?»

»Jú, eptir skoðunum þeirra tíma var það svo, herra; en tímarnir breytast. En það var ekki öll nótt úti enn, og þetta var mesti óhappadagur. Fógeti konungs kom þar, kallaði riddarann á eintal, og kvað hann verða að inna af hendi ógreidd skattgjöld sín fyrir síðastliðin 5 ár, en ella hafa fyrirgert aðalstign sinni. Riddarinn hafði ekki gjaldið til, en fógetinn kvaðst skyldu útvega honum fje að láni um eitt ár, gegn veði í búgarði hans. Þannig jafnaðist þetta; en nú vissi riddarinn ekki, hvort hann ætti að segja konu sinni frá þessu eður ekki, og leitaði hann ráðs hjá mjer. Mjer þótti það illt, að hin unga kona skyldi verða

svo brátt vakin af draumi heilla og hagsælda, og var jeg svo óforsjáll að ráða honum til að leyna hana þessu, þangað til árið væri liðið».

»Það var alveg rjett; hvað eiga konur að hnýsast í þær sakir? Manngreyið hefði aldrei haft stundlegan frið fyrir stunum og andvörpum».

»Nei, herra, það var ekki rjett. Maður og kona eiga að vera eitt, og vita hvort um annars hagi í hverju sem er.

Og af þessu leiddi, að sundrungin fór sívaxandi einmitt á þessu ári. Hún hafðist við í blómgarði sínum og hann á akrinum; hann var dulur og vann baki brotnu, en ljet hana hvergi koma nærri. Þau fóru þannig sína leið hvort þeirra, og skipti sjer hvorugt af öðru. Þegar þau sáust, þá ljezt hann vera fjarskalega glaður og ánægður, og þannig varð tilvera þeirra fordild ein frá upphafi til enda. Þeim leiddist lífið og þau þreyttust undir byrði þess».

«Og svo kulnaði ástin út!»

»Nei, herra; það *hefði* getað farið svo; en einlæg ást þolir meira en þetta. Þau unnust enn af heilum hug, og það sýndi sig seinna, þegar í þrautirnar rak.

Hún ól barn, og þar með lauk hinum öðrum áfanganum af lífsleiðinni. Hún saknaði nú mannsins minna; því að nú átti hún fullt í fangi með að annast barnið, og maður hennar var ekki eins bundinn og áður. Hún gaf sig alla við þessu nýja ætlunarverki, vakti um nætur og vann á daginn, og enga barnfóstru vildi hún taka. Daglega lífið og sýslanir þess hrifu hana til sín, henni þótti nú

meira að segja skemmtun í að tala við manninn sinn um akur og arning. En engin ósköp standa lengi. Uppeldið fylgir oss, og það líkist illgresinu, sem liggur falið í jörðu árunum saman, en sprettur upp þegar minnst vonum varir. Einn góðan veðurdag leit hún í spegilinn: — hún var orðin fölleit og kinnfiskasogin, fegurðin farin og æskublóminn horfinn. Þá vaknaði aptur í henni hið upphaflega kvennlega eðli, þessi dularfulla gáfa, sem er einn þátturinn í tilveru konunnar; það greip hana áköf löngun til að ná hinum fyrri fríðleik sínum, til að sjá mátt sinn opinberaðan í fegurð sinni. Hún gaf sig ekki eins mikið við barninu og tók að stunda sjálfa sig betur. Maður hennar tók eptir þessum umskiptum, og meira að segja: hann gladdist af því; í fyrstunni hafði hann yndi af að sjá, hvað mikla umhyggju hún bar fyrir barninu og heimilinu, en svo sárnaði honum að sjá konu sína ganga illa til fara, veiklulega og volaða; þá óskaði hann sjer þeirra tímanna, þegar hún sat við gluggann og þráði heimkomu hans, og hann sá ekki sólina fyrir henni. Svo undarlegt er mannshjartað, og þetta eimdi eptir af hinum gömlu riddurum, er tignuðu konuna sem ímynd hinnar helgu jómfrúr, — eða þá rekkjunaut sinn. En svo hafði hann breytt í ýmsu háttum sínum, meðan kona hans gaf sig alla við barninu; hann tók aldrei ofan hattinn, hámaði í sig matinn hjer og þar, og vandaði stundum ekki mjög mikið um klæðaburð sinn. En þegar kona hans snerist aptur til fyrri venju sinnar, gleymdi hann að haga sjer eptir því líka. Henni þótti maður sinn lítilsvirða

sig með hegðun sinni; og enn fremur vildi það atvik til, að hún þóttist fullviss um, að maður sinn væri orðinn þreyttur á sjer.

Það var annars mikill óhappadagur. Þessi ársfrestur, sem riddarinn fjekk, var þegar útrunninn. Kornið þróaðist einkar-vel, en hann sá, að uppskeran mundi þó ekki hrökkva til að gjalda alla skuldina, og tók hann þá annað ráð. Hann ljet höggva upp öll trje kring um búgarð sinn; var það afbragðs-viður, og sóttust trjesmiðir mjög eptir honum; rjett hjá höll hans var linditrje, sem kona hans hafði miklar mætur á, og var það höggvið eins og hin; riddarinn vissi ekkert um, að henni þætti vænt um eik þessa, og voru þetta því engir hrekkir. Kona hans var veik um sama leyti, og hafði legið nokkurar vikur; þegar hún reis á fætur, saknaði hún þegar lindarinnar, og hjelt að þetta hefði verið gert til að móðga sig; enginn hafði heldur vatnað rósviðum hennar; allir höfðu nóg að starfa um uppskerutímann, og hugsaði því enginn um þetta. Þetta hjelt hún að hefði líka verið gert sjer til skapraunar, og ljet fara til og sækja vatn á öllum þeim eykjum, sem til voru á heimilinu.

Fógeti konungs, sem áður er nefndur, kom um haustið, og ætlaði að vera þar, meðan uppskeran stæði yfir; var hann til húsa í borg riddarans og heimsótti konu hans um sama leyti, sem þeir atburðir urðu, er nú var frá sagt. Það kom þá upp úr kafinu, að þau höfðu þekkzt í æsku; það glaðnaði yfir henni, eptir því sem hún talaði lengur við hann, og henni geðjaðist vel að hinum lipra en

alvarlega konungsfógeta; henni varð ósjálfrátt að bera hann saman við manninn sinn, — og fógetinn varð ofan á. Hún gáði ekki að því, að maðurinn hennar gat verið fullt eins hæversklegur, þegar hann vildi mikið við hafa, og að fógetinn gat verið ruddamenni hversdagslega.

Þannig voru lagðar undirstöðurnar til þess, sem síðar átti fram að koma. Þegar riddarinn kom heim, var fógeti farinn, en kona hans sat ein, og »hugsaði margt en talaði fátt». Riddarinn var mjög glaðlegur þennan dag, fyrst og fremst af því, að kona hans var komin á fætur aptur, og í öðru lagi vegna þurksins; það leit út fyrir gott veður, og kornið átti að komast í hús einmitt þennan dag; hún var í þungum hug og tók engan þátt í gleði manns síns; og svo byrjaði hnútukastið. Hún spurði eptir lindinni sinni. Hann kvaðst hafa þurft á henni að halda og höggvið hana þess vegna; hvers vegna hann hefði tekið *þessa* lind, nú skýldi hún eigi herberginu sínu framar; hann kvaðst ekki hafa tekið þessa lind öðrum fremur, en ásamt öllum hinum trjánum. Þá voru rósirnar. Hann sagði, að það hefði aldrei verið sitt verk að vökva þær. Því gat hún engu svarað; en nú sá hún, að hann var á sömu stígvjelunum, sem hann gekk á úti, og svo fann hún að *því*. Hann ætlaði þegar að bæta úr þessu og fara úr stígvjelunum þar sem hann stóð; þá varð hún óð og uppvæg, sagði hann væri skeytingarlaus og elskaði sig ekki framar. Riddarinn svaraði henni eitthvað á þessa leið: »Þú segir, að eg elski þig ekki, af því að jeg vinn fyrir þjer, en sit ekki inni og kúri við sauma-

borðið þitt; að jeg elski þig ekki, af því, að jeg finn til sultar, þegar jeg matast ekki; að jeg elski þig ekki, af því, að jeg hafði ekki stígvjelaskipti, þó jeg brygði mjer snöggvast inn; þú segir, að jeg elski þig ekki! Ó, ef þú vissir, hve heitt jeg elska þig». — Hún svaraði honum einhvern veginn svona: »Þú elskaðir mig, áður en við giptumst, þó að þú sætir þá við saumaborðið mitt, þó að þú hefðir þá stígvjelaskipti, og þó að þú sýndir mjer þá ekki fyrirlitningu. Hvers vegna ertu orðinn svona umbreyttur?» »Nú erum við gipt», svaraði hann. Hún hjelt, að hann þættist hafa fengið einhvern eignarrjett á sjer með giptingunni, og að hann ætlaði nú að sýna sjer það með því að koma svona fram við sig. En framkoma hans var byggð á því, að hann trúði því fast og óbifanlega, að hún mundi elska sig jafnt í meðlæti og mótlæti, eins og hún hafði lofað, og að hún mundi sjá í gegnum fingur við sig, þó að hann væri ekki allt af svo heflaður. Það var komið fram á varirnar á honum, að hann ynni baki brotnu, hugsaði um akurinn, rótaði upp jörðunni og óhreinkaði gólfið til þess að bægja frá aðvífandi hættu; — en hann sagði ekkert; hann var ekki viss um að hún þyldi að heyra það, nýstaðin upp af sóttarsæng, og auk þess vissi hann, að öllu var borgið innan skamms. Hann bað hana fyrirgefningar; þau fyrirgáfu hvort öðru, og allt lagaðist.

En þá steðjaði ógæfan að þeim. Það kom einhver hlaupandi inn, og sagði, að hann væri orðinn kafþykkur í lopti og rigning væri þegar dottin á.

Henni þótti vænt um, að rigningin kom og rósirnar vökvuðust; en hann var ekki á sama máli.

Hann sá nú að allt var í veði; sagði hann þá konu sinni upp alla sögu, og bað hana að æðrast ekki. Skipaði hann svo að fara af stað með alla eykina og aka korninu heim undir eins. »Það er verið að sækja vatn á þeim», sagði húskarl einn. »Hver rjeð fyrir því?» »Það gerði jeg», sagði kona hans; »jeg þurfti að fá vatn á blómin mín; þú ljezt þau þorna upp, meðan jeg lá».' »Og þú blygðast þín ekki fyrir að segja mjer þetta?» sagði riddarinn. Þá sagði hún loksins: »Þú hrósar þjer af að hafa logið að mjer í heilt ár: jeg þarf ekki að skammast mín fyrir að segja sannleikann, því jeg hefi ekki aðhafzt neitt illt; en jeg gat ekki gert að því, að þetta óhapp vildi til». Þá varð riddarinn alveg hamslaus, gekk að henni með reiddan hnefann og gaf henni löðrung».

»Það var svei mjer alveg rjett af honum», sagði greifinn.

»Svei, svei, ungi herra; var það rjett, að slá lítilmagna konu?»

»Því má ekki eins berja konur, eins og börn?»

»Af því að konan er tápminni, herra!»

»Enn fremur: maður fer ekki að kljást við þann, sem sterkari er, og má ekki leggjast á lítilmagnann; hvern má maður þá berja?»

»Maður má engan berja, vinur minn! Svei, svei, það er ljóta skoðunin, sem þjer hafið látið í ljósi; og þó ætlið þjer að gerast andstæður þeim, sem vopn bera».

»Nú, jæja, hvernig gengur það í bardögum? Þar

reiðir hinn sterki höggið, og lítilmagninn verður fyrir því; er það ekki rjett hugsað?»

»Getur verið; en siðferðislegt er það ekki. En viljið þjer nú heyra framhaldið?»

»Jeg hjelt að sagan væri á enda, eður ástin að minnsta kosti».

»Nei, nei, herra; það er mikið eptir enn, og ástin hverfur ekki svo fljótt. Jæja nú; kona riddarans hjelt, eins og þjer, að nú væri úti með ástina; fógetinn kom þar að í þessu, og bað hún hann að sækja um skilnað til konungs fyrir sína hönd».

»Ætlaði hún að yfirgefa barn sitt?»

»Nei, hún hjelt að hún gæti tekið það með sjer; hún var særð innst í hjarta sínu, og hún gat ekki risið undir því fargi, sem fagrar en horfnar vonir lögðu á hana».

»Og riddarinn?»

»Hann stóð sem þrumu lostinn! Allir draumar um ást og hamingju, allt var farið, og þar að auk var hann nú öreigi; því að nú var komin hellirigning, og ónýtti kornið; og hún, sem hann hafði unnt mest, var orsök í óláni hans; hann bar þungan hug til hennar; en þegar honum rann reiðin, þá fann hann, að hann unni henni samt sem áður».

»Samt sem áður?»

»Já, herra; ástin spyr aldrei um ástæður; hún veit, að svona á það að vera og ekki öðruvísi. En það voru leiðinlegir dagar, sem komu eptir þetta. Riddarinn ljet búgarðinn eiga sig, en var á sífeldu flakki um aðrar sveitir á hesti sínum. En frú Margrjet fór ekki svo að ráði sínu; hún harkaði

af sjer og tók alla hússtjórnina sjer í hönd; neyðin kennir naktri konu að spinna, og konan riddarans var aldrei óbilugri og öruggri en nú; hún gerði klæði handa sjer og barni sínu, hafði eptirlit með heimilisfólkinu og sá fyrir kaupi þess; henni veitti örðugt að komast upp á lagið við hjú sín, því að þau höfðu ávallt skoðað hina smávöxnu og veigalitlu konu eins og gest og óviðkomandi á heimilinu; en hún gekk að þessu öllu með oddi og egg, og var alstaðar nærri. Hún veðsetti gimsteina sína, þegar peningarnir hrukku ekki til, og með þessu borgaði hún kaup hjúanna og skuld manns síns.

Nú er að segja frá riddaranum, að hann rankaði loksins við sjer og sneri heimleiðis; hjelt hann að þar væri allt á ringulreið, og búgarðurinn genginn úr greipum sjer; sá hann nú, að allt var í beztu reglu, og þegar hann spurðist betur fyrir, þá var honum sagt, að kona hans hefði reist allt við; iðraðist hann þá breytni sinnar, skundaði til konu sinnar, fjell á knje fyrir henni og bað hana að fyrirgefa sjer, að hann hefði ekki kunnað að meta hana eins og hún átti skilið. Hún fyrirgaf honum allt, og sagði, að ekki hefði verið hægt að meta þá kosti sína áður, sem hún hefði ekki haft til að bera fyr en nú.

Komust svo sættir á milli þeirra; en hún gat þess, að hún bæri enga ást til hans framar og gæti ekki verið eiginkona hans. Í þessum svifunum bar fógetann að; hafði hann hafzt við þar hjá henni og hjálpað henni með ráðum og dáð.

Riddaranum fannst, sem hann væri tekinn fram

yfir sig og sjer ekki gefinn gaumur; hann varð ákaflega hræddur um konu sína og lagði blátt bann við, að hún veitti ókunnum manni vist á heimili sínu. Hún kvaðst þá mundi heimsækja fógetann, ef hann mætti ekki heimsækja sig. Þessu reiddist riddarinn, og ljet hana skilja á sjer, hvers hann mætti sín við hana, þar sem hún væri enn þá kona sín að lögum; sýnir hún honum þá skilnaðarleyfið, er hún hafði fengið sama daginn, og kvaðst nú fara þangað sem sjer líkaði.

Þegar svo var komið, sá riddarinn sitt óvænna, og bað hana í guðs bænum að fara hvergi. Þegar hún leit hinn drembna riddara engjast eins og maðk á gólfinu, missti hún alla virðingu fyrir honum; hún minntist þeirra tímanna, að hún, kjarklaus og vesöl, mændi á hann og vonaði, að hann mundi lypta sjer með styrkri mund yfir allar torfærur lífsins; hún gat ekki horft á þetta lengur, og vildi flýja eitthvað burt; hann var henni ekki framar það sem hann hafði áður verið; hún kannaðist ekki lengur við hann, og fór burt».

»Hana-nú, þar með var þá öllu lokið», sagði greifinn; honum var farið að leiðast.

»Nei, nei, ungi herra; það leit reyndar út fyrir það, en það var ekki allt búið enn. En hjer verð jeg sjálfur að gera játningu mína.

Jeg horfði á þetta allt saman, herra, því að jeg var vinur hennar, og tilbað hana í hjarta mínu. Jeg skal líka gangast við því, hvaða afglapi jeg var. Jeg og mínir samtímismenn, sem ólumst upp á seinustu dögum hinnar gömlu riddara-aldar, höfðum þá skoðun á konunni, að hún stæði stigi hærra

en vjer karlmennirnir; vjer tilbáðum fegurðina, allt það sem gekk í augun, og af þeim hugmyndum, er vjer smíðuðum oss um konuna, var sú ríkust, að hún væri glæsilegt augnagaman, já, meira að segja, jeg, sem þó leitaði að vegi sannleikans, jeg var svo blindaður af gömlum draumórum, að mjer fannst kona riddarans höggva skarð í dýrð sína, einmitt þegar hún krýndi sig sigurkransi erfiðis og armæðu. Jeg átti tal við hana sama daginn sem skilnaðarskjalið kom, og jeg man eptir því eins og jeg hefði skrifað það upp. Jeg sagði eitthvað á þessa leið: Ef þjer vissuð hvað mjer þótti einu sinni ókristilega vænt um yður! En engillinn felldi fjaðrir og dísin missti gullskóinn. Daginn eptir brúðkaupið sá jeg yður þeysa um skóginn á hvíta hestinum; hann bar yður hátt yfir döggina, yfir fen og foræði, svo að hvergi sást blettur á klæðum yðar mjallhvítum; jeg stóð bak við eik og hugsaði: en ef hún dettur! Það stóð mjer fyrir hugskotssjónum: þjer láguð í leðjunni, og glóbjart hárið ljómaði eins og sólskinsblettur á engjarós; þjer sukkuð dýpra og dýpra, og seinast sá jeg að eins aðra hendina; þá heyrði jeg hauk gjalla yfir höfði mjer og sá hann beina vængjum til himins. — Það var í alla staði rjett, sem hún svaraði mjer: Einu sinni sögðuð þjer, að lífið, eins og það er, hvorki betra nje verra, væri gefið oss af guði, og að vjer mættum ekki mögla yfir því, heldur taka því eins og það er. En nú talið þjer undir rós, og segið, að jeg sje sokkin djúpt, einmitt þegar jeg er komin út í lífið; jeg hefi klæðzt fátæklegum spjörum í stað purpuramöttuls, af því

að jeg er fátæklingur; þegar jeg tók barn á brjóst mjer, þá átti jeg ekki lengi blóma æsku minnar; nálin hefir stungið hendur mínar og harmur deprað augu mín; byrði lífsins beygir mig til jarðar, en sálin lyptir sjer til himins, eins og haukurinn, þó að líkaminn sitji fastur í leðjunni.

Jeg spurði hana, hvort hún hjeldi þá, að hún gæti haldið sálunni upp úr, er líkaminn sykki. Nei, sagði hún! Þarna skjátlaði henni, eins og mjer: hún hjelt að eitthvað sykki, að hún missti einhvers í. En vinnan hefir aldrei þau áhrif á líkamann, heldur herðir hún hann, styrkir og bætir; hún hefur hann upp, en niðurlægir hann ekki; en við vorum svo heimsk, að halda það; því að þetta var okkur innrætt frá æskunni, og þess vegna hjeldum við, að betur sómdi, að hafa hvítar hendur og veikar, en hnýttar og hrukkóttar. Svona voru menn heimskir í mínu ungdæmi, herra, og eru það líklega sumstaðar enn. Í heimsku minni taldi jeg hana á glæpaverk. »Leysið haukinn og lofið honum að fara», sagði jeg. Hún skildi, hvað jeg fór. Mjer hefir komið það til hugar, sagði hún; en fjöturinn er sterkur. Jeg hefi lykilinn að honum, sagði jeg. Hún bað mig að fá sjer hann, og jeg fjekk henni glas með eitri í.

Nú er þar til að taka, er áður var frá horfið. Það var þegar hún gekk burt frá manni sínum og fór til fógetans. Þegar hún kom til hans, varð hún að bíða, því að hann var í embættisönnum og var ekki heima. Þar fjekk hún þegar eina bendinguna: Nokkrar vinkonur hennar, eldri en

hún og giptar, köstuðu ekki kveðju á hana, af því að hún hafði slitið hjúskapnum; og þó hafði ein þeirra verið manni sínum ótrú, en hún þóttist samt of góð til þess að taka í hendina á frú Margrjeti. En hvað er um það að tala! Á þeim tímum var ekki verri glæpur til en sá, að slíta hjúskap; en hamingjunni sje lof, að nú eru menn þó komnir á aðra skoðun um það efni. Eins og jeg sagði, þá fór hún að finna fógetann, og ætlaði að leita ráða hjá honum, eins og áður, meðan hún átti í þessu basli. Jeg held ekki, að hún hafi elskað hann; en hún ímyndaði sjer það, af því að hún hjelt að hún væri búin að missa hinn; en ein gat hún ekki lifað. En fógetinn var ekki við eina fjölina felldur, og honum hefði líklega tekizt að leiða frú Margrjeti afvega, hefði hann kunnað á henni tökin og haft nokkra eptirgangsmuni sjálfur. En hann hugsaði sem svo, að hún gengi aldrei úr greipum sjer, og því beið hann. En hann var líka mjög hjegómlegur, og hjelt að öllu kvennfólki litizt á sig. Þegar hann frjetti það nú, að frú Margrjet ætlaði að koma til sín, þá stje hann í vagn sinn og ók á burt. Þegar hann kom heim aptur og þau heilsuðust, þá grunaði hana ekkert; því að hún reiddi sig á vináttu hans og hollustu. Hún fór að tala um basl sitt og armæðu, en hann um ást sína; hún gegndi því engu. Reyndar vissi hún, að hún var engum háð, en endurminningin tók fram fyrir hendur henni, og svo eimdi líklega eptir af fyrri ást hennar. Honum óx hugur, og hann þrábað hana að taka ást sinni. Hún sneri þá bakinu við honum; en nú

var hjegómagirni hans misboðið; hann sýndi nú berlega, hver maður hann var, og ætlaði að leggja hendur á hana. Það vildi svo til, að mig bar þar að, og sagði jeg frú Margrjeti, að ofan á allt saman væri hann lofaður öðrum kvennmanni. Hún gekk burtu þaðan; en þegar hún sá, að seinustu vonir sínar urðu að engu, þá greip hún til lykilsins, sem jeg hafði fengið henni.

Jeg vissi, að eitrið gat ekki verkað á hana fyr en eptir eina klukkustund, og talaði jeg nú við hana eins og hvern þann, sem kominn er í opinn dauðann. En sízt var jeg þá fær um að hughreysta deyjandi mann, og víst er um það, að »flestir kjósa firðar líf«; þegar svo er komið, þá fer fyrir manni, eins og þegar hvolft er úr tunnu: það sem neðst var, verður efst, allar endurminningar koma fram, allar hjegiljur, þó vjer höfum afneitað þeim öllum fyrir margt löngu. Jeg fjekk upp úr henni það, sem hún hafði lært um skyldur sínar við náungann; það var kann ske ekki allt svo fullkomið; en jeg notaði mjer það samt. Með fortölum mínum gat jeg þó unnið það á, að hún var ekki ófáanleg til að ganga í klaustur og byrja þar nýtt líferni; meira að segja: jeg fjekk hana til að hafna klaustrunum — enda var þeim lokað, eins og áður er sagt — og hverfa aptur til heimilis síns; þar gat hún líka byrjað nýtt líferni með vandlætingu, sjálfsafneitun og skyldurækni.

Svo fjekk hún kast aptur; hún varð öldungis hamslaus og formælti heiminum og öllu táli hans,

formælti þeim, sem höfðu gyllt lífið fyrir henni og logið að henni, að það væri eilíft sól og sumar.

Og það gat jeg ekki láð henni, því að það er ekki argari villa til, en að telja þeim, sem ganga í hjónabandið, trú um, að *það* sje viss vegur til friðar og farsældar; frið og farsæld er hvergi að finna í þessu lífi, og ekki heldur í hjónabandinu.

Hún varð öldungis hamslaus; en þá varð óvæntur atburður mjer til liðs. Barn hennar var í herbergi beint niður undan, og fór að hljóða. Það kom við hjartað í henni, og hún kvaðst nú vilja lifa til þess að koma barni sínu til að þekkja lífið, eins og það væri, og rata ekki í sömu raunir og hún. Hún minntist ekkert á mann sinn, og jeg get ekki borið um, hvort hún hafi þá hugsað nokkuð um hann. Jeg vissi ráð til að koma í veg fyrir verkanir eitursins; en jeg vildi halda henni hræddri dálítið lengur, og gaf henni ekki eins góðar vonir og jeg hefði getað, og fór burt.

Þegar jeg kom aptur, lá hún í faðmi manns síns. Hann hafði fundið hana í stiganum, og lá hún þar eins og í dái. Allt var gleymt, eins og aldrei hefði neitt í skorizt. Þjer finnst það undarlegt! En fyrirgefur þú ekki móður þinni, að hún agar þig, og elskar móðir þín þig ekki, þó þú hafir sagt henni ósatt og bakað henni sorg og gremju? Allar þessar geðshræringar hröktu og hrjáðu sál hennar, þangað til ástin til riddarans var orðin efst, eins og ljómandi perla, sem dregin er upp frá mararbotni. En enn þá barðist hún

við sjálfa sig, og sagðist ekki vilja elta hann, og þó elskaði hún hann.

Jeg gleymi aldrei því, sem hann svaraði henni; það var ráðning gátunnar: Þú vildir ekki elska mig, Margrjet, sagði hann, því að þú þóttist of góð til þess; en þú elskaðir mig samt. Þú elskar mig, þó að jeg hafi lagt hendur á þig, og þó að mjer færist ómannlega, er óláníð bar að höndum. Jeg ásetti mjer að hata þig, þegar þú fórst frá mjer; mjer kom til hugar að ganga næst lífi þínu, af því að þú ætlaðir að leggja barn þitt í sölurnar, og þó elska jeg þig samt sem áður. Trúir þú nú ekki á vald kærleikans yfir vondum vilja vorum?

Þannig mælti hann, og jeg tek undir með skáldinu: Þessi dæmisaga kennir oss, að ástin er það vald, sem enginn fær út grundað, og sem vilji vor megnar ekkert á móti. Ástin umber allt og neitar sjer um allt; og af þessu þrennu: trú, von og kærleika, er kærleikurinn máttugasti, herra!

»Nú, en hvernig fór svo eptir þetta?»

»Jeg var ekki hjá þeim lengur».

»Þeim kemur líklega illa saman enn?»

»Jeg veit, að þeim ber stundum á milli; því að það ber öllum á milli, sem ekki eru alveg sömu skoðunar; en jeg veit líka, að þau setja sig hvorugt upp yfir annað, og ætlast ekki til eins mikils af lífinu eins og áður; þau lifa nú hamingjusömu lífi, það er að segja: þau hafa öðlazt það lán, að geta tekið lífið eins og það er; það var einmitt þetta, sem eldri tímarnir gátu ekki, því að þeir vildu endilega skapa sjer alsælu

á jörðunni; en á síðari tímum höfum vjer lært þetta.

Og svo kann jeg ekki þessa sögu lengri.

(*B. G. B.* þýddi).



# Í tungls-ljósi.

Saga eptir

## Guy de Maupassant.

En hvað það átti vel við, að hann skyldi heita *Marignan*[1], þessu bardaganafni.

Hann var hár, grannleitur trúarofsa-prestur, öfgafenginn og æstur í lund, en rjettsýnn í sjer og góður drengur. Trú hans var óbifanleg, laus við nokkurt hið minnsta hik. Hann var að fullu og öllu sannfærður um, að hann þekkti guð sinn, og hefði skilið til hlítar tilgang hans í hverju einu, áform hans og vilja.

Stundum þegar hann var á gangi, langstígur, um litla garðinn á prestssetrinu, kom sú spurning fram í sálu hans: »Hvers vegna skyldi guð hafa gert þetta?» Og síðan leitaði hann með elju og

1) Við bæinn Marignan á Ítalíu stóð bardagi árið 1515.

ákafa, setti sig sjálfan í guðs stað, og fann ástæðuna næstum ævinlega. Honum hefði aldrei getað komið til hugar að stynja fram með guðhræðsluauðmýkt: »Herra, þínir vegir eru órannsakanlegir». Hann sagði við sjálfan sig: »Jeg er þjónn guðs, og mjer ber því að vita tilgang hans; jeg verð að ætlast á hann, ef jeg veit hann ekki».

Honum fannst allt í náttúrunni vera gert með fortakslausri og aðdáanlegri hugsunarfestu. »Hvers vegna» og »af því að» voru í stöðugu jafnvægi. Morgunroðinn var gerður í þeim tilgangi, að gera mönnunum þægilegt að vakna, dagurinn til þess að veita jarðargróðanum þroska, regnið til að vökva hann, kveldið til að búa undir svefninn, og myrkur næturinnar til að sofa í. Árstíðirnar fjórar svöruðu fullkomlega til þarfa akuryrkjunnar, og aldrei mundi prestinum hafa getað dottið í hug nje hjarta, að náttúran hefir engan tilgang, og að allt, sem lifir, hefði þvert á móti beygt sig fyrir knýjandi nauðsyn árstíða, loptslags og lífsefnis.

En hann hataði kvennfólkið, hataði það óafvitandi og fyrirleit það ósjálfrátt. Opt hafði hann upp orð Krists: »Kona, hvað er mjer sameiginlegt við þig?» Og svo bætti hann við: »Menn sögðu, að guð sjálfur væri óánægður veð verk sitt». Kvennmaðurinn var í hans augum hin freistandi vera, sem hafði leitt hinn fyrsta mann í ógæfu, og sem stöðugt hjelt áfram sínu glötunarverki, breysk og hættuleg vera, sem ruglar skilningarvit karlmannanna á leyndardómsfullan hátt. Og hann hataði í þeim sálina, með sínum sterka vilja til

að elska, meira heldur en líkamann, sem leiðir í glötun.

Opt hafði hann fundið viðkvæmni þeirra í sambandi við sig sjálfan, og þó að hann sýndi, að hann var óvinnanleg borg, ertist hann og ergðist af þessari þörf til að elska, sem hann jafnan fann titra í þeim.

Eptir hans skoðun hafði guð skapað kvennfólkið eingöngu í þeim tilgangi, að freista karlmannanna og reyna í þeim rifin. Menn máttu ekki nálgast það nema með varnarbúinni gætni, og þeim beig, sem stendur af gildru.

Hann hafði að eins nokkurt umburðarlyndi með nunnunum, af því skírlífisheitið gerði þær óskaðlegar, en hann var þó harðneskjulegur við þær, af því að hann fann innst í hjörtum þeirra, svo fjötrum vafin og full auðmýktar sem þau voru, þessa sífeldu ástblíðu, sem einnig þar streymdi á móti honum, þótt hann væri prestur.

Hann fann hana í augum þeirra, sem þeim vöknaði um svo opt meðan þær báðust fyrir, í trúarflugi þeirra, sem var svo miklu meira frá sjer numið heldur en hjá munkunum, í hinni ofsaheitu tilbeiðslu þeirra til Krists, sem æsti hann til reiði, af því það var kvennást. Hann fann þessa hötuðu viðkvæmni jafnvel í hlýðni þeirra, í blíðleikanum í rödd þeirra, þegar þær ávörpuðu hann, í niðurliti þeirra og sorgstilltu tárum, þegar hann veitti þeim höstuglegar ávítur.

Og hann hrissti kufl sinn, þegar hann fór út úr dyrunum á nunnuklaustri, og flýtti sjer burt svo

hratt sem hann mátti, eins og hann hefði umflúið hættu.

Hann átti sjer systurdóttur, sem átti heima ásamt móður sinni í litlu húsi rjett hjá honum. Hana vildi hann fyrir hvern mun láta verða nunnu.

Hún var lagleg, hláturmild og kát. Þegar presturinn var að telja um fyrir henni, hló hún, og þegar hann reiddist við hana, þá hljóp hún upp um hálsinn á honum og þrýsti honum fast upp að sjer, en hann hafði sig ósjálfrátt allan við að losa sig úr þessum faðmlögum, sem þó veitti honum milda gleði, vakti hjá honum þá föðurást, sem blundar í hverjum karlmanni.

Opt talaði hann við hana um guð, *sinn* guð, þegar hann var úti með henni á gangi. Hún hlustaði ekki eptir meira en í meðallagi, en horfði á himininn, grasið og blómin, með fögnuði yfir því að lifa, sem speglaðist í augum hennar. Við og við hljóp hún frá honum, til þess að elta uppi eitthvert skorkvikindið, og þegar hún svo kom aptur með það, hafði hún til að segja: »Nei, líttu á, frændi, hvað það er fallegt; mig langar að kyssa það»; og þessi löngun til að kyssa flugurnar og blómknappana gerði prestinn órólegan og illan í skapi, því á henni fann hann enn þessa óupprætanlegu ástblíðu, sem jafnan þróast í kvennhjartanu.

Og svo bar það við einn dag, að kona kirkjuvarðarins, sem þjónaði presti, sagði honum með mikilli varkárni, að systurdóttur hans ætti sjer unnusta.

Honum varð mikið um þetta. Hann stóð graf-

kyr, hálfkæfður af geðshræringu, með andlitið löðrandi í sápu, því hann hafði verið að raka sig. Þegar hann loks gat komið fyrir sig hugsun og máli, hrópaði hann: »Það er ekki satt; þú lýgur því, Melanía».

En kerling lagði hendina á hjartað, og sagði með klerkaviðhöfn:

»Fari jeg þá norður og niður, ef jeg lýg því, sjera Marignan. Þó jeg ætti að detta dauð niður, get jeg ekk sannara talað, en að hún fer til móts við hann hvert kveld sem guð gefur yfir okkur, þegar systir yðar er háttuð; þá finnast þau niður við á. Farið þjer þangað sjálfur eitthvert kveldið, klukkan á milli 10 og 12, og þá getið þjer sjálfur sjeð. Sjón er sögu ríkari».

Hann hætti að klóra sjer á hökunni, og fór að ganga um gólf í mestu ákefð, eins og hans var vandi, þegar hann þurfti að hugsa um eitthvað alvarlegt. Þegar hann svo tók til að raka sig aptur, flumbraði hann sig þrisvar.

Hann mælti ekki orð frá munni þann dag, svo hryggur var hann og reiður. Við vandlætingaofsa hans sem prests, yfir ástarinnar óflýjandi valdi, bættist gremja fjárhaldsmannsins og lögráðandans í honum; þessi reiði, sem þeir finna, sem hafa tekið í sig að sjá fyrir sálarvelferð annara, en komast svo að því, að barn hefir leikið á þá og stolið ánægjunni frá þeim; þessi sjergóða vonzka í foreldrum, þegar dóttir þeirra segir þeim frá, að hún sje búin að trúlofa sig sjálf, í leyfisleysi þeirra.

Að loknum kvöldverði reyndi hann að lesa eitt-

hvað, en hann gat ekki haft hugann við neitt, og hann spanaði sjálfan sig meir' og meira upp. Þegar klukkan sló tíu, þreif hann stafinn sinn, digran eikilurk, sem hann hafði jafnan þegar hann fór út um nætur að vitja sjúkra. Hann glotti við, þegar hann virti fyrir sjer bareflið, og veifaði því ögrandi í hendi sjer. Svo stóð hann snúðugt upp, og lamdi stafnum í reiði sinni á stól, svo fast, að stólbakið gekk í sundur og datt á gólfið. Hann opnaði dyrnar og ætlaði út, en nam staðar í gáttinni. Það datt ofan yfir hann að sjá svo ljómandi, skínandi tunglsljós úti, að slíkt getur sjaldan að líta.

Hann hafði þessa geystu lund, hið sama lundarlag, sem kirkjufeðurnir, þessi skáld og hugarflugsmenn, hljóta að hafa haft, og nú fann hann sjer allt í einu bregða; hann komst við af hinni yfirbragðsmiklu, hreinu fegurð hinnar fölu nætur.

Garðurinn, sem var laugaður í mildu, hvítu ljósi, og ávaxtatrjen, sem voru gróðursett í rjettum röðum, urpu skuggunum af grönnum kvistum og ljettu laufi út yfir trjágöngin, en blómsturfljettan, sem vafðist meðfram múrveggnum, angaði með sterkum, ísætum ilm þessa hlýju, rólegu kvöldstund.

Hann dró andann djúpt og langan, teigaði loptið eins og drukkinn maður vín, gekk hægt og hægt, frá sjer numinn, utan við sig. Það lá við að hann gleymdi systurdóttur sinni.

Þegar hann var kominn út á veginn, nam hann staðar til þess að virða fyrir sjer sljettuna, sem lá flöt undir þessu kjassandi ljósi, sveipuð þessum mjúka, þreyjandi yndisleika, sem er einkenni-

legur við tunglsljósnætur. Froskarnir ljetu heyra til sín í sífellu, eins og þeir kölluðu hinum stuttu, málmgjöllu hljóðum sínum út í loptið; úr fjarska hljómaði söngur næturgalans, þessar raddir, sem vekja drauma og hrinda hugsunum burtu, þessir ljettu, titrandi tónar, sem eru eins og þeir væru ætlaðir til að kveða undir með kossum um draumljúfar tunglsljósnætur.

Presturinn gekk af stað aptur. Honum fjellst hugur, án þess hann gæti gert sjer grein fyrir því. Hann fann allt í einu til svo mikillar þreytu eða magnleysis. Hann hefði helzt viljað setjast niður og láta þarna fyrirberast, sjá og dázt að guðdóminum og hans verki.

Niður frá, með fram bugðunum á ánni, stóðu espitrje í löngum bogalínum. Ofurlítil þoka, hvítleit gufa, sem glitraði eins og silfur fyrir leik tunglsgeislanna, sveif um og yfir árbakkana, og sveipaði vatnið í bugðum þess og beygingum eins og ljettum, gagnsæjum flóka.

Presturinn staðnæmdist aptur, gagntekinn af klökkri tilfinningu, sem allt af fór í vöxt, og hann gat ekki reist rönd við.

Það greip hann efi, einhver reikandi óró. Hann fann, að það var enn að fæðast í honum ein af þeim spurningum, sem hann stundum lagði fyrir sig.

»Hvers vegna hafði guð skapað þetta? Fyrst nóttin er ætluð til svefnsins, meðvitundarleysisins, hvíldarinnar og algleymingsins, til hvers er þá að gera hana fegurri en daginn, mildari en morgunroðann og kveldið? til hvers er þá að láta þessa

hægfara, laðandi stjörnu, sem er skáldlegri en sólin sjálf, rjúfa myrkrið með rólegum bjarma, sem er eins og hann væri ákvarðaður til að bera birtu yfir sálarhræringum og tilfinningum, sem eru allt of viðkvæmar, allt of leyndardómsfullar fyrir hina sterku dagsbirtu? Hvers vegna hvíldist ekki sá söngfugl, sem fegurst syngur allra? hvers vegna tók hann til að kvaka út úr myrkrinu, sem annars gat vakið ótta?

Hvers vegna var þessari hálfblæju varpað út yfir heiminn, hvers vegna var þessi titran í hjartanu, þessi klökkvi í sálinni, þessi holdsins þrá?

Til hvers voru allar þessar laðandi unaðsemdir, sem mennirnir sáu ekki, fyrst þeir sváfu? Hverjum var hún ætluð, þessi háleita sjón? fyrir hvern var þessari gnægðarfylling af skáldskap varpað niður á jörðina?

Presturinn skildi það ekki.

En niður frá, niðri á sljettunni, í ljósþokunni undir limi trjánna, sá hann koma fram karlmann og kvennmann, sem gengu hvort við annars hlið.

Karlmaðurinn, sem var hærri, hjelt um hálsinn á unnustu sinni, og kyssti hana við og við á ennið. Við þau kom allt í einu líf í hið þögula landsvið, sem lukti um þau eins og það væri umgjörð, til búin þeirra vegna. Þau sýndust bæði eins og ein vera, sem þessi rólega, þögula nótt væri ákvörðuð fyrir, og þau stefndu beint til prestsins, eins og lifandi svar, það svar, sem hans guð gaf upp á spurningu hans.

Hann stóð kyr, ringlaður, með hjartslætti, og

hugðist sjá uppmálað atvik úr ritningunni, svo sem ást þeirra Rutar og Bóasar, uppfylling á guðs vilja í einhverjum hinna tignarháu reita, sem um ræðir í hinum helgu bókum, og í höfði hans ómuðu hin ákafaríku vers úr Salómons lofkvæði, allur hinn brennheiti skáldskapur í þessu ástarþrungna kvæði.

»Guð hefir ef til vill skapað þessar nætur til þess að vera andlega hrein blæja yfir ástum mannanna», sagði hann við sjálfan sig.

Og svo hörfaði hann undan fyrir þeim tveimur, sem komu æ nær og nær í innilegum faðmlögum. Það var systurdóttir hans; en nú spurði hann sjálfan sig, hvort *hann* væri ekki guði óhlýðinn. Guð hlýtur að minnsta kosti að hafa leyft ástina, fyrst hann sveipar hana slíkri geisladýrð.

Og hann flýði, frá sjer numinn, næstum bljúgur, eins og hann hefði brotizt inn í helgidóm, þar sem hann hafði ekki rjett til að stíga fæti sínum.

(*Hannes Hafstein* ísl. 14. febr. 1888).

---

# Æfin önnur.

Eptir

Edv. Egeberg.

Jeg var búinn að kveikja og leggja vel í ofninn, stólunum mínum var jeg búinn að ýta fram að skrifborðinu, og settist nú niður, kveikti í beztu pípunni minni og hagræddi mjer þægilega. Jeg heyrði álengdar, að stormurinn dundi úti fyrir í trjánum, tók tökum á húshliðinni og smávældi eins og illfygli, þegar hann þurfti að krækja fyrir húshornið, þeytti möl og lausum smávölum upp í gluggann hjá mjer, um leið og hann fór hjá, eins og ósiðaður, ófyrirleitinn drenghnokki, og þandi sig svo af öllu afli upp eptir brekkunni fyrir handan húsið. Í fám orðum sagt: það var bezta og þægilegasta kvöldveður — fyrir alla þá er inni sátu.

Það var barið að dyrum, og jeg heyrði, að einhver var að rjála við hurðina að utanverðu, til þess að leita að snerlinum. Jeg tók lampann minn og fór fram að hurðinni. Þegar jeg lauk upp, sá jeg fyrst, í birtunni undan grænu augnhlífinni á lampanum, karlmannsfætur, sem voru forkunnaraumlegir á að sjá. Buxnaskálmarnar voru næfurþunnar, og var önnur brotin upp að neðan, en niður úr hinni stóð ræfill af gömlu fjaðrastígvjeli, og var önnur handlykkjan slitin. Á hinum fætinum löfðu skötufaldaðar druslurnar niður úr skálm-

inni og huldu því nær skóinn. Það var gamall reimaskór, gatslitinn, snúinn og þvengjalaus.

Áður en jeg var búinn að átta mig og lypta ljósinu svo hátt, að jeg sæi höfuðið, sem rjeð yfir, og búkinn, sem hvíldi á svo aumlegum undirtyllum, þá heyrði jeg ofan að úr myrkrinu rödd, sem mjer fannst alls eigi vera neitt í ætt við það annað af manninum, sem jeg hafði sjeð.

Röddin sagði:

»Gott kvöld, herra — ja, he — jeg kem nú ekki fyrir mig hvað þjer heitið. Jeg fæst við að stilla hljóðfæri, og mjer var sagt, að þjer ættuð hljóðfæri, sem þyrfti viðgjörðar, og þess vegna var það nú, að jeg ætlaði að gera vart við mig hjá yður».

Þetta var eigi ein af þess kyns röddum, sem opt heyrast í anddyrum og eldhúsum, og þá venjulega biðja um skilding til að kaupa brauð eða þá meðul handa sjer eða sínu sárþjáða skylduliði, en með brauðinu og lyfjunum er þá optast meint brennivín. Það var að vísu ekki laust við, að í röddinni væri dálítill betlirómur; en það var jafnframt í henni eitthvað svo einkennilega prúðmannlegt, að auðheyrt var, að henni mundi opt hafa verið beitt á tignari stöðum en við eldhúsdyr eða anddyraþrepskildi. Mjer fannst óljóslega, eins og hefði jeg einhvern tíma áður heyrt þessa rödd, en gat eigi komið fyrir mig, hvar það var eða hvenær.

»Gjörið þjer svo vel að koma inn fyrir; það er svo kalt hjerna úti — svo getum við talað betur um erindið».

Hann kom inn fyrir og settist niður. Jeg tók

augnhlífina af lampanum, svo að bjartara yrði í herberginu, og sæi betur framan í hann.

Jeg gat samt sem áður ekki komið fyrir mig, hvar jeg hefði sjeð þennan mann áður. Af andlitinu gat jeg ekkert áttað mig. Það var orðið spillt og blóðhlaupið, drættirnir máttlausir og andlitsvöðvarnir slapandi, eins og á drykkjurútum, sem skammt eiga eptir í botninn. Það var samt auðheyrt á röddinni, að þessi maður hafði áður hlotið að vera í prúðra manna tölu, og látbragð hans allt bar þess ljósan vott, að hann hlaut einhvern tíma að hafa verið snyrtimenni. Það mátti af öllu ráða, að hann hefði áður kunnað að bera sig snoturlega, og að það hefði farið honum nett þá; nú stakk þetta látbragð hans eitthvað svo hraparlega í stúf við þetta drykkjurúts-andlit og þessar betlaralurfur, að jeg kenndi í brjósti um manninn. Sjálfur var hann svo langt kominn, að hann alls eigi fann til þessa ósamræmis. Hann hafði kastað sjer á stólinn dálítið borginmannlega, krosslagt fótinn með uppbrettu skálminni yfir um hinn, hallað sjer makindalega upp að stólbakinu, og renndi svo þokusljóum augunum um herbergið hátt og lágt.

»Má jeg ekki bjóða yður að borða með mjer, eða eruð þjer ekki þyrstir», spurði jeg, þegar við vorum búnir að tala um erindið, og hann var búinn að lofa að koma til mín næsta dag.

»Jeg ætlaði mjer nú eiginlega að borða á veitingahúsinu, þar sem jeg gisti, en» —; hann brá upp ofurlítilli grettu, til þess eins og að gefa í skyn,

að hann kynni vel að nota góðan mat —; »maður fær þar ekki verulega gott að borða. Jeg skal þess vegna þiggja boð yðar með þökkum».

Jeg gekk fram til að segja fyrir um kvöldmatinn, og heyrði þá, að hann stóð upp og gekk nokkrum sinnum fram og aptur um gólfið; svo stóð hann kyr, og rjett á eptir heyrði jeg, að hann tók í strenginn á fiðlunni minni; svo heyrði jeg hann ljek á hana, ofur-lágt, dálítinn stúf úr lagi. Það var auðheyrt, að hann gerði það raunar að eins til að reyna fiðluna, en þó var eitthvað það í leiknum, sem rak mig undir eins úr skugga um, að hann kynni fyrirtaks-vel að leika á fiðlu. Það var svo að heyra sem honum líkaði fiðlan vel, því nú tók hann að leika á hana hiklaust hvert lagið eptir annað, allt þýð, en alvarleg sönglög, vafði þau hvert um annað og spann út úr þeim ótal kvíslar og kerfi, þangað til hann eins og allt í einu þeytti þeim frá sjer. Svo byrjaði hann á norsku vikivakalagi, bráðfjörugu.

Þá var eins og jeg vaknaði af draumi. Nú var gátan ráðin, og jeg mundi hver maðurinn var og hvar jeg hafði sjeð hann áður. Það var fyrir nærfellt 20 árum, heima hjá foreldrum mínum; jeg var þá 14—15 ára gamall, en var mjög bráðþroska, og það kvöld, þegar þessi maður gisti hjá foreldrum mínum þá, er eitt hið minnisstæðasta, sem jeg hef lifað. Þá var hann, maðurinn, þarna inni með blóðhlaupna, úttaugaða drykkjurútsandlitið, þá var hann á bezta aldri, hraustlegur og laglegur; svartur á hár og hrokkinhærður. Nú var ekkert eptir af hárinu nema fáeinar sinulitar strífiækjur, sem

stóðu út í loptið eða löfðu niður slikjulega umhverfis stóran hvirfilskalla.

Þessi daufu, þokulegu augu, með brennivínsseppunum allt í kring, voru þá skír og djarfleg; axlirnar, sem núna skúttu fram innan í yfirhöfninni næfurþunnri, eins og vængir á helfrosnum fugli, voru þá beinvaxnar og karlmannlegar. Tíminn og ofdrykkjan höfðu leikið hann hörðum höndum. —

Þegar hann kom til foreldra minna fyrir hjer um bil 20 árum, var hann frægur maður. Hann var þá talinn í fremstu röð meðal ungra listamanna í höfuðstaðnum, og við drengirnir höfðum opt heyrt talað um hann. Þeir höfðu alizt upp saman, faðir minn og hann, og haldið allt af tryggri vináttu, þótt faðir minn væri nokkrum árum eldri. Honum var þá tekið tveim höndum, þessum fræga gesti og vini, þegar hann kom.

Að afloknum kvöldverði sagði faðir minn við hann, hvort þeir ætti eigi að fá að heyra hann leika nokkur lög á fiðlu. Faðir minn stundaði þá list dálítið sjálfur og átti gott hljóðfæri, einmitt það sama, sem hann þarna inni var að leika á. Svo fór hann að blaða í nótnabókum föður míns, og segir svo allt í einu: »Hvað er þetta? Hjer áttu þá »*Gluntarne*«[1]; ættum við ekki að syngja

1) Svo nefnist frægt gamansöngvasafn sænskt, um háskólalífið í Svíþjóð, tvísöngur milli meistara og lærisveins, eptir Gunnar Wennerberg. „Gluntarne“ þýðir „piltungarnir“, þ. e. háskólapiltarnir; stúdentarnir.

nokkur lög úr þeim? Jeg skal syngja »meistarann«, og þjer liggur svo djúpt rómur, að þú getur vel sungið »gluntan«. Þeir byrjuðu svo að syngja þessi fögru, skemmtilegu lög, sem margur hræsnarinn hefir opt svo hörmulega grett sig yfir, en allir, sem tilfinning hafa fyrir sönglögum og tónfegurð, telja hina auðugustu gullnámu skáldlegra og fagurra hugsana.

Það er að vísu ekki öllum gefið, að geta skilið að fullu þennan söngvaflokk. Til þess þarf maður að hafa lifað fjöruga æsku, og hafa sjeð margt og komizt í ýmsar æskuþrautir. En hafi maður það, þá er ekkert það til, sem eins vekur lifandi fornar minningar um æskuástir, um dug, fjör og hugsjónir æskunnar, eins og þessi lög. Mjer hefir opt hitnað um hjartarætur, þegar jeg hef sjeð gamla gráhærða öldunga eins og rjetta úr sjer, sjeð æskufjörið færast aptur í augu þeirra, þegar þeir hafa heyrt þessi lög sungin. Jeg skildi þá eigi »Gluntarne« til fulls, eins og jeg skil þá nú, en jeg skildi þó það, að mesti kjarni þeirra eru tár, heiðin að vísu, en gullfögur tár, grátin yfir því, hve fegurðartími mannlífsins er stuttur. Það er einn kafli, sem jeg man glöggast eptir: »Sólsetrið«; jeg vil ekki segja, að það sje frá söngsins hlið fegursti kaflinn í söngflokknum, en þar kemur glöggast fram hugsunin, sem ræður allri stefnunni og öllum blænum á þessum söngvum.

Meistarinn syngur þar úti í lundinum yfir piltinum sofandi, um bláklukkurnar, blómin, sem hafi hringt hann í svefn, og leiðist af því ósjálfrátt til að hugsa um »aðra klukku«, er muni hljóma þegar

þeir báðir sofni svefninum langa. Þetta eru eins og hægar harmatölur yfir því, að hinn heiðskíri æskuhiminn með hinum björtu skýjabólstrum vonar og glæsilegra hugsjóna muni áður en varir breytast í haustþokumyrkur og hagljel fullorðinsáranna.

Jeg man svo glöggt eptir því, hve snildarlega hann söng þetta atriði af »meistaranum». Það var auðfundið, að hann skildi vel það sem hann söng, og einmitt þessi kaflinn fjekk hvað mest á mig. Þegar þeir voru búnir að syngja, ljek hann nokkur lög á fiðluna, en af því jeg hafði þá ekki eins mikið vit á því, eins og söngnum, fannst mjer eigi eins mikið til um það, þó að hann sjálfsagt hafi leyst það betur af hendi. Jeg mundi að eins eptir þessu norska vikivakalagi; því það var eins og eitthvað í ætt við eða svipað »Gluntarne». Það brá fyrir í því samkynja lífsgleði eins og sumstaðar í þeim.

Við drengirnir litum þá upp til þessa fræga listamanns frá höfuðborginni með dýpri lotning og átrúnaði, en væri hann konungborinn, og hjeldum það sjálfsagt, að innan fárra ára mundi allur hinn menntaði heimur nefna nafn hans með lofi, og að hann mundi talinn konungur íþróttamanna; og þess unnum við honum svo vel, því hann var svo glaðlyndur, fríður og góðmannlegur. Í okkar augum var hann nokkurs konar hálf-goð, og sjálfur taldi hann sjer framtíðarbraut sína vísa þá.

Hann hætti nú að leika á fiðluna; og þegar jeg kom inn, sat hann og dottaði í legubekknum. Þegar jeg ljet aptur hurðina, hrökk hann upp.

»Fyrirgefið þjer», sagði hann, »jeg var víst hálfsofnaður. Jeg hef gengið langt í dag og svo lýist maður. Það er afbragðs-fiðla, sem þjer eigið þarna; jeg var svo djarfur að reyna hana að gamni mínu, meðan þjer voru frammi».

»En leikarinn», sagði jeg, »var þó margfalt betri en hljóðfærið; það heyrði jeg». Hann brosti góðlátlega. »Jú, jeg hef leikið vel á fiðlu; en það er nú úti sú tíðin. Nú snerti jeg nærri því aldrei á hljóðfæri, nema á einstöku stað, þar sem jeg rekst á þau í húsum, þar sem jeg gisti. Jeg hef enga fiðlu sjálfur — ja, það er að segja, jeg á reyndar vandaða ítalska fiðlu heima, en mjer þykir hún of góð til þess, að drasla henni með mjer í þessum ferðalögum».

»Hafið þjer aldrei reynt að komast inn í einhvern söngflokkinn í höfuðstaðnum? Með yðar kunnáttu gætuð þjer víst fengið þar vel launaða stöðu».

»Jú. Jeg var einu sinni í söngflokknum við konunglega leikhúsið, en — —», og svo sagði hann langa raunarollu af því, hvernig hann hefði verið flæmdur þaðan af öfund, illgirni og smásálarskap meðbræðra sinna; og eins hafði gengið víðar annarstaðar. Svo hafði hann ferðazt um og haldið samsöngva, en svo hafði það líka farið út um þúfur.

»Nei, herra minn», sagði hann; »það dugar ekki að tala um það; jeg hef líka langt um frjálsari stöðu, eins og jeg er núna».

Nú var maturinn borinn inn. Hann borðaði lítið, en drakk því meir. Jeg hafði nefnilega gleymt

að banna konunni að bera brennivínsflöskuna inn. Hann fór smámsaman að roðna í framan og verða málhreyfur. Eptir því sem vínið sveif á hann, gleymdi hann meir og meir því eymdarástandi, sem hann nú var sokkinn í. Það var eins og hugur hans færi trylltum hamförum, og loptkastalarnir uxu upp úr honum, hver öðrum gífurlegri. »Jeg ætla nú að fara til Þýzkalands í sumar, og á leiðinni frá Hamborg til München kem jeg við í helztu borgunum, og held þar söngskemmtanir. Þegar jeg er búinn að vinna mjer inn nokkur þúsund, fer jeg að vetri suður í Róm. Jeg á þar marga góðkunningja, listamenn, málara og myndasmiði. Þar ætla jeg að vera að vetri, og þið getið verið viss um, að það verður gaman, því mjer verður tekið þar tveim höndum. Það verður annað en þetta bannsett aumingja....—ja, í rauninni líður mjer ekkert illa; jeg verð reyndar að vinna talsvert til þess að eignast þessa fáu aura, sem jeg þarf á að halda, en það verð jeg að segja» — hann reyndi að rjetta úr sjer, og það brá fyrir fjörglampa í augunum — »að jeg er ekki skapaður til að knjekrjúpa þessum heimsku og hrokafullu presta- og ríkismannadætrum, sem ekkert vit hafa á söng. Í þessu augnabliki finn jeg, að jeg hef í mjer elju og krapta til að byrja nýtt líf. Mjer mun enn takast að afla mjer fjár og frama í veröldinni».

Hann gekk fram og aptur um gólfið og hjelt áfram að reisa loptkastalana hærra og hærra, og var víst búinn að gleyma því, að jeg væri viðstaddur. Þegar liðinn var svo sem hálftími, fór

hann að linast aptur; bakið fór að bogna, hann gekk álútur, augun fóru að síga aptur til hálfs. Áhuginn blossaði samt snöggvast upp aptur, en hjaðnaði þó í sama augnabliki, eins og logi niður í ösku, og loksins hnje hann niður á stól, máttvana, eins og slytti eða belgur, sem gat er stungið á. Svona sat hann með hönd undir kinn nokkrar mínútur; svo stóð hann upp, andlitið var aptur komið í sínar dauðadofafellingar, enn daufara en áður. — »Það er víst orðið framorðið, og jeg verð að vera kominn heim áður en veitingahúsinu er lokað». — Hann stóð kyr og sneri húfunni milli handa sjer.

»Yður vanhagar máske um eitthvað», sagði jeg. Jeg sá, að honum bjó eitthvað niðri fyrir.

»Já. Jeg veit ekki hvort jeg mætti biðja yður um að láta mig fá dálítið fyrirfram upp í það sem jeg á að gera fyrir yður. Jeg hef ekkert haft að gera seinustu dagana, og . . . . — —

Jeg tók upp budduna og fjekk honum peninga. Hann leit til mín hálf-hissa, því jeg hafði fengið honum meira en vinnulaunin hefðu orðið, og sagði: »Þetta er of mikið, það er meira en jeg á að fá hjá yður».

»Þjer megið gjarnan eiga það, og ef þjer verðið í vandræðum, þá komið þjer til mín».

Hann þakkaði fyrir sig kurteislega, og fór svo út í storminn og kuldann.

Næsta dag kom hann eigi á rjettum tíma. Þegar á daginn leið, fór jeg niður á veitingahúsið að vitja um hann. Það var nístingskuldi og norðangola, sem næddi gegnum þykka yfirhöfn, sem jeg var í; það fór um mig hryllingur að hugsa til karls-

ins í þunnu betlaralurfunum úti í þessu veðri, og jeg hvataði sporið.

Jeg fann veitingamanninn, og hann sagði, að maðurinn væri þar; hefði verið lasinn í morgun, þegar stúlkan vakti hann, og hefði víst ekki farið á fætur í dag. »Ojæja, hann er allra-mesti ræfill, hann er víst frá, tuskan sú arna». Jeg bað hann að vísa mjer til hans, og hann vísaði mjer upp brattan handriðslausan stiga, og benti mjer að fara út að gaflinum á loptinu. »En farið þjer nú varlega, herra minn; það er ekki að vita nema það sje kvikt í herberginu; því jeg læt alla umrenninga og flökkuhyski sofa þar».

Jeg gekk eptir endilöngu loptinu. Þar hjengu þvottar á stögum. Loks komst jeg að dyrunum á herberginu. Jeg klappaði á dyrnar, en enginn gegndi; svo lauk jeg upp og fór inn. Fjögrarúðugluggi var á stafninum, en ein rúðan var fokin úr, og var tusku troðið í gatið. Enginn var þar húsbúnaður, nema flet í einu horninu, og var æðiskuggsýnt þar inni. Jeg stóð kyr, til að vita, hvort jeg heyrði hann ekki draga andann, en gat ekkert heyrt fyrir suðunni í vindinum fyrir þakhornið og þytnum í rúðunni, sem troðið var upp í.

»Gott kvöld! Eruð þjer lasinn?».

Steinshljóð.— Jeg gekk að rúmfletinu og laut ofan yfir það. — Höfuðið stóð upp undan tuskunum; augun voru opin og gláptu beint fram, þokudimm og sljó, undan blóðhlaupnum augnalokunum. — Hann var hættur að draga andann. Dauðinn hafði komið hjer og tekið með sjer þessa sál, sem einu sinni hafði verið svo auðug, en skilið eptir úttaug-

aðan, einskis-nýtan líkamsræfil. — Það var engin sæng í rúminu, og ofan á sig hafði hann orðið að breiða larfurnar af sjálfum sjer, og í þessum druslum lá hann allsnakinn. — Jeg strauk hendinni yfir augun á honum, svo þau lukust aptur til fulls. Mjer varð einhvern veginn undarlega innanbrjósts, er jeg dró þannig skýlu fyrir þá glugga, sem þessi sál hafði fengið sína miklu birtu gegnum.

Mjer flaug í huga: Hvaða hugsanir ætli það hafi verið, sem síðast skinu út úr þessum augum? Loptkastaladraumar um frægð og frama — minningar frá fyrra hluta æfi hans —; eða skyldi dauðinn hafa gripið hann hugsunar- og tilfinningarlausan, eins og skynlausa skepnu? Jeg brá larfunum dálítið til hliðar og krosslagði hendur hans á brjóstinu. Hann var svo magur, að mig hryllti við að snerta á honum; það voru eigi annað en sinar og bein.

Nokkrum dögum síðar var honum holað niður í sveitarlima-grafreitinn í kirkjugarðinum; frostkaldur norðanvindur söng útfararsálminn yfir gröf hans.

(Lausleg þýðing. *G. G.*)

# Gullið og bræðurnir tveir.

Eptir

Leo Tolstoj.

---

Einu sinni í fyrndinni voru tveir bræður. Þeir áttu heima á Gyðingalandi, skammt frá Jerúsalem. Hjet annar Athanasíus og hinn Jóhannes; hann var yngri.

Þeir höfðust við uppi á fjalli einu nærri borginni, og lifðu á því sem góðir menn gáfu þeim.

Þeir unnu allan daginn, en ekki samt fyrir sjálfa sig, heldur fyrir fátæka.

Þar sem bræðurnir frjettu til, að einhverjir hefðu meira að gera en þeir gæti risið undir, eða sjúkum var hjúkrunar vant, eða ekkjur og munaðarleysingjar þörfnuðust huggunar og aðstoðar,— þangað skunduðu þeir, og unnu dyggilega, og þágu aldrei neitt fyrir.

Þeir voru sinn í hvorri áttinni alla vikuna, og hittust ekki heima fyr en á laugardagskvöldin. Sunnudaginn einn voru þeir saman heima hjá sjer og báðust fyrir og töluðust við. Og engill drottins stje niður og blessaði þá. Snemma á mánudagsmorguninn hjeldu þeir á stað aptur, sinn í hvora áttina.

Þannig lifðu bræðurnir árum saman, og á hverju laugardagskvöldi stje engill drottins niður til þeirra og blessaði þá.

Þá bar svo við einn mánudag, er þeir bræður skildu og fóru hvor til sinnar iðju og voru komnir lítinn spöl hvor frá öðrum, að Athanasíus varð allt í einu dapur í huga út af því, að skilja við bróður sinn.

Hann nam staðar og litaðist um. Jóhannes gekk áleiðis nokkuð álútur, og leit ekki við. Allt í einu staðnæmdist hann líka, eins og hann hefði komið auga á eitthvað, og einblíndi í þá áttina. Svo gekk hann nær þessu, sem hann hafði rekið augun í, en hrökk jafnskjótt við snögglega, og hljóp sem fætur toguðu ofan eptir hlíðinni, og eins upp í móti hinum megin, og ljetti eigi fyr en hann var kominn langar leiðir þaðan, sem honum hafði orðið svona hastarlega hverft við, eins og hann hefði hitt fyrir óarga dýr.

Athanasíus skildi ekkert í þessu háttalagi bróður síns, og sneri við til þess að hyggja að, hvað það væri, sem hann hefði orðið svona hræddur við. Hann sá þá langt álengdar glampa á eitthvað í sólskininu, og þegar hann kom nær, gat hann að líta, hvar lá gullhrúga mikil í grasinu.

Og Athanasíus furðaði sig enn meira bæði á gullinu og á flótta bróður síns.

— »Hvers vegna var hann svona hræddur? Hvers vegna lagði hann á flótta?» Þannig spurði Athanasíus sjálfan sig. »I gullinu sjálfu felst engin synd; syndin er í manninum, en ekki gullinu. Þó að gullið hafi margt illt af sjer getið, þá hefir það líka gert mikið gott. Hversu mörgum ekkjum og munaðarleysingjum má eigi hjálpa með gullinu! Hversu marga sjúka og volaða má eigi klæða með

því! Við erum að reyna að hjálpa hinum bágstöddu, en hjálp vor nær skammt, af því að við höfum svo litlu úr að miðla. En með þessu gulli gætum við veitt fátækum verulega hjálp, og það til frambúðar».

Þannig hugsaði Athanasíus. Hann ætlaði að segja þetta við Jóhannes bróður sinn; en hann var þá kominn svo langt upp á hálsinn hinum meginn, að hann sýndist ekki stærri en lítil fluga.

Og Athanasíus fór úr ytri fötunum og ljet svo mikið af gulli í þau, sem hann gat borið, snaraði bagganum á herðar sjer og hjelt til bæja. Hann gekk þar inn í veitingahús, bað veitingamanninn fyrir gullið til geymslu, og sneri síðan aptur til að sækja það sem eptir var af því.

Og er hann var búinn að koma öllu gullinu til bæjar, fór að finna kaupmanninn, keypti sjer land, grjót og við, rjeð til sín verkamenn og tók til að reisa þrjú hús.

Og svo dvaldist Athanasíus 3 mánuði í bænum, og reisti þar 3 hús; eitt var heimkynni fyrir ekkjur og munaðarlaus börn; annað var spítali fyrir sjúka og volaða; hið þriðja var hæli fyrir pílagríma og beiningamenn. Og hann tók þrjá gamla og æruverða munka, og fól einum þeirra ekknaheimkynnið, öðrum spítalann og hinum þriðja hælið. Og með því að hann átti enn eptir þrjú þúsund gullpeninga, þá fekk hann munkunum sitt þúsundið hverjum til útbýtingar meðal fátækra.

Og öll húsin þrjú urðu brátt full af fólki, sem lofuðu Athanasíus og þökkuðu honum fyrir það sem hann hafði gjört. Að því geðjaðist honum

svo vel, að hann gat ekki fengið sig til að yfirgefa bæinn aptur. En svo fór hann að hugsa um hann bróður sinn, sem honum þótti svo vænt um; og Athanasíus kvaddi alla og hjelt af stað til síns forna heimkynnis. Ekki hafði hann haldið einum gullpening eptir handa sjálfum sjer, og eins var hann búinn og þegar hann kom til bæjarins.

Þegar hann kom upp á fjallið sitt, hugsaði hann með sjálfum sjer:

»Það var rangt af honum bróður mínum, að flýja burt frá gullhrúgunni; jeg hefi sannarlega breytt betur en hann».

En óðara en þetta flaug í huga hans, sá hann hvar engill stóð á veginum fyrir honum; það var sami engillinn sem vanur var að stíga niður og blessa þá bræður; en hann var nú byrstur í bragði.

Og Athanasíus fölnaði og sagði að eins:

»Hvers vegna, herra?»

Og engillinn hóf upp rödd sína og mælti:

»Gakk hjeðan! Þú ert eigi þess maklegur, að vera saman við bróður þinn; það var meira varið í eitt einasta fótmál hans, er hann flýði, heldur en allt það sem þú hefir gjört með gullinu þínu».

Og Athanasíus tók til að telja upp, hve mörgum fátæklingum og pílagrímum hann hefði veitt dvöl, og hve mörgum munaðarlausum börnum hann hefði veitt hjúkrun og hæli. En engillinn svaraði og sagði:

»Það er djöfullinn, sem hefir lagt gullið í leið fyrir þig, til þess að freista þín, og það er hann, sem blæs þjer nú þessum orðum í brjóst».

Og samvizkan sló Athanasíus, og hann sá, að

það var ekki fyrir guðs sakir gjört, sem hann hafði aðhafzt. Hann grjet sáran og iðraðist.

Þá lofaði engillinn honum að komast áfram leiðar sinnar. Bróðir hans beið hans þar.

Og upp frá þeirri stundu ljet Athanasíus eigi framar freistast af djöflinum og af gullinu hans, og honum skildist það, að með gullinu þjónum vjer ekki guði og meðbræðrum vorum, heldur eingöngu með því, að *vinna* sjálfir guði til þægðar og þeim til líknar og aðstoðar. Og bræðurnir lifðu saman upp frá þessu eins og áður.

(*B. J.*).

# Smávegis.

**Hiti rafmagnsins.** — Rafmagn er nú farið að nota til þess að framleiða hinn mikla hita, er þarf til þess að bræða málma, til að steypa úr málmi og brasa saman málma. Haldi maður málmstöng í rafmögnuðum ljósboga, tekur hún þegar til að bráðna, eins og af einhverjum kynngikrapti; stálið bráðnar á skammri stundu eins og smjör í sólskini. Birtan, sem stendur af þessum rafmagnaða ljósboga, sem hafður er til að bræða málma, er ótrúlega megn. Það er gizkað á, að hún muni vera meiri en af 100,000 meðalljósum.

Maður má vara sig á því feykilega birtumegni. Fimm faðma frá ljósinu kennir maður mikils sársauka af því, eða eins og logandi sviða, en verður þó ekki var við neinn hita; ljósið getur valdið bráðum bana af sólstungu, og það um hánótt.

Þeir sem eru viðstaddir þess konar tilraunir með rafmagnsljós, fá alloptast sviða í hálsinn, ennið eða allt

andlitið; þeir verða eins og eirlitaðir í framan. Á augun tekur það svo, að þeir sjá ekki hót lengi á eptir, þó um hábjartan dag sje. Opt skrælnar hörundið burtu nokkrum dögum á eptir.

Kynlegast er það, að maður getur staðið beint undir ljósinu, sem bræðir stál eins og smjör, án þess að verða var við nokkurn hita af því. Allur hitinn leynist í sjálfum ljósboganum. Opt geta menn fengið sólstungu af þessu ljósi 5—6 faðma frá.

---

**Að ofþreyta heilann.** Þegar heilinn þreytist um of, fer mann að syfja, og er þá mikil heimska að ætla sjer að aflýja heilann með því að fá sjer hressingu, sem kallað er, hvort heldur er kaffi, eða áfengir drykkir, eða aðrar hressingar. Það er eins og að brenna kerti í báða enda. Það má knýja uppgefinn hest áfram með svipuhöggum litla stund, en þróttinn fær hann ekki aptur fyrir það.

Hið bezta ráð við ofþreytu af andlegri áreynslu er að hátta og sofa svo lengi sem maður getur. Svefninn er eina ráðið til að láta heilann jafna sig aptur og öðlast nýjan þrótt og fjör. Heilinn hvílist í svefninum, og þá streymir að honum úr blóðinu uppbót fyrir það sem eyðzt hefir áður af áreynslunni að hugsa. Því hugsunin veldur í raun og veru bruna í heilanum, eins og hver snúningur hjólsins eða skrúfunnar í gufuskipi er afleiðing af bruna, sem sje bruna kolanna undir katlinum í gufuvjelinni. Uppbótin fyrir það, sem eyðist af heilanum, kemur úr næringarefnunum í blóðinu, en þau koma aptur úr fæðunni, sem maðurinn neytir. Til þess eru örvandi drykkir eða örvandi meðul gagnslaus; þau gera ekki annað en að æsa heilann til að eyða sjálfum sjer. Maður, sem er þreyttur af andlegri áreynslu, og er að reyna að halda sjer vakandi með örvandi meðulum, hann fer mjög heimskulega að ráði sínu.

*(B. J.).*

---

# Heilsufræðin nú á tímum.

Eptir

Axel Ulrik,.

lækni í Kaupmannahöfn,

en íslenzkað og aukið hefir *Þorvaldr* prestr *Bjarnarson*[1].

## I.

Þegar vèr tölum um, að einhver sè vel heilsuhraustr, þá er það algengt, að vér segjum, að hann hafi heiðinna manna heilsu; bendir það orðatiltæki á þá algengu og víst mjög gömlu trú, að landsmenn í heiðni, eða fyrst eptir að landið byggðist, hafi verið til mikilla muna heilsubetri en nú, og er alls ekki fortakanda, að svo kunni að hafa verið; að minnsta kosti er í fornum sögum mjög lítið getið um veikindi manna; en þegar fram eptir öldunum kemr, sjáum vér, að Íslendingar hafa eigi farið varhluta af öllum þorra hinna algengustu sjúkdóma, og hafa sumir þeirra orðið afarmannskæðir hér á landi, sem ekki er heldr að furða, þar sem heita má, að hér hafi aldrei læknar verið fyrr en á síðastliðinni öld, svo að hver sem veikr varð þurfti ekki að búast við neinni meinabót fyrir mannlega viðburði, enda heyrum vér þess allvíða getið, að helztu úrræðin til líknar slíkum eru þau, að gjöra áheit á helga menn, kirkjur eða klaustur; það er nú vitaskuld, að opt varð dýrlingrinn, kirkjan eða klaustrið við áheitinu;

1) Sbr. „Heilsufræðin fyr á tímum“, bls. 82—111.

um það höfum vjer nægar sögur; en það er ekki fjarri sanni, að geta þess, að hitt hafi ósjaldan komið fyrir, að áheitin hafi ekki stoðað, þótt þess sè eigi getið. Víst er um það, að ekki stoðuðu nein áheit til þess að afstýra mannspellum þeim og usla, er svarti dauði gjörði hér á landi; þótt hann kæmi hingað hér um bil 50 árum síðar en hann hafði gengið í öðrum löndum Norðrálfunnar, þá varð hann hér engu ómannskæðari en annarsstaðar hafði verið, og ekki fékk strjálbyggð landsins varnað því, að hann næði að geysast um allt landið. Eins var það um bólusóttirnar; þegar þær náðu að komast hingað til lands, þá urðu þær hér engu miðr mannskæðar en annarstaðar. Holdsveiki var hér æði algeng lengi fram eptir; en að því leyti sömdu Íslendingar sig að annara þjóða háttum, að þeir komu upp nokkrum spítölum fyrir vesalinga þá, er yfirkomnir voru af þeim voðalega sjúkdómi, þótt þeir auðvitað væri ekki nærri nógir til þess að veita þeim öllum viðtöku; má heita, að þetta eitt væri sú eina ráðstöfun, er gjörð var til almennra heilsuvarna hér á landi allt fram á 18. öld.

Eptir miðja 18. öld var skipaðr héraðslæknir hér á landi, og honum skömmu síðar falið á hendr að veita tilsögn í læknisfræði læknaefnum; og áðr en öldin væri liðin, voru hér skipaðir fjórðungslæknar. Seint á öldinni kom út ávísun um bólusetningu, en aldrei komst hún á hér á landi; margt gjörðu þeir læknarnir Jón Pétursson og Sveinn Pálsson til þess að fræða menn um meginsetningar heilsufræðinnar; eru í ritgjörð Sveins um

orsakir til sjúkdóma á Íslandi skýr rök leidd að því, að ill húsakynni, óhollt neyzluvatn, og óþrifnaðr utan bæjar og innan ætti góðan þátt í því, að kveikja sjúkdóma, auk óholls og ónógs viðrværis og óhentugs fatnaðar, og hefir allt þetta verið svo þrábrýnt fyrir almenningi, að ætla mætti, að menn væri nú nokkuð farnir að taka sér fram í þessum efnum, sem svo mjög varða heilsu og líf, og er varla fyrir það að synja, að talsvert margt hefir lagfærzt í þessu, ekki sízt á síðasta mannsaldri, einkum þó að því er snertir húsakynni, að nú eru þau orðin til mikilla muna rúmlegri, þokkalegri og loptbetri en áðr var; aptr er sorglegt til þess að vita, hvað fátítt það er að menn hafi fengizt til þess að taka upp aptr þann sið, að laugast; hér á landi, þar sem svo víða eru hverir, ætti það víða að vera mjög kostnaðarlaust að taka heitt bað; umhverfis allt landið er hinn hreinasti og tærasti sjór, og er hörmung til þess að vita, að varla verðr nokkrum að vegi að laugast í honum; mætti þó með vissu ætla upp á það, að mun færri mundu verða mannalátin við skiptapa eða í vatnsföllum, ef menn, jafnframt því að baða sig í sjó lærðu sund, sem var svo algeng íþrótt áðr, og varla er það að óttast, að mönnum mundi verða stórum lungnabólgu- eða kvefhættara, þó menn gjörðu hóti meira að því en gjört er, að skola öðru hvoru af skrokknum í köldu, hvort það væri nú heldr í sjó eða sætu vatni.

Kúabólusetning var lögboðin hér í upphafi þessarar aldar, og var vandlega fylgt því heilsusamlega

boði lengi vel fram eptir; en nú hin síðari ár er eins og hafi dregið úr áhuga manna á því að hafa við þessa nauðsynlegu varúð, og væri illt til þess að vita, ef menn fyrir vangeymslu á því gæti leitt yfir sig og sína einhverja hina skæðustu plágu. Á þessari öld hefir stórum sorfið að holdsveikinni, svo að það má heita, að hún sé alveg horfin úr sumum bygðarlögum bessa lands, og er það sjálfsagt mikið að þakka því, að nú er fyrir aukna garðyrkju og talsverðar framfarir í þrifnaði viðurværi allt og aðbúnaðr orðinn talsvert skárri en áðr; hafa læknar vorir, hvorir fram af öðrum, átt góðan hlut að því, að þetta mætti verða, með hugvekjum sínum og leiðbeiningum við menn um lifnaðarháttu, fremr en fyrir beinar lækningatilraunir. Af almennum ráðstöfunum til þess að efla almenningsheilsu má þá telja heillavænlegasta á þessari öld, að læknaskóli var stofnaðr hér á landi, og sjúkrahúsi komið upp í Reykjavík samhliða honum; áttu þeir Jón Guðmundsson, Jón Sigurðsson og Jón Hjaltalín beztan þátt í því að það á vannst, að læknaskólanum var komið á stofn, en Dr. med. Jónasi Jónassen fremstum manna mun það að þakka, að sjúkrahúsið komst á. Það hlýtr og að teljast sómi alþingis, að það hefir svo örlátlega, sem föng hafa fremst verið á, veitt fé til þess að launa héraðslæknum í svo mörgum læknaumdæmum, að nú er þó ekki hægt að segja, að neitt stórhérað sé alveg læknislaust; aptr mun óvíða vera til þess að taka, að ljúka þurfi sérlegu lofsorði á sveitastjórnir eða bæjastjórnir fyrir þær ráðstafanir, er þær hafi gert til þess að hlynna að því að tryggja heilsu almenn-

ings. Lítinn sóma gat höfuðborg landsins haft af því, er um þrifnað ræddi, er við sjálft lá, að borgarastríð yrði, og varð í raun rjettri, þar sem til hrifsinga kom milli tveggja hinna merkustu burgeisa bæjarins út af því, að annar lét bera fjóshauginn sinn rétt fram undir flæðarmál fast við stakkstæðin hins, sem var einhver mesti saltfiskskaupmaðr, þeirra er þá voru í Reykjavík (milli 1852 og 1856), og kunni illa við nágrenni það við hauginn, því nóg var þá að öllum jafnaði af fúnu og þefleiðu þarabrúki fyrir öllum Reykjavíkrsandi. Varla mundi það og nokkursstaðar annarsstaðar en á Akreyri hafa verið talið bæjarbót, að hafa grútarbræðsluskála hákarlaútvegsmannanna þar á norðrjaðri bæjarins, svo leiðis, að þegar á norðan andaði, þá lagði svælluna um endilangan bæinn, svo ramma, að þeir, sem slíku voru óvanir, þoldu varla við, og geta má nærri, að slíkt muni varla geta verið heilsubót; en vera má, að nú sé búið að færa um set grútarbræðsluskálana þar, á líkan hátt og nú er horfinn andstyggðarhneixlishaugrinn, er forðum bauð gestum í Reykjavíkrfjöru. En hvað sem öllu þessu og því um líku líðr, þá er þó sá rekspölr kominn á, að vonandi er að menn hér eptir geri sér meira far um það en áðr, að varðveita með öllu móti þá blessun, er menn hafa dýrmætasta af guði þegið allra stundlegra gæða, sem er góð heilsa.

## II.

Nálægt síðastliðnum aldamótum var sú uppgötvun gjörð, er mest hafði orðið þangað að í læknisfræði og heilsufræði. — Það var þegar Jenner uppgötvaði

kúabólusetninguna. Eðvarð Jenner var enskur læknir; í 20 ár hafði hann veitt því eptirtekt, að það var satt, sem mjaltakonurnar í grennd við hann þóttust hafa reynt, sem var það, að þegar kúabóla gengi, og bólan af kýrjúgrunum flyttist á hendr mjaltakvennanna við mjaltirnar, svo að mjaltakonurnar fengju útbrot á höndunum, áþekk bólunni á kýrjúgrunum, þá mætti ganga að því vísu, að þeim væri úr því óhætt fyrir bólunni. Þegar Jenner þóttist hafa fengið fulla vissu fyrir þessu, þá sá hann, að þetta var næsta þýðingarmikið. Það sem hann þessu næst gjörði var að reyna það, hvort það að setja kúabólu úr einum manni í annan verði þann, sem þannig væri kúabólusettr, fyrir bóliunni. Þessa tilraun gjörði hann á syni sínum fyrstum manna, og síðan á fjölda mörgum öðrum, og þóttist hann við þær tilraunir fá fulla vissu fyrir því, að kúabólan, þannig sett, verði fyrir bólunni, og gaf hann því 1798 út bækling sinn um kúabólusetninguna. Rit þetta vakti hvervetna hina mestu eptirtekt; og árið eptir var búið að stofna í Lundúnaborg kúabólusetningarhús. Ekki leið heldr á löngu, að önnur lönd færði sér í nyt þessa blessunarríku uppgötvun. Áðr en 3 ár væri liðin var búið að koma á kúbólusetningu í öllum löndum norðrálfunnar; í Danmörk komst hún á 1801; og þegar Jenner dó, 1823, var bólusetning komin á um allan heim.

Við kúabólusetninguna urðu þegar furðanlega snögg umskipti á bólusóttunum. Í mörgum löndum gjörtók fyrir þær allt í einu; þannig liðu svo fjöldamörg ár, að alls ekki varð vart við bólu í

Danmörku, og þegar bólan aptr gjörði vart við sig, var hún langt um vægari en fyrr hafði verið. Bólan reyndist nú hvergi jafnskæð og fyrr hafði verið, nema þar sem hún hitti fyrir menn, sem aldrei hafði verið sett kúabóla. Það leiddist að vísu í ljós, að menn ekki máttu væntast þess, er menn fyrst höfðu gjört, að kúabólusetningin mundi að fullu fá byggt út bólunni, en hins vegar fengu menn fulla sönnun fyrir því, að kúabólusetningin er svo gott varnarmeðal við bólunni, að hún þarf ekki framar að teljast neinn vogestr.

Norðrálfan var þannig í upphafi þessarar aldar orðin laus við tvær geigvænlegustu drepsóttirnar, kýlasóttina og bóluna, og hefði af því mátt ætla, að öll skilyrði væri fengin fyrir því, að upp mætti vaxa hraust og heilsugóð kynslóð. En það kynndist brátt, að nýja öldin bjó yfir nýjum voða. Hinar óaflátanlegu styrjaldir Napóleons sviptu lífi ógrynni manna á bezta skeiði — Rússlandsherferðin ein fór með nærfellt ½ miljón — og þetta dró svo úr þrótti þjóðanna, að á sá. Aðrar hættur stöfuðu af háttabreytni þeirri, er varð í félagsskipun manna. Það að menn komust upp á það að nota vinnukrapt gufuvélarinnar til iðnaðar, lét öllum iðnaði fleygja fram stórkostlega, en við þetta uxu stórborgirnar fram úr öllu hófi, einkum fyrir það, að sífellt fjölgaði verkmannaliði því, er að borgunum sótti. Upp af hverri borg gnæfðu nú verksmiðjureykháfarnir, lopt, jörð og vatn saurgaðist af hroðanum frá verksmiðjunum, og við sjálft lá, að menn misstu sólarljóssins vegna kolasvælunnar. Sumstaðar í iðnaðarborgunum var ekki hægt að

tala um neitt heimilislíf, þar sem karlar, konur og börn gátu fengið vinnu á verksmiðjunni, eins og sumstaðar á Englandi. En með hinum sívaxandi fólksfjölda óx einnig örbirgðin í stórborgunum, en henni fylgdu aptr sjúkdómar og bágindi.

Þetta kom einna glöggvast í ljós, þegar kóleran komst til Norðrálfunnar. Árið 1830 var það, að þessi ófagnaðargestr í fyrsta sinn kom til vorrar heimsálfu. Hún kom frá Indlandi; þar er ættland hennar, og þangað að hafði ekki neitt borið á því, að hún vildi breiðast þaðan út. En nú hafði hún flutzt með hirðingjasveitum norðr undir Kaspíhaf, komst inn yfir landamæri Rússlands, rakti sig eptir öllum aðalþjóðbrautunum vestr eptir Norðrálfunni, tók sér stundardvalir í stórborgunum, gerði sig þar heimakomna, en þó hvergi jafnmjög og í fátæklegustu hverfunum, enda týndi þeirra lið ótæpt tölunni. Að vetrinum var hún vön að hörfa undan lengra suðr á bóginn og beið svo vorsins til þess, þegar sumraði, að taka aptr til óspilltra málanna. Það hefir komið fyrir, að kóleran hefir alveg horfið úr þessari heimsálfu — meira að segja ekki neinstaðar gert vart við sig í 10 ár samfleytt— en hún hefir komið aptr, og þá stundum allt aðra leið. Þannig hefir hún komizt til Norðrálfunnar sjóveg, en ekki landveg, eins og hið fyrsta sinn. Þá barst hún fyrst til Mekka í Arabíu með pílagrímum Múhameðstrúar frá Indlandi, frá Mekka barst hún svo til Egiptalands, en frá Egiptalandi til Norðrálfunnar, sem við mátti búast, þar sem verzlunarsamgöngur eru jafntíðar á milli. Árið 1832 komst hún yfir Atlantshaf og geysaði um

Norðr-Ameríku. Í Danmörku hefir hún ekki gjört sérlega mikinn usla, og er það víst mest því að þakka, að landið liggr norðarlega. Þó varð hún allmannskæð árið 1853, því þá varð hún 5000 manna að bana í Kaupmannahöfn einni. Alls hefir hún komið 4 sinnum til Danmerkur: 1850, 1853, 1857, 1859.

Það leið löng stund áðr en menn almennt yrði á eitt sáttir um það, hvað gjöra skyldi til að stemma stigu fyrir þessum vogesti, er öllum stóð stuggr af. Enn sem fyr vonuðustu menn eptir því, að sóttvarnir og samgöngubönn mundu reynast affarabezt, eins og reynzt hafði til varnar móti kýlasóttinni. En nú er öldin orðin önnur; nú eru samgöngur landa á milli orðnar svo afartíðar, að varla er hægt að stemma stigu fyrir neinni drepsótt með samgöngubönnum. Atvinna og hagsæld allt of margra manna er undir því komin, að verzlun, viðskipti og samgöngur gangi sem liðugast, til þess að nokkur geti látið sér það til hugar koma, að banna samgöngur við önnur lönd, og þröngva mönnum til að hlýðnast slíku banni. Það varð því að haga sóttvörnunum eptir háttum vorra daga, en fyrir það reyndust þær miðr tryggilegar. Menn hlutu því að leita annara ráða. Skozku prestunum hugkvæmdist það, að fyrirskipa almenna föstu, þegar kóleran fór að nálgast Skotland; en þeir hættu við það, þegar Palmerston lávarðr í skopi lagði það til við þá, að fyrirskipa almennt hreinlæti. Það er ekki víst, hvort Palmerston hefir vitað, hve nærri sanni ráðlegging hans var; en sú hálfa öldin, sem liðin er síðan hann gaf ráðið, hefir

í öllum greinum viljað fylgja því sem hinni beztu heilsuvörn.

Hvergi hefir jafnmikið verið aðgjört til þess að verja heilsu manna sem á Englandi; en í hinum miklu iðnaðarborgum Englands var einnig þörfin á umbótum meiri en í nokkuru öðru landi. Annars vegar studdi og að því hin frjálslega stjórnarskipun Englands, að annmarkar þeir, er á ýmsu fyrirkomulagi voru, ekki væri lengi látnir liggja í láginni, en þá er fyrst hægt að gjöra umbætur, þegar menn þekkja það sem ábótavant er. Fyrst voru skipaðar skýrslur um öll mannalát, og hvað orðið hefði dauðameinið. Síðan voru skipaðar nefndir, sem áttu að rannsaka það, hvað því kynni að valda, að manndauði væri venju fremr mikill í þessum eða þessum hrepp eða þá borgarhverfi. Þegar skýrslur voru komnar frá nefndum þessum, var ekki linnt látum fyrr en almenningi voru orðnar kunnar niðrstöðurnar á því, er nefndir þessar þóttust hafa komizt að; hjálpaðist jafnt að því þingið og blöð og tímarit og félög einstakra manna. Og því næst var ráðizt í þau stórvirki til almennra heilsubóta, sem ekki hvað sízt einkenna framfarabrag Englendinga þenna síðasta mannsaldr. Nú var það tekið fyrir, að gjörræsa stórborgirnar; ræsi voru gjörð um þær allar til þess að veita burt öllum óhreinindum, en jafnframt um það séð, að að þeim væri veitt nógu af heilnæmu vatni; nú var og kappsamlega farið að vinna að því, að koma upp viðunandi húsakynnum fyrir snauða menn; ráðstafanir gerðar til þess að mýgja sóttkveikjuefnum, þegar landfarsóttir gengi; nú var farið að

hafa eptirlit á sölu á matföngum, slátrhúsum komið upp sem voru undir umsjá yfirvalda, eptirlit haft á verksmiðjuvinnu í þeim iðnaðargreinum, er þóttu spilla heilsunni, og lög samin til þess að stytta vinnutímann, og sem bönnuðu að hafa börn á mjög ungum aldri við verksmiðjuvinnu. Á þennan hátt hafa Englendingar kippt mjög mörgu í lag hjá sér; en mikið vantar á, að hægt hafi orðið að bæta úr því, er að hefir kallað, því það fer sívaxanda. En allt um það hafa Englendingar svo margt reynt og tekið sér fram um svo margt, að allar aðrar þjóðir mega í þessum efnum taka sér þá til fyrirmyndar. En næst Englendingum eru það Frakkar, er þjóða mest hafa látið sér annt um þær framkvæmdir, er horfa mætti til almennra heilsubóta. Svo drjúgmælt varð Frökkum um jafnrjetti manna í stjórnarbyltingunni miklu, og svo vel rómaðist sú kenning meðal þeirra, er lítinn eða engan rétt höfðu haft áðr, að það þarf ekki að telja það neina furðu, þótt þeir manna fyrst aðhylltust þá skoðun, að allir hefði jafnan rétt til þess að njóta góðs af framförum menntunarinnar. Hér urðu Þjóðverjar nokkuð seinni á sér. En þó hafa þeir að dæmi Englendinga með kappi og forsjá unnið að því, að efla heilsu almennings. Aptr á móti er varla neitt unnið í þá átt á Rússlandi, enda er þar ekki við góðu að búast, þar sem læknafæð er svo mikil, að í sumum byggðarlögum er varla einn læknir á 60,000 manns.

Vonir þær, er menn gjörðu sér um góðan árangr af umbótum þessum, hafa ekki brugðizt. Víðsvegar á Englandi hefir sú orðið raunin á, að

fækkað hefir mannalátum í borgunum, já meira að segja opt brugðið svo við, að þetta hefir orðið óðara frá því ári, sem borgin fekk hollara neyzluvatn, eða fekk lokið við ræsagjörð sína. En jafnframt þessu heimta menn, að æ sé unnið meira og meira að því að vernda heilsuna, sem eðlilegt er, því betr sem menn láta sér það skiljast, að það megi allopt takast, að sporna við sjúkdómum með skynsamlegum viðrbúnaði.

Það er þannig óefað mál, að meðal flestra þjóða eru almennar ráðstafanir gjörðar til þess að verja heilsuna, og að þær árlega verða afkastameiri og fjölbreyttari; en hitt er ekki síður víst, að menn ár af ári komast lengra og lengra í ýmsum rannsóknum, sem allbúið er, er stundir líða, að orðið geti til þess, að gjöra fleiri og fleiri af hinum næmu og skæðu sjúkdómum miðr geigvænlega. Því betr sem menn sannfærðust um það, að sóttnæmi væri svo undirkomin, að eitthvert sóttkveikjuefni utan að næði að læsa sig í líkamanum, því vonbetri urðu menn um það, að það kynni að auðnast að komast fyrir, hvers háttar þessi enn ókunni flytjandi og æxlandi sjúkdómanna væri. Menn höfðu von um, að sjónaukinn kynni að opna augu manna, og með sjónaukanum var nú leitað í blóði, innýflum, saurindum og þvagi manna og dýra. Fyrsta sóttkveikjuögnin, sem fannst, var sóttkveikjuögn miltisbrunans, og var það árið 1850. Sá sjúkdómr er afar skæðr á öllum fénaði (sauðfé, nautgripum og hrossum) og veldr stórkostlegu fjártjóni í mörgum löndum, en það er varla nema fyrir slys, að menn fá hann. Í blóði dýra, sem miltisbruna

fengu, fundust einkennilegar teinmyndaðar agnir; en það varð ekki fyrr en nokkru síðar, að mönnum varð það ljóst, hversu miklu agnir þessar fengi orkað, þar sem það sannaðist, að hægt er að hleypa miltisbruna í skepnu, sem heilbrigð er, með því að koma teinögn þessari (bakteríu) inn undir skinnið á skepnunni (svo að til blóðs nái). Árin nú að undanförnu hefir ekki á öðru gengið en að finna nýjar og nýjar sóttkveikjuagnir ýmsra næmra sjúkdóma. Nú er það talið hér um bil víst, að hver næmr sjúkdómr hafi sína sérstöku sóttkveikjuögn. Þannig hafa menn getað sýnt sóttkveikjuagnir heimakomu, tyfussóttar, kóleru, tæringu og fleiri sjúkdóma, og það hefir reynzt, að með því að koma sóttkveikjuögninni inn í aðra skepnu (ɔ: skepnu annarar tegundar) hefir mátt koma sjúkdómnum í hana.

Það er vitaskuld, að það er ekki sjálfsagt, að hægt sé að yfirstíga sjúkdóminn, ef maðr veit undirrót hans. Það væri því rangt að gjöra sér að svo komnu allt of miklar vonir um, að heilsufræðin græði afarmikið á þessu, sem menn á síðustu árum hafa fengið að vita um sóttkveikjuagnirnar. Þó er ekki því að leyna, að í einstöku greinum er þegar afarmikið áunnið.

Þess var áðr getið, að um miðja þessa öld fannst lífögn sú, er kveikir miltisbrunann, og að með því að koma þessari sóttkveikjuögn inn í heilbrigt dýr mætti láta það dýr sýkjast. Nú hefir frakkneskr náttúrufræðingr, er Pasteur heitir, uppgötvað það, að svo megi fara með þessar kveikjuagnir miltisbrunans, að mjög svo dragi úr skaðsemdarkrapti

þeirra, og að með því að setja þær skepnum svo undbúnar, þá kveiki þær ekki hinn banvæna miltisbruna, heldr mjög vægan kvilla, en sem þó fær því áorkað, að skepnunni verðr nú ekki framar hætt við því að fá miltisbruna, á líkan hátt og þeim er eigi hætt við að fá bóluna, sem kúabólusettir hafa verið. Þessa aðferð hafa menn því tekið upp, að setja skepnum miltisbruna, í löndum þar sem miltisbruni er tíðr sjúkdómr og skæðr, og hefir það vel gefizt.

Annað dæmi þess, hvað þessi þekking á sóttkveikjuögnum getr verið mikilsverð, er þetta:

Allir vita, hvað lungnatæringin er skæðr sjúkdómr; það telst svo til, að rúmlega 7. hver maðr muni deyja úr tæringu. Um hina sönnu undirrót tæringarinnar hafa menn hingað að ekkert vitað með vissu, þótt menn hafi þekkt margvíslegar orsakir, svo sem það, að anda að sér vondu lopti, hafa oflítið og óhollt viðrværi, er mjög svo styddu að því að sjúkdómr sá næði að þróast og elna. En fyrir fám árum sýndi þjóðverskr læknir, er Koch heitir, fram á það, að í líffærum þeim, er tæringin slægi sér á, fyndist sérstök sóttkveikjuögn, og að hægt væri að kveikja tæringu hjá dýrum með því að setja þeim þessa lífögn. Það má nú þykja miklu skipta, að hafa komizt að raun um, að þessi skæði sjúkdómr getr verið þannig undir kominn. Því við það hlaut það að verða auðsætt, að mögulegleiki er fyrir því, að tæringin geti fluzt sem hver annar næmr sjúkdómr úr einum brjóstveikum manni í annan. Auk þess hlutu menn við það að fara að gefa gaum að því, að lungnatær-

ingin er kvilli, sem ýms af húsdýrum vorum hafa engu síðr en maðrinn, og er það einkum kýrin, sem opt sýkist af honum. Nú er mjög um það rætt, hvort mjólk úr sollnum kúm muni ekki geta valdið tæringu hjá mönnum þeim, er hennar neyta. Það er ekki svo hægt að ganga úr skugga um þetta með tilraunum; því óhæfa er að reyna þetta á mönnum. En það má telja mikið unnið við það eitt, að menn nú vita sér þar geigs von, sem menn voru öruggir áðr. Þess má með vissu vænast, að óðara en menn eru gengnir úr skugga um undirrót og orsakir tæringarinnar, þá muni öllum ráðum beitt til þess, að sporna við þessu voðameini mannkynsins, eða, ef hægt væri, að vinna á því að fullu.

Á enga grein læknisfræðinnar hefir hin aukna þekking á lífsögnunum haft jafnmikil áhrif og á græðslufræðina; það má heita að hún sé nú orðin allt önnur; og er það ekki neinn smáræðis hagnaðr fyrir heilsufræðina. Smámsaman opnuðust augu lækna svo, að þeir sáu, að þegar það mistókst að græða sár, eða þegar aðgjörðir sáralæknisins urðu orsök í drepvænni sárasótt, sem áðr var algengt banamein á sjúkrahúsum, þá var ekki öðru um að kenna en því, að lífagnir höfðu náð að læsa sig í sárið. Sbr. Alman. Þv.f. 14. ár bls. 37—44. Og upp frá því að menn komust að raun um þetta, hefir alls verið við leitað til þess að byggja lífögnunum út frá sárum. Allar umbúðir voru lagðar svo á, að lífagnir næði eigi að komast að sárunum; læknarnir þvoðu hendur sínar og áhöld úr einhverju því, er drepið gæti lífagnirnar, o. s. frv. Árangrinn af öllu þessu hefir verið hinn æskilegasti, svo að

hin illkynjaða sárasótt er að heita má alveg horfin úr sjúkrahúsunum.

Síðustu 15 árin hefir öll sáragræðsla mestmegnis gengið út á það, að verja því að aðrir kvillar slægju sér að.

Nú á dögum eru allar stórborgir í flestum löndum gjörræstar, þannig að burt má veita öllum óhreinindum, frá húsum og verksmiðjum, og hverjum öðrum óþverra er til kann að falla. En skilyrðið fyrir því að þetta megi takast, er það, að halli fáist nógr á ræsin, og að nógr sé vatnskostr; úr hverju húsi fyrir sig liggr renna, sem kalla má húsræsið, út í stærra ræsi, sem liggr eptir miðju strætinu; þessi húsræsi eru að öllum jafnaði pípur úr brenndum leiri; strætaræsin geta einnig næst upptökunum verið stærri leirpípur, en þegar þau taka að lengjast eru þau að jafnaði hlaðin úr tígulsteinum og eru þá sporöskjulöguð að þvermáli, og fara sívíkkandi eptir því sem þau lengjast — og verða 2, 3, 4 fet að þvermáli og þaðan af stærri. Þegar nú mörg slík ræsi koma saman — og þetta hlýtr mjög víða að koma fyrir í stórborgunum,— þá verða úr þeim undirgöng æði breið og há; þannig eru meginræsin í París svo stór, að fara má eptir þeim á smám bátum, og þó eru beggja vegna við þau mjó göng fyrir menn þá, er skipaðir eru til þess að ræsta fram ræsi þessi. Það er auðvitað mál, að ræsin í stórborgunum hljóta að vera aftaka löng. Þó tekr út yfir um lengdina á ræsunum í Lundúnaborg, sem og við má búast um aðra eins stórborg, þar sem fólksfjöldi er orðinn rúmar 4 miljónir, og ekki að því

skapi þéttbyggð sem hún er fólksmörg. Það eru nú rúm 10 ár síðan ræsin í Lundúnaborg voru samtals orðin full 1400 mílur, og síðan hefir á ári hverju talsvert bætzt við.

Um þessi ræsi er öllum hroða og saurindum veitt frá húsunum út í meginræsin, og eptir þeim til fleiri eða færri stöðva utanborgar. Þar sem borgirnar eru ekki því stærri, þar er þetta sjaldnast miklum erfiðleikum bundið. En við stærstu borgirnar þarf mikið fyrir að hafa til þess að koma sem lengst frá borgunum þessu aftakaflóði af ræsaskólpi, sem annars mundi eitra loptið og síast út í jarðveginn og gjöra hann óvistlegan. Þótt borgin liggi við á, sem rennr gegnum borgina, þá gefst það jafnaðarlegast illa, að láta ræsa-ósana liggja út í ána, einkum þegar vatnið úr ánni er að einhverju leyti haft til neyzluvatns. Fyrir árið 1875 var ræsaskólpinu úr Lundúnaborg veitt eptir 60 meginræsum út í Tempsá, þar sem hún rennr um borgina, og varð hið fríða og tæra fljót við það á litinn eins og sum jökulvötn hér í stórflóðum, og fýlan úr henni engu betri en versta jökulfýla, eins og geta má nærri, þar sem svo telst til, að hér um bil 11 miljónir teningsfeta af ræsaskólpi rann þá á hverjum sólarhring út í ána; en 1875 var búið að ljúka við ræsi, sem voru margar mílur á lengd, og sem veittu öllu ræsaskólpinu svo langt út fyrir borgina, að því er ekki hleypt út í ána fyrr en þar sem straumfall er svo mikið, að allt þvættist von bráðara í sundr.

Þess var áðr getið, að slík ræsagjörð hefði tíðkazt

hjá Rómverjum í fornöld; en af þeim hafa menn ekki síðr mátt læra það, hvernig haganlegast mætti veita vatni að borgum. Þeir sáu fyrir nægum vatnsbyrgðum í borgum sínum, og horfðu ekki í kostnaðinn að veita því langar leiðir, svo mörgum mílum skipti, í veitustokkum, sem víða hvar, þar sem á því þurfti að halda, var svo fyrir komið, að undir veitustokkana voru hlaðnir háir steinbogar, því líkast sem þá er brýr eru gjörðar. Stundum réðust þeir í það, að gjöra göng undir hæðir og hálsa fyrir veitustokkana til þess að taka af sér króka. Sjást enn margar menjar þeirra stórvirkja, og svo traustlega hefir verið frá öllu gengið, að enn eru á stöku stað vatnsveitustokkar alveg óhaggaðir. Má til dæmis taka vatnsveitustokkana hjá Segovíu á Spáni; þeir voru gerðir á stjórnarárum Trajans keisara; undir þá eru hlaðnir 177 steinbogar, og er allt gjört úr vel tiltelgdu forngrýti, og hefir hleðslan hvergi verið styrkt með múrlími, en svo vandlega hefir verið frá öllu gengið, að varla hefir nokkr steinn gengið úr skorðum, og hvergi leka stokkarnir deigum dropa, og eru þó næfellt 1800 ár síðan lokið var við þessa traustu smíð. Þar sem steinbogarnir undir veitustokkunum eru hæstir, eru þeir 104 feta háir. Svo miklu vatni er á þennan hátt veitt að borginni, að nægja mundi 100,000 manns.

Í grenndinni við Rómaborg má sjá nægar menjar þessara stórvirkja Rómverja hinna fornu, en það er nú meira og minna í rústum.

Til þess að menn geti gjört sér nokkura hugmynd um, að það er ekki neitt smáræði af vatni,

er þarf handa stórri fjölmennri borg, er þess getandi, að auk brunnvatns þess, sem notað er í Kaupmannahöfn, sem ekki er svo lítið, er að borginni veitt svo miklu vatni, að full hálf tunna af vatni kemr í hvers manns hlut á hverjum sólarhring; en í mörgum iðnaðarborgum kemr miklu meira vatn á mann hvern; má af því ráða, að þar sem svo til hagar, að öllu vatni þarf að veita að fjölmennri stórborg, þá er lítil sitra ónóg. Og sem dæmi þess, að einnig nú á öld er ekki horft í kostnað til þess að afla stórborgunum nægs og góðs vatnskosts, þá er heilli á, er Krótoná heitir, veitt nokkuð á 12. mílu til Nýju-Jórvíkur í Bandaríkjunum. Fyrst þar sem áin er tekin út úr farveg sínum er á samfelldri mílu há bryggja hlaðin undir veitustokkana; þar á eptir á 10 mílna bili verða á þessari nýju leið árinnar margir hálsar, hæðir og dældir; eru 16 jarðgöng gjör gegnum hálsana, og er lengd þeirra samtals 6422 fet; en yfir dældirnar eru brýr gjörðar; kveðr mest að einni, er kölluð er Haarlemar-brúin; hún er 1504 feta löng, en 25 feta breið; neðan undir henni eru 15 steinbogar; spanna 8 þeirra yfir 83 fet hver, en 7 yfir 51 fet hver; hæstu steinbogarnir eru 115 fet yfir vatnsborð, en 160 feta há er brúin sjálf, þar sem hún er hæst. Önnur brú á þessari leið er brúin yfir Glendwuingdalinn; hún er 1618 feta löng. Við vatnsveitugjörð þessa var lokið 1842, og er það almennt talið eitt með stórkostlegustu og þörfustu mannvirkjum, ekki ósamboðið fyrnefndum stórvirkjum Rómverja.

# Guð er kærleikur.

Eptir

Leo Tolstoj.

Marteinn skóari bjó inn í bænum í dálítilli kjallarakompu, með einum glugga út að götunni. Út um gluggann sá hann fólkið sem gekk um strætið, það er að segja hann sá ekki nema fæturna, en hann þekkti líka flesta á skónum. Marteinn hafði búið á sama stað mörg ár, og þeir voru teljandi, skórnir þar í grenndinni, sem ekki höfðu einhvern tíma verið í höndunum á honum; hann átti eitthvað í þeim flestum, meira eða minna, og hann hafði daglega þá ánægju, að sjá verkin sinna handa út um gluggann. Það var líka sannast að segja, að Marteinn hafði bæði góða vöru á boðstólum og var vandvirkur. Aldrei lofaði hann upp í ermina sína að vera búinn á vissum tíma, og sagðist þá heldur vilja verða af vinnunni, og ekki tók hann meira en hann átti. Marteinn var svo kunnur að þessu, að allir vildu við hann skipta, og hann hafði allt af nóg að gjöra.

Marteinn hafði alla sína daga verið vandaður maður, en það var þó fyrst á elliárum sínum, að hann fór að verða eiginlega guðhræddur og hugsa um sálarvelferð sína. Konuna sína missti hann áður en hann fór að eiga með sig sjálfur, og eptir hjónabandið lifði ekki nema einn drengur þriggja

vetra; hin börnin hafði guð tekið til sín. Marteinn var að hugsa um að senda barnið til systur sinnar upp í sveit, en gat, þegar til kom, eigi fengið það af sjer, að láta það fara frá sjer til ókunnugra.

Um sama leyti fór hann úr vistinni frá meistaranum, og fjekk sjer húsnæði í kjallaranum sínum. Drengurinn dafnaði vel og var yndi og eptirlæti föður síns, en honum var ekki gefið barnalánið. Þegar drengurinn var kominn á þann aldur, að geta hjálpað föður sínum, sýktist hann og dó eptir viku-legu. Marteinn varð svo sturlaður, að hann tók að mögla gegn guði. Hann varð þunglyndur og óskaði að fá að deyja, og ásakaði guð fyrir að hafa ekki heldur tekið sig, gamlan manninn, en þennan hjartkæra einkason. Upp frá því hætti hann líka að fara í kirkju.

Einhvern dag bar svo undir, að gamall kunningi úr sama byggðarlagi og hann heimsótti hann. Hann var á aldur við Martein og hafði í átta ár farið um sem pílagrímur. Þegar þeir höfðu talað saman stundarkorn, fór Marteinn að telja honum raunir sínar.

»Jeg er orðinn þreyttur á lífinu, og óska mjer einskis nema að mega deyja; jeg lifi hvorki mjer nje öðrum til gagns úr þessu«.

»Láttu þjer ekki slíkt um munn fara«, sagði vinur hans. »Það er ekki okkar, að dæma um forsjónina. Það er ekki spurt um, hvað okkur finnst, heldur hvað guði þóknast að láta vera. Nú hefir guð hagað því svona, að sonur þinn dó, en þú ert á lífi. Allt er gott sem gjörði hann. Þú ert svona

sturlaður af því, að þú vilt bara lifa fyrir sjálfan þig og hafa ánægju af lífinu«.

»Til hvers er lífið annars?« spurði Marteinn.

»Maður á að lifa guði til geðs«, sagði gamli maðurinn. Guð hefur gefið þjer lífið, og þess vegna átt þú að lifa svo honum líki. Þegar þjer lærist það, þá ert þú laus við áhyggjur og sorgir, og allt finnst þjer ljettbært úr því«.

Marteinn þagði um stund, og mælti síðan:

»En hvernig á maður að fara að því að lifa svo guði líki?«.

Gamli maðurinn svaraði:

»Þú spyr, hvernig maður eigi að lifa svo guði líki. Kristur hefir kennt okkur það. Þú ert læs á bók; kauptu þjer nýjatestamentið og lestu í því. Þar sjerðu, hvernig maður á að lifa guði velþóknanlega. Það stendur allt saman í því«.

Marteinn hugsaði mikið um þetta, og sama daginn fór hann og keypti nýjatestamenti, með stóru letri, til þess að láta það eigi dragast að fylgja ráði vinar síns.

Í fyrstunni ætlaði hann sjer ekki að lesa í bókinni nema á helgum dögum, en úr því hann var byrjaður á því, fjekk það honum svo mikils unaðar, að það leið ekki sá dagur, að hann læsi ekki í henni. Stundum var hann svo sokkinn niður í lesturinn, að hann gáði einskis fyr en hann sat í myrkrinu við útbrunninn lampann. Hann las á hverju kvöldi í testamentinu, og því meira sem hann las, því betur skildi hann, til hvers guð ætlaðist af honum, og hvernig maður gæti lifað svo guði líkaði. Það var eins og steini væri ljett af

hjarta hans. Áður lá hann lengi andvaka, þegar hann var háttaður, og gat ekki haft hugann af sonarmissinum; nú gat hann með hugarrósemi haft yfir orðin: »Guð veri eilíflega lofaður! Verði þinn vilji!«

Töluverð breyting varð líka á ytri háttum Marteins. Áður hafði hann eins og flestir jafningjar hans verið vanur að fara á sunnudögunum inn á einhvern veitingastað og fá sjer te eða brennivín, eptir því sem verkast vildi. Það var þá bezta hressingin fyrir hann, að hitta þar einhvern kunningja, sem hann gat spjallað við yfir staupunum. Hann var aldrei drukkinn til muna, en vanalega hafði hann þó dálítið í kollinum, þegar hann hjelt heimleiðis um kvöldið; talaði hann þá stundum heldur margt, og eins gat það komið fyrir, að hann stöðvaði ókunnuga menn úti á strætum og yrti á þá. Þetta var nú allt búið að vera; hann lifði í enn meiri spekt og ró en áður, og um leið var hann glaðari og ljettari í lundu. Á morgnana gekk hann að vinnu sinni, og þegar vinnutíminn var úti að kvöldi, tók hann lampann niður af króknum, setti hann á borðið og fór að lesa. Því lengur sem hann las, því betur skildi hann það sem hann fór með, og með degi hverjum fannst honum sjer líða betur.

Kvöld eitt var Marteinn venju fremur sokkinn niður í nýja-testamentið; það var í sjötta kapítulanum í Lúkasar guðspjalli, sem hann var að lesa:

»Slái nokkur þig á aðra kinn þína, þá bjóð þú honum hina, og ef einhver tekur frá þjer yfirhöfn þína, þá meinaðu honum ekki að taka kirtil þinn. Gef þú hverjum sem biður þig, og ef einhver tek-

ur frá þjer það sem þitt er, þá kref þú þess ekki aptur. Og eins og þjer viljið að mennirnir breyti við yður, eins eigið þjer og að breyta við þá«.

Hann las áfram, og kom að þessum orðum drottins í sama kapítula:

»En því kallið þjer mig herra, og gjörið þó ekki það sem jeg býð yður? Jeg vil segja yður, hverjum sá er líkur, sem kemur til mín og heyrir mín orð og breytir eptir þeim: hann er líkur manni þeim, er byggði sjer hús, gróf djúpt fyrir, og grundvallaði það á bjargi; nú er vatnsflóð kom, skall straumurinn á þessu húsi, en fjekk hvergi hrært það, því það var grundvallað á bjargi. En sá er heyrir mín orð og breytir ekki eptir þeim, hann er líkur manni þeim, er byggði sjer hús á jarðvegi, en hafði enga undirstöðu; þegar straumarnir skullu á því, fjell það þegar og þess hrun varð mikið«.

Marteini var slíkt yndi að lesa þessi orð. Hann tók af sjer gleraugun, og lagði þau niður á bókina, tók höndum um höfuð sjer, hallaði sjer fram á borðið og sat hugsi. Hann var að velta því fyrir sjer, hvort hann sjálfur hefði lifað eptir þessum orðum, sem hann var að lesa.

»Hef jeg byggt hús mitt á bjargi eða sandi?«, hugsaði hann. »Betur væri, það væri á bjargi. Það er svo sem hægt að hafa góða samvizku heima í kyrðinni og einverunni, en óðara en á það reynir í sambúðinni við aðra, verður manni á að gjöra eitthvað sem miður er rjett. En ekki dugar að leggja árar í bát fyrir það. Með guðs hjálp verð jeg að reyna að breyta eins vel og jeg get«.

Nú var kominn háttatími, en hann gat ekki

slitið sig frá bókinni og las næsta kapítula. Hann las þar um hundraðshöfðingjann, son ekkjunnar, samtalið við lærisveina Jóhannesar skírara, og kom að staðnum þar sem ríki Faríseinn býður Kristi til matar. Eptir að hann hafði lesið um bersyndugu konuna, sem smyr fætur drottins og vætir þá með tárum sínum, sem Kristur síðan mælir líknaryrðin, kom hann að 44. versinu, þar sem skrifað stendur:

»Og hann snerist síðan að konunni og sagði við Símon: sjer þú konu þessa. Eg kom í hús þitt og þú gafst mjer ekki vatn að þvo í fætur mína, en hún vætti þá með tárum sínum og þerraði þá með hári sínu. Ekki minntist þú við mig, en frá því jeg kom hjer hefur hún ekki hætt að kyssa fætur mína. Ekki smurðir þú höfuð mitt með viðsmjöri, en hún hefur smurt fætur mína með smyrslum«.

Þegar Marteinn hafði lesið þessi vers, tautaði hann fyrir munni sjer: »Hann gaf honum ekki vatn til að þvo í fætur sína, og ekki fagnaði hann honum með kossi, nje smurði höfuð hans með viðsmjöri«. Hann tók aptur af sjer gleraugun og lagði inn í bókina, og sat hugsandi yfir þessu, sem hann hafði lesið.

»Faríseinn hefur þá verið«, hugsaði hann með sjer, »rjett eins og jeg og mínir líkar. Svona hugsaði jeg aldrei áður um aðra en sjálfan mig. Jeg hugsaði lítið um aðkomumanninn, ef sjálfum mjer gat liðið vel við tebolla inni í heitri stofu. Mjer varð aldrei að gleyma sjálfum mjer, en gestinn ljet jeg eiga sig. Og gesturinn er þó drottinn

sjálfur. Skyldi jeg hafa farið svona að, hefði hann komið til mín?« spurði Marteinn sjálfan sig. Hann hallaði sjer fram á borðið, og áður en hann vissi af því, var blundur siginn á hann. Allt í einu var eins og hvíslað væri rjett við eyrað á honum: Marteinn!

Hann hrökk við. »Hver er þar?«, hrópaði hann út í dyrnar, en þar var enginn sjáanlegur. Það var aptur komið svefnmók á hann, þegar hann allt í einu heyrir greinilega sagt:

«Marteinn, Marteinn! líttu út strætið á morgun; jeg kem«.

Marteinn vaknaði, stóð á fætur og neri stírurnar úr augunum. Honum var ekki alveg ljóst, hvort þetta hefði verið draumur, eða hann hefði heyrt þessi orð vakandi. Eptir stundarkorn slökkti hann á lampanum og háttaði.

Marteinn var á fótum næsta dag fyrir birtu. Fyrst las hann morgunbænina sína og svo lagði hann í ofninn. Þegar ofninn var orðinn heitur, ljet hann tvo potta inn í hann, annan með kálmeti og hinn með graut, fór síðan að hita á tepottinum. Eptir það batt hann um sig skinnsvuntuna og settist við sauma út við gluggann. Meðan á þessu stendur er hann þó allt af með hugann við það sem fyrir hann bar kvöldinu áður; í öðru veifinu fannst honum að það hefði þó verið meira en draumur, og hann hefði í raun og veru heyrt þessa rödd. »Slíkt hefur þó borið við áður» hugsaði hann.

Marteinn gat ekki stillt sig um að vera allt af að smálíta upp frá saumunum út á strætið. Ef

hann sá stígvjel bera fyrir, sem hann þekkti ekki, þá teygði hann sig alveg upp í rúðuna, til þess að sjá meira en fæturna á þessum ókunnuga manni. Fyrst kom vinnumaður þar úr húsinu, á nýjum flókaskóm; síðan bar vatnskarlinn fyrir. Á eptir þeim bar þar að glugganum gamlan uppgjafadáta frá dögum Nikulásar keisara, með reku í hendinni. Marteinn þekkti hann á skónum; hann hafði nýskeð bætt þá. Þessi karlrola hjet Stepanits, og var þarfakarl hjá kaupmanninum þar í húsinu, sem hafði tekið hann í gustukaskyni. Hann var að moka burt snjónum af stjettinni fyrir utan gluggann hjá Marteini. Marteinn horfði á hann stundarkorn og laut síðan aptur niður að vinnu sinni.

»Jeg held að það sjeu farnir að koma á mig elliórar«, sagði hann og brosti að sjálfum sjer. »Stepanits er að moka snjó upp á stjettinni, og jeg tek hann fyrir Krist, og að hann sje að hugsa um að koma inn til mín. Mikið blessað flón er jeg«.

Hann tók aptur til vinnu sinnar, en lengi var hann ekki við, hann þurfti aptur að líta út um gluggann. Stepanits hafði hallað rekunni upp að múrnum, og var annaðhvort að hvíla sig, eða hita sjer. Hann var orðinn svo gamall og farinn, að hann var ekki einu sinni maður til að moka snjó. Marteinn horfði á hann, og datt ósjálfrátt í hug, að það væri kann ske gustuk að gefa honum tesopa, meðan enn þá væri heitt á tepottinum. Hann lagði frá sjer nálina, setti tepottinn á borðið, og drap fingrinum á rúðuna. Stepanits sneri sjer

að glugganum. Marteinn bandaði honum niður, og fór út í dyrnar til að opna.

»Komdu niður og vermdu þig dálítið; þjer hlýtur að vera sárkalt«, sagði hann.

»Guðsást fyrir«, sagði Stepanits, »maður þolir nú ver kuldann með aldrinum«.

Stepanits dustaði af sjer snjóinn úti fyrir, áður en hann kom inn í stofuna; hann riðaði allur til, en reyndi þó til eins og hann gat að þerra af fótunum, til þess að óhreinka ekki.

»Kærðu þig ekki um það«, sagði Marteinn, »jeg skal þurka það. Það er ekki stássið hjerna. Tylltu þjer þarna og fáðu þjer tesopa«.

Marteinn hellti í tvo bolla, annan rjetti hann gestinum, sjálfur hellti hann sínu á undirskálina. Teið var heitt, svo hann þurfti að blása á það.

Stepanits drakk úr bollanum sínum, hvolfdi honum, og ljet það sem hann átti eptir af sykurmolanum á botninn. Hann þakkaði fyrir sig, en það var auðsjeð að hann gat þegið meira.

»Þú drekkur dálítið meira«, sagði Marteinn og hellti aptur á bollana hjá sjer og gestinum.

Marteinn smádreypir í tebollann, en getur ekki stillt sig um að líta út um gluggann við og við.

»Áttu von á nokkrum?«, spyr gesturinn.

»Jeg veit ekki hvað jeg á að segja; jeg get varla sagt frá því, á hverjum jeg á von. Það er líklega ekki nema hugarburður, eða draumórar. Jeg get annars sagt þjer það. Í gærkvöld var jeg að lesa í nýjatestamentinu um drottinn vorn Jesú Krist, og allt það sem hann varð að líða á sínum hjervistardögum. Þjer er það ekki ókunnugt«.

»Eitthvað hef jeg heyrt um það«, sagði Stepanits, »en jeg og mínir líkar eru ekki læsir«.

»Jeg var þá að lesa söguna um drottin, þegar hann kemur til faríseans, sem var nógu ríkur, en tók þó ekki vel á móti honum. Um þetta var jeg að hugsa, vinur minn, í gærkvöld, að svona getur það farið, að herra vorum og frelsara er ekki tekið sem skyldi. Ekki veit jeg hvað maður hefði reynt til að taka honum vel, hefði hann komið til mín, en faríseanum fórst það svona. Þessu var jeg að velta fyrir mjer, og þá sótti á mig svefn, og jeg fæ mjer dálítinn dúr í stólnum, og þá heyri jeg að einhver kallar á mig með nafni; við það hrökk jeg upp og þá er eins og hvíslað væri rjett við eyrað á mjer: »Bíddu mín á morgun«. Þetta heyrði jeg tvisvar. Jeg get ekki gleymt þessu, og þó að jeg viti, hvaða heimska það er, þá er jeg sannast að segja að bíða eptir því, að herra vor og frelsari kunni að koma«.

Stepanits hristi höfuðið, en sagði ekkert; hann drakk út úr bollanum sínum og lagði hann á hliðina í undirskálina. Það var auðsjeð, að hann ætlaðist ekki til að fá meira, en Marteinn reisti þó bollann við, fyllti hann og sagði:

»Drekktu, vinur minn, jeg sje ekki eptir því«. Og svo hvarf hann aptur að umtalsefninu. »Jeg er líka að hugsa um það, hvað drottinn vor og frelsari var lítillátur, þegar hann gekk um kring á jörðunni. Hann þóttist ekki ofgóður að koma til smælingjanna, og lærisveinarnir voru flestir eins og við og okkar líkar; þeir voru áður rjettir og sljettir erfiðismenn og syndugir, rjett eins og þú

og jeg. Hver sem sjálfan sig upphefur, segir hann, mun niðurlægjast, en hver sem lítillækkar sjálfan sig mun upphafinn verða. Þjer kallið mig herra, segir hann, en jeg hefi þvegið fætur yðar. Og hver yðar, sem vill vera fremstur, hann sje síðastur allra. Sælir eru volaðir. Sælir eru hógværir. Sælir eru friðsamir. Sælir eru miskunnsamir«.

Stepanits gleymdi alveg tebollanum, hann var orðinn klökkur, og honum var ljett um grát, eins og flestu gömlu fólki, og hlustaði á Martein með tárin í augunum.

»Ljúktu úr bollanum«, sagði Marteinn við hann.

Stepanits signdi sig og þakkaði fyrir, en ýtti frá sjer bollanum, og sagði um leið og hann stóð á fætur:

»Guðsást og góðar þakkir, Marteinn minn, fyrir allar góðgjörðirnar, þú hefur mettað mig bæði á sálu og líkama«.

»Þakka þjer sjálfum fyrir komuna, og láttu þetta ekki verða í seinasta sinni«, sagði Marteinn, »þú ert ætíð velkominn«.

Stepanits fór, Marteinn drakk leifar hans, ljet bollann frá sjer, og settist aptur að vinnu sinni undir glugganum. En ekki gat hann stillt sig um að vera að smálíta út um gluggann. Hann var allur með hugann við orð og gjörðir frelsarans, og fannst eins og Kristur vera á leiðinni til sín.

Það sem fyrst bar fyrir augu hans voru hermenn tveir, sem gengu um strætið; seinna gekk þar fyrir eigandinn að næsta húsi í götunni og bakaradrengur með körfu. Næst þegar hann leit út, sá hann fátæka konu koma; hún nam staðar

og hallaði sjer upp að húshliðinni rjett við gluggann. Hún var í baðmullarsokkum og skórnir hennar gengnir í sundur. Marteinn þekkti svo vel á skó, að hann sá óðara, að þeir voru eptir einhvern klaufann uppi í sveit. Marteinn kom alveg út að glugganum til þess að geta því betur virt konuna fyrir sjer. Hann hafði ekki sjeð hana áður. Hún var ógn fátæklega búin og hafði ungbarn á handleggnum. Hún sneri sjer undan golunni og var að reyna að hlúa að barninu; en hún hafði ekkert til að gjöra það með. Fötin, sem hún var í, voru of þunn og köld til að vera í að vetrarlagi, og þar að auki slitin. Marteinn heyrði inn um gluggann grátinn í barninu, og að konan gat ekki huggað það. Hann kastaði frá sjer vinnunni og hljóp upp í tröppurnar.

»Þú þarna kona, heyrðu mig, kona góð«, kallaði hann til hennar.

Konan heyrði til hans og sneri sjer við.

»Stattu ekki úti í kuldanum með barnið. Komdu hingað niður í stofuna. Það er þó altjend skárra, að vera með barnið inni í velgjunni. Hjerna er gengið niður«.

Konan varð forviða. Þarna stóð gamall maður með skinnsvuntu og gleraugu og bauð henni inn til sín. Hún gekk á eptir honum.

Þegar þau voru komin inn í stofuna, sagði Marteinn:

»Tylltu þjer þarna á rúmið, kona góð, nær ofninum. Þú getur ornað þjer þar og gefið barninu brjóstið«.

»Brjóstin eru þur, jeg hef á engu nærzt í dag«, sagði konan, en lagði samt barnið á brjóst.

Marteinn hristi höfuðið. Hann tók skál út úr skápnum og ljet á borðið. Síðan gekk hann að ofninum, að sjá, hvað matnum liði. Súpan var elduð, en grauturinn ekki til fulls. Hann tók skálina og fyllti hana með súpu og ljet hana á borðið með dálitlu brauði úr skápnum. Gamlan dúkræfil átti hann þar á snaga, lagði hann á borðið og sagði við konuna:

»Seztu þarna við borðið og neyttu þess, sem fram er borið, kona góð; jeg skal sitja með barnið á meðan. Jeg hef sjálfur átt börn, og jeg skal sýna þjer, að jeg er ekki svo slæm barnfóstra«.

Konan signdi sig og settist að matnum, en Marteinn settist á rúmið hjá litla unganum. Hann reyndi fyrst að kjá framan í króann með munninum, en það gekk ekki vel, af því hann var orðinn tannlaus. Betur gekk honum þegar hann fór að leika við barnið með sleikifingrinum. Hann sneri honum eins og hjóli fyrir augunum á barninu og stakk honum síðan úr háa lopti upp í það. Þegar hann hafði þetta gjört nokkrum sinnum, fór barnið að festa augun á fingrinum, og bera munninn eptir honum, en það fjekk ekki að hafa fingurinn upp í sjer; hann var svo svartur og ljótur. Barnið fór að verða rólegra og enda að brosa, og Marteinn gamli rjeð sjer ekki fyrir gleði. Á meðan sat móðirin við borðið og mataðist, og sagði um leið deili á sjer og hvaðan hún kom.

»Maðurinn minn er hermaður«, sagði hún. »Jeg

hef ekki sjeð hann í átta mánuði, hann varð nauðugur viljugur að fylgja hersveitinni sinni, og jeg hef ekkert frjett af honum síðan. Þegar barnið fæddist, var jeg rekinn úr vistinni, þar sem jeg var eldhússtúlka. Jeg hef nú á þriðja mánuð verið að leita mjer að atvinnu, og það litla, sem jeg átti, er allt farið. Jeg var helzt að hugsa um að verða barnfóstra, en jeg var svo mögur, að enginn tók í mál að láta mig hafa barn á brjósti. Núna seinast var jeg að finna kaupmannskonu; jeg á þar skyldfólk og mjer hafði verið lofað þar inni. Hrakningnum var þó ekki alveg lokið, því að konan sagði mjer, að jeg gæti fyrst komið alfarin eptir viku. Það er langt út þangað, svo að jeg var hreint orðin uppgefin, og barnið að deyja úr kulda. Hjer inn í bænum höfum við þó altjend vísan næturstað í bráð hjá konu, sem hýsir okkur af brjóstgæðum; annars var ekkert fyrir nema dauðinn«.

Marteinn spurði konuna með mikilli hluttekningu: »Áttu þá ekkert hlýtt fat til að fara í?«

»Það er nú víst kominn tími til þess, en hvað á maður að gjöra, góði maður; í gær varð jeg að taka 20 kópeka[1] til láns upp á þríhyrnu mína«.

Konan gekk að rúminu og settist með barnið, en á meðan leitaði Marteinn í fötum sínum á veggnum og náði þar í gamla peysu, sem hann rjetti konunni.

»Taktu við henni«, sagði hann, »hún er ekki

---

1) Kopek silfurmyntar ekki fullir 3 aurar.

mikils virði, en betri en ekkert til að vefja um barnið«.

Konan horfði fyrst á peysuna, síðan af henni á gamla manninn, sem stóð fyrir framan hana, og táraðist um leið og hún tók við gjöfinni. Marteinn sneri sjer undan fljótlega, kraup niður við rúmið og dró undan því kistil, leitaði stundarkorn í honum að einhverju og settist aptur á rúmstokkinn hjá konunni.

»Guð blessi þig, gamli maður«, sagði hún; »guð hefur skotið því mjer í brjóst, að hvíla mig fyrir utan gluggann þinn. Jeg held að barnið hefði annars dáið úr kulda. Þegar jeg fór af stað í morgun, var veðrið svo meinlaust, en þá kom þetta grimmdarfrost. Jeg þakka það guði, að þú varzt til að líta út um gluggann, meðan jeg stóð þar, og svo kenndir þú í brjósti um mig, vesalinginn«.

Marteinn brosti.

»Það er nokkuð í því, sem þú segir«, sagði hann »það stendur sjerstaklega á því fyrir mjer, að jeg er að líta út um gluggann«.

Hann sagði konunni sömu söguna og Stepanits; fjekk, um drauminn, og að raustin hefði lofað honum því, að drottinn vor og frelsari kæmi í dag að heimsækja hann.

«Þetta held jeg geti skeð«, sagði konan; hún var staðin upp og farin að tygja sig, og vafði barnið innan í peysuna, hneigði sig fyrir Marteini hvað eptir annað og þakkaði honum fyrir allt gott.

»Taktu þetta í Jesú nafni«, sagði Marteinn, og

rjetti henni 20 kópeka; »þú getur leyst út þrí-hyrnuna fyrir það«.

Konan tók við skildingnum, gjörði krossmark fyrir sjer og kvaddi. Marteinn gjörði það sömuleiðis og fylgdi konunni til dyra.

Marteinn settist aptur að vinnu sinni út við gluggann, eptir að hann hafði neytt súpunnar, sem hann átti eptir. Hann var þó enn sem áður að smálíta út á strætið, og ef skugga bar á rúðuna, gætti hann óðara að, hver fyrir gekk. Hann sá bæði kunnuga og ókunnuga ganga um strætið, en ekki fannst honum til um neinn þeirra.

Eitthvað er þar enn á ferðinni, hugsar Marteinn, og rjett fyrir utan gluggann sjer hann hvar gömul sölukerling hefur numið staðar. Hún var með trjespónapoka á bakinu og trog undir hendinni með fáeinum eplum í, sem hún átti eptir óseld. Marteinn gizkaði á, að gamla konan mundi hafa fengið að hirða þessa trjespæni einhverstaðar þar sem verið væri að smíða, og mundi vera orðin þreytt í bakinu og ætla sjer að færa pokann yfir á hina öxlina. Hún ljet frá sjer trogið á stólpa, sem þar stóð, og setti pokann niður á stjettina. Það var laust troðið í pokann, og meðan konan er að hrista hann, ber þar að dreng, sem hnuplar einu epli úr troginu. Kerling hafði sjeð þetta út undan sjer og var viðbragðsskjótari en strák varði, og náði í handlegginn á honum. Strákur spyrntist við af alefli, en gamla konan sleppti ekki tökunum, sló af honum húfuna, og hjelt í kambinn á honum. Drengsnáðinn grenj-

aði og konan ljet dæluna ganga. Marteinn fleygði frá sjer nálinni, og asinn var svo mikill á honum, að hann missti fótanna í tröppunum og gleraugun urðu þar eptir. Þegar hann kom upp á stjettina, var konan enn þá að hártoga drenginn með miklu rausi, og hjet því, að hann skyldi komast undir manna hendur. Drengurinn sór og sárt við lagði, að hann væri saklaus, og að hann ætti ekki þessa meðferð skilið. Marteinn gekk á milli, tók í hendina á drengnum, og sagði:

»Slepptu honum, konukind, og fyrirgefðu honum í Jesú nafni«.

»Á jeg að fyrirgefa honum? svei mjer þá alla daga; hann skal vera hýddur svo rækilega, að hann gleymi því ekki fyrst um sinn. Ormurinn þinn, komdu nú með mjer til fógetans«.

En Marteinn var ekki af baki dottinn. »Slepptu honum, kona góð; hann gjörir þetta aldrei aptur; slepptu honum í Jesú nafni«.

Gamla konan sleppti drengnum, og óðara en hún sleppti takinu, ætlaði strákur að taka til fótanna, en þá var það Marteinn, sem hjelt í hann.

»Biddu gömlu konuna fyrst fyrirgefningar«, sagði hann, »og láttu þjer ekki verða þetta aptur; jeg horfði á það, þegar þú tókst eplið«.

Drengurinn fór að gráta og bað fyrirgefningar.

»Nú fer allt vel. Nú getur þú fengið epli«, sagði Marteinn, og tók eitt epli úr troginu og fjekk drengnum. »Jeg skal borga það«, sagði hann við gömlu konuna.

»Þú venur bara upp í honum óknyttina, stráknum, með þessu lagi«, sagði hún. »Hann hefði átt

að fá þá ráðningu, að hann hefði munað eptir því í heila viku«.

»Hægan, hægan, kona góð«, sagði Marteinn. »Svona hugsum við mennirnir, en guð lítur öðruvísi á það. Ef snáðinn sá arna á skilið að verða flengdur fyrir eitt epli, hvað skyldum við þá eiga skilið fyrir allar okkar syndir?«

Gamla konan sagði ekkert við því.

Marteinn sagði henni síðan dæmisöguna um konunginn, sem gaf þjóni sínum upp alla skuldina, en sem á eptir tók fyrir kverkar á samþjóni sínum fyrir margfalt minni skuld. Konan hlustaði á hann og drengurinn engu síður.

»Guð vill að við fyrirgefum«, sagði Marteinn að lokum, »og ef við gjörum það ekki, þá vill hann heldur ekki fyrirgefa okkur«.

Gamla konan hristi höfuðið, stundi við og mælti: »Þetta er aldrei nema satt; en þessir strákar eru orðnir svo pöróttir, að það er ósköp að vita til þess«.

»Þá verðum við, gamla fólkið, að leiða þá á rjettan veg«, sagði Marteinn.

»Er jeg ekki allt af að segja það«, sagði konan; »jeg hef sjálf átt sjö börn. Nú á jeg ekki eptir nema eina dótur«.

Síðan sagði hún allt af ljetta, hvar hún bjó og dóttir hennar, og hvað barnabörnin hennar væru mörg. »Jeg er nú orðin liðljett, en reyni þó að gjöra það sem jeg get. Það kemur þá líka þeim til góðs, blessuðum aumingjunum litlu. Þau eru líka svo góð í sjer. Það er nú bezta ánægjan mín í lífinu. Hún Aksjútka litla má aldrei af mjer sjá.

»Til ömmu, elsku amma mín«, er allt af viðkvæðið«.

Gamla konan var orðin viðkvæm. Hún leit vingjarnlega til drengsins og sagði:

»Þetta var þá meinlaust. Guð sje með honum«.

Hún fór að lypta upp pokanum sínum, en þá gaf drengurinn sig fram og sagði:

»Láttu mig bera fyrir þig pokann, kona góð; jeg á sömu leiðina«.

Gamla konan virti drenginn fyrir sjer, hristi höfuðið, og ljet pokann upp á bakið á honum. Þau urðu samferða niður strætið, og konan gleymdi að taka borgunina hjá Marteini fyrir eplið. Hann horfði á eptir þeim stundarkorn, og heyrði, að þau höfðu mikið að segja hvort öðru. Við götuhornið, sem fyrst varð fyrir þeim, fóru þau inn í sundið til þverhandar, og hurfu honum sýnum.

Marteinn gekk niður í kjallarann og settist við vinnu sína. Gleraugun fann hann á tröppunum, og þau voru heil; hann setti þau upp; en hverju sem það var að kenna, sá hann ekki vel með þeim. Rjett í því bar þar að manninn, sem kveikti á luktunum. »Það er þá orðið svona framorðið«, hugsaði hann með sjer, kveikti á lampanum og hengdi hann á krókinn, og vann af kappi. Hann lauk við skóinn, skoðaði hann vandlega og hafði ekkert út á hann að setja. Síðan tók hann til á borðinu, færði lampann þangað, og sótti nýja testamentið sitt. Hann hafði látið skinnræmu inn í bókina, þar sem hann hætti að lesa kvöldinu áður, og ætlaði að halda þar áfram, en það var samt ekki sú opnan, sem upp kom. En um

leið og Marteinn opnaði testamentið, fór hann aptur að hugsa um drauminn, og þá fannst honum að einhver væri fyrir aptan sig. Hann leit við og sá ekki betur, en að einhver stæði úti í skotinu við dyrnar, þó að hann bæri ekki kennsl á hver það væri. Eins og kvöldinu áður heyrir hann hvíslað í eyra sjer:

»Marteinn, Marteinn! þekkir þú mig ekki aptur?«

»Hver á það að vera?«, sagði Marteinn.

»Þekkirðu ekki mig?«, sagði raustin. »Það er jeg«.

Og um leið kom Stephanits út úr skotinu með bros á vörunum, og leið burtu eins og reykur.

»Og það er jeg«, sagði önnur raust, og út úr skotinu kom konan með barnið. Konan brosti og barnið hló, og þau hurfu á sömu leið.

»Og það er jeg«, sagði þriðja raustin. Það var konan og drengurinn með eplið. Bæði brostu o hurfu honum sjónum eins og hin.

Marteinn varð svo hjartanlega glaður. Hann signdi sig, setti upp gleraugun og leit í opnuna, sem hann hafði dottið niður á. Efst á síðunni las hann:

»Hungraður var eg og þjer gáfuð mjer að eta, þyrstur var eg og þjer gáfuð mjer að drekka, gestur var eg og þjer hýstuð mig«.

Og neðar á sömu síðu kom hann að orðunum:

»Það sem þjer gjörið við einn af þessum minnstu bræðrum mínum, það hafið þjer mjer gjört«.

Og Marteini skildist, að draumur hans var

fram kominn, að frelsariun hafði verið hjá honum um daginn, og að hann hafði tekið á móti honum.

*(Þórh. B.).*

---

# Hinrik Pestalozzi.

Eptir

*H. Trier.*

---

## I.

Mikla stjórnarbyltingin frakkneska, er hófst 1789, lét ekki staðar numið við landamæri Frakklands; nágrannalöndin fengu og að kenna á henni, enda var víða ekki vanþörf á því. Eitt af þeim grannlöndum var Svissland; það hafði þá öldum saman lifað í friði; en allir ·hagir borgaralegs félags höfðu skipazt þar mjög áþekkt því, sem viðgekkst á Frakklandi á dögum konungsveldisins þar: óbærilega þungir skattar voru þar á öllum fasteignum, ófrelsi í atvinnuvegum, allur iðnaður einokaður af iðnaðarfélögum með miklum einkaréttindum; sveitafólkið kúgað og féflett af stórmennunum í borgunum, fáein fylki drottnandi, hin öll í ánauð; í iðnaðarbyggðunum örbyrgð og spilling;

uppfræðing svo lítil, sem mest mátti verða; fáir einir menn réðu sem harðstjórar lögum og lofum alstaðar í þessu fylkjasambandi. Hér veitti því ekki af að viðra í kotinu, og Frakkar höfðu fyrir því. Frakkneskur her óð inn í Svissland, setti setulið sumstaðar í landinu, og innlimaði það í frakkneska þjóðveldið; á öðrum stöðum var frakkneski herinn eins og annar hakhjarl landsbúa, er reyndu til þess að berjast sér til frelsis, og skakkaði leikinn, er halla ætlaði á þá, er vildu drepa sig úr dróma; vann þannig merkustu borgirnar í landinu, er mestu réðu um stjórnarfar landsins, svo sem voru þær Solótúrn, Fríburg og Bern, og fékk það áunnið, að helvezka þjóðveldið var stofnað 11. apríl 1798. Í líkingu við stjórnarskipun Frakka voru 5 forstjórar settir fyrir stjórn hins eina og óskiptilega þjóðveldis, er saman stóð af landshlutum, er allir höfðu jöfn réttindi; þjóðveldíð dró undir sig eignir hinna fornu fylkja (cantons), er áður höfðu verið sjálfstæð ríki. Framkvæmdarvaldið var hjá forstjórunum.

Í hinni nýju stjórnarskipun var því lýst yfir, að uppfræðing almennings væri »önnur meginundirstaða almennra hagsælda«, og »siðferðisleg betrun mannkynsins« var talið ætlunarverk borgaranna. En ekki var allt fengið með hinni nýju stjórnarskipun. Ráðgjafinn, sem átti að sjá um hagi lista og vísinda, og sem sjálfur var ótrauður fylgismaður hins nýja fyrirkomulags, lýsti ástandinu á þessa leið: Allur þorri almennings gerir hvorki að fagna né fjörvi að fyllast við það, að ánauðin er af numin, og í hennar stað komið frelsi og jöfnuður í öll-

um stjórnmálum. Alþýða lætur afskiptalaust hið nýja fyrirkomulag, eða er því öllu fremur afundin, með því hún ekki skilur, hversu mikils virði gjöf sú er, sem hún hefir þegið. En þegar svo kemur, að þjóðinni fer að skiljast, hversu mikils virði stjórnarskipunin er, þá mun það sannast, að allur landslýður mun meta hana sem sína dýrustu gersemi, og leggja fyr líf og blóð í sölurnar en hann sleppi hinni minnstu ögn af frelsi sínu.

Fyrst og fremst þurfti að koma nýju skipulagi á alþýðuskólana. Upp til sveita voru hér um bil 350 skólar; af þeim höfðu tæpir 130 sérstök skólahús, og þar sem þau voru, þá voru það litlir, lágir, dimmir klefar, þar sem börnunum var hrúgað saman í bendu; ódaunninn í þeim var svo mikill, að lá við köfnun; loptið í þeim svo saggasamt, að rakinn rann í lækjum niður eptir veggjunum og öllu, sem var innan stokks. Þarna lásu svo börnin upphátt hvert í kapp við annað; sitt sett fyrir hverju barninu, og með sína bókina hvert; var þannig öll tilhögun ráðlausleg og engin stjórn á neinu. Sumstaðar fengu börnin tilsögn á heimili kennarans; urðu þau þá að vera innan um heimilisfólkið, og svo komu þá nágrannarnir þangað í kynnisferðir og höfðu svo með sér handavinnu sína, því það var gott að sitja þar inni í hitanum. Sumstaðar varð skólinn að fara bæ frá bæ, og hafa vistaskipti 10 til 12 sinnum á vetri, en að sumrinu var ekki umtalsmál, að almenningur vildi láta börn sín ganga í skóla. Það var ekkert visst ákveðið um það, á hvaða aldri börn ætti að vera, þegar þau færi í skóla; sjaldan voru börn flokkuð í bekki;

það barn er kallað vel að sér, sem getur þulið fræðin utanbókar, án þess að fipast. Það er talið með stórmerkjum, ef einhver krakkinn kann 119. sálminn og fáeina kapítula í ritningunni utanbókar. Það kom varla nokkurn tíma fyrir, að stúlkum væri kennt að draga til stafs; piltum var því að eins kennt að skrifa, að foreldrar þeirra óskuðu þess. Margur hver kennarinn kunni ekkert í reikningi. Mörgum féll það og fullervitt, að stafa rétt. Engum kemur til hugar, að það þurfi tilsögn til þess að geta orðið kennari. Kennarakaupið er svo smánarlega lítið, að kennaranum er ómögulegt að hafa uppeldi sitt af því; hann er því skóari, skraddari, steinmeistari, eða þá vinnumaður, og það eina, sem hann hefir til þess að geta verið kennari, er allt of opt það, að hann á herbergi, þar sem börn geta komizt fyrir.—Það var aldrei nema satt, það sem ráðgjafinn sagði: »að hinar fegurstu fyrirætlanir hlyti að fara forgörðum, hin hentugustu lög að verða árangurslaus, og hinar ágætustu kennslubækur gagnslausar, þegar framkvæmd fyrirætlananna, uppfylling laganna og notkun bókanna er falin fáfróðum og menntasnauðum mönnum«. Til þess að fá alþýðu uppfrædda, þurfti fyrst að útvega kennendur.

## II.

Þá var maður einn fátækur búinn í 18 ár í eymd og basli að kúra upp í sveit á búi sínu, er þó ávallt hafði lifandi áhuga á öllu því, er fram fór á ættjörðu hans. Hann hét Heinrich Pestalozzi, og hafði, þegar hér er komið sögunni,

(1798) tvo um fimmtugt. Lífið hafði látið hann misjöfnu mæta, og auðgað hann að reynslu. Hann var mannvinur hinn mesti, og hafði ávallt haft hugann fastan við það, að hjálpa umkomulausum og bágstöddum, og var nú farinn að sjá, hvernig sér helzt mætti takast það, eptir á margan hátt að hafa gert tilraunir, er orðið höfðu árangurslausar.

Hinrik Pestalozzi er fæddur 12. janúar 1746 í Zürich; faðir hans var virtur og vel metinn augnalæknir, en dó þegar Hinrik var 5 ára gamall. Ekkja hans átti fullt í fangi með að standa straum af uppeldi barna þeirra, og þrátt fyrir hina mestu starfsemi hefði hún varla getað klofið það, nema hún hefði notið tryggs liðsinnis ungrar vinnukonu, er Babelí hét; hafði maðurinn hennar, þegar hann lá banaleguna, grátbænt stúlkuna um það, að yfirgefa ekki konuna sína að sér látnum. Babelí komst við af orðum hans, og sagði: »Jeg skal ekki yfirgefa kona yðar, þegar þér deyið; jeg skal vera hjá henni þangað til jeg dey, ef hún þarfnast mín«; og þetta heit sitt efndi hún. Hún og ekkjan máttu hafa sig alla við, til þess að geta bjargazt við hin litlu efni. Hinrik, sem var heldur heilsutæpur, ólst nú upp hjá þessum tveimur konum. Æskureynslu sína, sem honum varð minnisstæð, hafði hann fyrir því, hversu mikilsvert það er fyrir barnið, að njóta móðurumönnunarinnar, og hversu miklu það skiptir fyrir barnið, að eiga í uppvextinum athvarf á góðu heimili. Frá upphafi vega hans var tilfinningin ríkust allra hans hæfilegleika, og við uppeldið, sem hann fékk, »drengurinn hennar mömmu«, þurfti ekki að koma kyrk-

ingur í hann. Hann þurfti aldrei til þess að taka, að ráða fram úr neinu sjálfur, og neyta skynsemi sinnar. Sí og æ hljóp hann á sig, og varð fyrir ýmsum blekkingum; en það gleymdist óðara, því hann var enginn áhyggjumaður. Í skólatímum sínum sat hann stundum eins og utan við sig með hugann út um alla heima og geima, nema eitthvað það væri um að vera, er hrifið gæti tilfinningu hans. Aldrei komst hann upp á það að skrifa vel, eða stafa rétt, en allt um það gat hann þýtt ræðu eptir grískan mælskumann með þeim eldhuga mælskunnar, að þýðing hans bar af annari, er kennari hans hafði látið prenta. Um sjálfan sig segir hann: »Jeg ímyndaði mér, að allir væri sjálfsagt eins meinlausir og hrekkjalausir og jeg, og þess vegna hefi jeg frá blautu barnsbeini verið ginningafífl hvers þess, sem hefir viljað hafa sig til þess að leika á mig. Hann var lang-ólagnastur og klaufalegastur af öllum skólapiltunum, og mátti því sæta sífeldu stríði og ertingum—þeir kölluðu hann Hinrik ánalega úr Álfheimum—; en öllum var þó vel við hann fyrir það, hvað hann var hjartagóður og greiðvikinn, en enginn gat gengizt fyrir útlitinu, því hann var ófríður sýnum, óþverralegur og óþrifinn.

Frá því hann var á 9. árinu fór hann opt í skólaleyfunum upp í sveit kynnisferðir til föðurafa síns, sem var gamall prestur og samvizkusamur, og gjörkunnugur ástandinu á hverju heimili í söfnuði sínum, því hann bókaði allt hvenær sem hann húsvitjaði. Í þorpinu, sem kirkjan var í og í grennd við það, voru baðmullarspunahús og vefjar-

stofur. Það fékk mjög á hann, og það svo mjög, að honum varð það minnisstætt fram á elliár, þegar hann sá leikbræður sína á fárra ára fresti verða litverpa, lúalega og spillta af lífinu í verkstofunum. Hann fór þegar að renna grun í það, sem hann síðar tók skýrt og skorinort fram, að iðnaðurinn verði upptök eymdar og spillingar, þar sem svo til hagar, að þorra almennings verður fyrir hann fyrirmunað alls réttnefnds heimilislífs. Hann fann það, að hér var mein í mannlegu félagi, sem hann fann sér skylt að sporna við eptir föngum.

Meðan Pestalozzi var í latínuskólanum, samdi einn af löndum hans, þeim er á frakkneska tungu mæla, árið 1762 bók, er gerði höfundinn frægan, en jafnframt talinn ekki húshæfan né kirkjugræfan. Maðurinn hér Rousseau, og bókin Emil. Í bókinni er uppeldinu lýst sem frjálsri framför barnsins, fyrir reynslu þá, er það auðgast að, og krapta þá, er það ávinnur sér, og reynir með því að hjálpa sér sjálft. En sökum annarlegs skilnings á ýmsum trúarefnum var böðullinn látinn brenna bókina bæði í París og Genf, þar sem Rousseau var borinn og barnfæddur, en sjálfur varð hann að fara landflótta og flæmdist borg úr borg. Í öðru riti, sem Rousseau kallaði »Sambands-samninginn«, gefur hann stjórnarbyltingunni, sem þá er í aðsigi, orðtök hennar: »frelsi og jafnrétti«, og í því telur hann bandalag borgaranna undirstöður ríkisins. Sjálfur var hann hrifinn og hugfanginn af náttúrunni, og elskaði frelsið bæði í stjórnarefnum fyrir hvern einstakan, og þessa frelsisást og náttúrugöfgun innrætti hann hinni uppvaxandi kynslóð

með ritum sínum, og að því studdu og æfikjör hans. Pestalozzi og jafnöldrum hans rann til rifja, þegar þeir báru saman frelsisbaráttu Svisslendinga, bæði fyr og síðar, við ánauð þá og ófrelsi, er þeir urðu nú að þola, og ekkert mundi þeim hafa verið hugleiknara en að fá endurbornar fornaldarhetjurnar, með þeirra borgaralegu stórvirki og framkvæmdir. »Frelsishugmyndirnar, sem Rousseau hafði gefið nýtt líf og sett fram í háleitri mynd, efldi í sálu minni ósk eptir því, að finna eitthvert rýmra verksvið, þar sem jeg gæti orðið þjóð minni til gagns«, segir Pestalozzi. Hann hafði hugsað sér að verða prestur, til þess að hann gæti lifað meðal alþýðu og fyrir hana; en svo hugkvæmdist honum það, að lögfræðisnám mundi fremur greiða honum götu til þess, að geta nokkru um það ráðið, hvert skipulag yrði á þegnlegu félagi. Hann gengur þá í félag ungra manna, sem með brennheitri réttlætistilfinningu kærir ranglæti andlegra og veraldlegra embættismanna við alþýðu; þetta vakti mikið hneixli meðal þeirra, er völdin höfðu, og voru kærendur settir í varðhald, og dregnir fyrir dóm, ef þeir ekki gátu forðað sér með flótta; reyndar höfðu kærendurnir ritað nafnlaust, og var það, svo sem vottaðist, þegar málin voru prófuð, af því, að þeir þóttust vita, að foreldrar og ættingjar mundu hafa aptrað þeim, ef þeir berlega hefðu viljað fara lagaveginn gegn afglapamönnunum. Á þessum árum missir Pestalozzi bezta vin sinn; á deyjanda deyi varar þessi vinur hann við því, að færast neitt það stórræði í fang, er hann ekki réði við, jafnmeinlaus og auðtrúa og hann væri. »Reyndu

að koma þér í einhverja umsvifalitla og hæga stöðu, og fyrir hvern mun hleyptu þér ekki út í neitt, er sé svo viðfangsmikið, að þú getir hlotið tjón af því, að ráða ekki við það, nema því að eins, að þú hafir þér við hönd mann, sem stilltur sé og gætinn og vel þekki á fólk, og vilji styrkja þig og sýni þér í öllu fullan trúnað.«

Andlát þessa vinar fékk svo mikið á Pestalozzi, að hann varð sjúkur, og vildi hann nauðulega skilja við lík vinar síns. Sér til heilsubótar og til þess að reyna að hressast, fer hann svo upp í sveit, og uppi í sveit í lengist hann. Hann fór nú að hneigja hug sinn til ungrar stúlku, er hét Anna Schultess, dóttir velmetins kaupmanns í Zürich; hún hafði verið virktavinur þessa vinar hans, og sá eptir honum ekki síður en hann; þannig byrjuðu kynni þeirra. Hann lýsti sjálfum sér fyrir þessari stúlku með svo mikilli einlægni, sem framast var unnt: »Ég hefi örlyndi og viðkvæmni, sem hvergi nærri ávallt hlýðnast dómi skynseminnar; í því að lofa og lasta, elska og hafa andstyggð fer ég mjög opt hófi framar. Það getur vel komið fyrir, að jafnvægi sálar minnar raskist af þessum veikleika». »Ég þarf ekki neitt að orða mitt mikla hirðuleysi um allt hið ytra, sem aldrei verður bót mælandi; það getur aldrei leynt sér.« En um ásýnd hans segir hún: »Þú þyrftir ekki að vera eins þakklátur við skaparann, ef hann ekki hefði gefið þér stór, svört augu, er sýna hjartagæzku þína, víðsæi sálar þinnar og alla ástúð þína«. Og um kosti hans segir hún: »Svo mikill drengskapur og veglyndi gagntekur alveg sálu mína.«

Hann hugsaði sér nú að fara að búa með henni, og brenndi öll laganámsrit sín, því hann ætlaði sér að verða bóndi, láta það á sannast, að draumórar Rousseau's um hið upphaflega ástand mannsins gæti orðið meira en einber hugarburður, og starfa að heillum alþýðu. Vera má og, að hann hafi hætt við laganámið við það að hugleiða, að ekki er hægt að koma nýrri skipun á fyrirkomulag þegnfélagsins með einum saman lagaákvæðum, sem aldrei verða öðruvísi en eins og grindurnar utan um lífið, en ekki lífið sjálft. Hann hefir samið rit um »löggjöfina og barnamorð«, og má vera, að störf hans um þetta leyti hafi gefið tilefni til þess; í þessu riti fer hann því fram, að slík mein mannlegs félags eigi sér svo djúpar rætur, að ekki sé hægt að uppræta þau með öðru móti en því, að hagir og kjör lægstu stéttanna sé bætt svo, að það verði mögulegt, að hinir æðri kraptar mannlegrar náttúru nái hjá þeim þroska og viðgangi. »Allar göfuglegar tilfinningar«, segir hann, »deyja út hjá þessum vesalingum, sem verða að bera þunga svívirðingarinnar æfilangt, svo að aldrei fyrnist«. Í því riti fer hann og fram á það, að úr lögum sé numið allt ófrelsi bænda, allar vanvirðandi hegningar og líflát.

Árlangt kemur hann sér fyrir til að læra sveitabúskap, og ímyndar sér, að hann geti orðið fullnuma í því á ekki lengri tíma, og er hinn hróðugasti af því, hvað hann verður útitekinn og harðhentur. Síðan fær hann sér peninga til láns hjá kaupmanni, kaupir fyrir þá lélegan landskika, sem

hann ætlar að bæta með jarðarmerg, og kvongast svo, þegar hann hefir þrjá um tvítugt, þrítugri konu. Móðir konu hans hafði sagt við dóttur sína, þegar hún fór að heiman: »Þú verður sjálfsagt að sætta þig við vatn og brauð.« Pestalozzi var áhugamaður hinn mesti við búskapinn, en samt fór allt út um þúfur, það er hann vildi nýtt fyrir berast; var það bæði fyrir það, að hann vantaði dyggt fólk sér til hjálpar, og hitt, að hann var hvorki verkséður né hagsýnn og ráðdeildarsamur, og auk þess höfðu bændurnir í kring um hann ama á honum fyrir nýbreytni þá, er hann vildi taka upp. Kaupmaðurinn heimti aptur fé sitt, og þá stóð Pestalozzi uppi tómum höndum, félaus með engu lánstrausti, og var ekki svo mikið, að hann væri búinn að koma upp íbúðarhúsi yfir sig á þessum hrjóstrum, er hann hafði keypt sér til ábúðar. Þegar hann er 29 ára gamall, skrifar hann eptir 6 ára búskap: »Það sem ég hafði gert mér fegurstar vonir um, vonina um það, að fá komið einhverju miklu til leiðar, er væri blessunarríkt öllum umhverfis mig, er sjálfur sæti á friðsælu og rólegu heimili, sú von er mér nú alveg horfin«. Svo hugkvæmist honum það, að reyna að ráða bætur á fátækt þeirri, sem væri í mannlegu félagi, ekki með fátækrastyrk—»miskunnar« eða »gustuka-meðulum«, sem hann kallaði,—ekki heldur með ölmusugjöfum og velgjörðum einstakra manna, sem hann taldi verða til þess að búa til ölmusumenn og skrópalóma, heldur með því að láta ná framförum og þroska hæfilegleika þá, er búa í hverjum manni, eins hinum fátækasta. Hann sendir til »vina mann-

kynsins« nákvæma lýsingu á því, hvernig hann hugsi sér að gera jörð sína, »Nýjabæ«, að stofnun, þar sem fátæk börn að sumrinu væri vanin við jarðyrkjustörf, en að vetrinum við handavinnu, til þess að þau við vinnuna næði að þroskast að skilningi, siðgæði og trúrækni, og á þessu fjölmenna heimili átti að vera drottnandi sú kærleiksgnótt, að hjörtu barnanna næðu við hana að ylna og örvast til góðs. Þetta hafði engum áður hugkvæmzt, og fyrir bragðið er nú Pestalozzi allt í einu orðinn »eins og annar konungur í uppeldisfræðinni«; til þess að koma stofnuninni á fót, er skotið saman ærnu fé, og áður en langt um líður er hann búinn að smala saman á heimili sitt hér um bil 50 fátækum börnum, sem hann hirti af götu sinni og hreif frá eymd og volæði, til þess að þau hjá honum mætti fá löngun til þess að vinna, og verða dugleg til vinnu. Frá morgni til kvölds var hann sífellt innan um barnahópinn, og »lifði sjálfur eins og húsgangur, að hann fengi styrkt húsgangana til þess að lifa eins og menn«. En mörg af börnunum voru orðin gjörspillt af sínu fyrra lífi; þau voru löt, matvönd, heimtufrek, og opt var það, að foreldrar þeirra ólu upp í þeim ósómann, og stæltu þau upp móti Pestalozzi, sem þó opt sjálfur sætti sig við að éta skemmdu jarðeplin, til þess að börnin gæti fengið þau góðu. Yfirvöldin styrktu hann heldur ekki eins og skyldi; sum börnin struku, og hann fékk engu við ráðið; sannaðist það nú sem optar, að honum var lítt sýnt um framkvæmdirnar, þótt nóg væri kærleikslundin og hugvitið mik-

ið, enda vantaði hann mjög svo stillingu og reglusemi og ráðdeild hversdagslega. Skuldir söfnuðust á hann æ meir og meir; kona hans lét arf sinn upp í skuldirnar, og með stillingu sinni og kjarki reyndi hún til þess að kljúfa fram úr vandræðunum; en árið 1780, þegar uppeldisstofnun þessi hafði staðið í 5 ár, þá var ekki annars kostur en að láta börnin hverfa heim aptur til foreldra sinna, og hætta við stofnunina. Fjárframlögunum var þannig eytt til ónýtis, traustið á Pestalozzi orðið að engu; en hann hafði styrkzt í trúnni á það, að hugmyndir sínar um uppeldið væri sannar og réttar, og það því fremur, sem hann kannaðist fúslega við það, að það sem olli því, að honum ólánaðist með uppeldisstofnunina, voru sjálfs hans glappaskot.

Og nú hlaut hann að kúra einn sér í stóra íbúðarhúsinu sínu, og hafði opt og einatt ekki annað til matar, en þurt brauð og vatn við því; en það tók hann þó sárast, að því nær allir vinir hans sneiddu hjá honum, og töldu það líklegt, að þar að mundi reka fyrir honum, að hann annaðhvort kæmist á sveit, eða yrði vitfirringur. En hugur hans reikaði víða, og honum hugkvæmdist margt það, er gróf svo um sig hjá honum, að hann í einveru sinni fór að verða rithöfundur, og hafði hann þó í þrettán ár ekki litið í bók, og gat varla skrifað eina línu gallalaust. Það sem lék í huga hans, þar sem hann var á reiki út á víðavangi, ýmist eins og utan við sig, eða þá talandi hátt við sjálfan sig með undarlegu látbragði, svo að hann varð sumum að athlægi, en aptur aðrir aumkvuðust yfir

hann — það varð á kveldin að ritum, og má á þeim sjá votta þess, hvernig hugsanir hans betur og betur skýrast, og ekki bera þau rit hans síður vott um hans fölskvalausa mannkærleika, sem er því meiri, sem sá er lítilsigldari og á færri að, er í hlut á. Í sundurlausum hugsunum, í dæmisögum og ritgjörðum, í viðræðum og frásögum er hann eins og að biðja sér hljóðs og fá menn til að gefa gaum að því, er hann hafði sett sér fyrir mark og mið, sem var það, að bæta hagi alþýðu, og þessu heldur hann áfram, í samfleytt 18 ár, er hann verður að bíða. Um hríð gaf hann út vikublað mjög fjörugt og fyndið og tilfinningaríkt. Þegar hann minnist fornra rauna sinna, segir hann: »Sá maður, er leitar ástar, en finnur enga, hlýtur að eldast snemma«. (Samanber: »Hrörnar þöll sú er stendr þorpi á, hlýr-at henni börkr né barr; svá er maðr sá, er manngi ann, hvat skal hann lengi lifa?«). Trúarskoðun hans er einkar gagnort og skorinort lýst í þessari setning eptir hann: »Fyrir menn er kærleikurinn hin eina sanna guðsþjónusta.« Kærleikurinn á alstaðar að komast að hjá honum. Sambandið á milli foreldra og barna á að gefa úrlausn þess, hvernig lífið eigi að skipast í öllu tilliti. Guð gagnvart mönnunum er faðirinn gagnvart börnunum sínum, og á sama hátt stjórnarinn gagnvart þegnunum, yfirvöldin gagnvart borgurunum, presturinn gagnvart söfnuðinum, herragarðseigandinn gagnvart leiguliðunum, húsbændurnir gagnvart hjúunum, iðnaðarmeistarinn gagnvart verkamönnum sínum, auðmennirnir gagnvart fátæklingunum, þegnfélagið gagnvart óbótamönnun-

um, allt á þetta að vera eins og faðirinn er gagnvart börnum sínum. Hann segir: »Þar sem í anda þjóðarinnar og stjórnarinnar vantar sannan föðuranda og sannan barnaanda, þar getur hvorki verið sannur kraptur hjá stjórninni né sannarlegt frelsi. Hið »upplýsta« föðurlega einveldi 18. aldarinnar kemur bezt heim við skoðun hans; einveldi, sem takmarkast eingöngu að því leyti, sem »réttindi stjórnendanna byggjast á skyldum þeirra. Þegar skyldurnar ekki eru uppfylltar, þar verður helgi réttindanna einber hugarburður eða skuggi.«

Einkum var það þó eitt af ritum hans, er af nýju gerði hann frægan. Það var sveitasagan »Ljónharður og Geirþrúður«. Einn af vinum hans hafði sagt við hann, að það væri í honum efni í skáldsagnasmið; hann fór þá að bera við að stæla eptir frakkneskum skáldsögum, en varð ekkert úr því; aptur sköpuðust ósjálfrátt í huga hans myndir af lífi áþekku því, er hann sjálfur hafði bæði séð og reynt. Hann skrifaði eins og hann væri utan við sig kafla eptir kafla, og eptir fáar vikur var komin hjá honum mynd af lífinu meðal bænda í svissnesku þorpi—bæði heima fyrir og á veitingahúsum, með drykkju þeirra og dubli, brögðum og blótsyrðum; hreppstjórinn er þar sérdrægur og gerir hann hvorttveggja að féfletta bændurna eg spilla þeim. Innanum siðleysið, ofdrykkjuna og rósturnar er svo lýst Geirþrúði, konu Ljónharðs múrsmiðs; hún er öflug stoð síns þreklitla manns, hún er ástrík móðir barna sinna og elur þau upp mjög skynsamlega. Til þess að fá spornað við spillingunni í þorpinu leitar hún lið-

sinnis til herragarðseigandans, sem er ungur maður, en lætur sér annt um landseta sína, eins og hann væri faðir þeirra. Hann og presturinn þar í sókninnni, sem er maður vel að sér og valmenni, verða nú samtaka um það, að reyna að koma lögun á það, sem aflaga er farið. Þá komast upp klækir hreppstjórans og hann fær makleg málagjöld. Móðurtilfinning Geirþrúðar hefir kvatt fram hina réttu krapta og greitt götu til þess, að manneðlið undir föðurlegri handleiðslu geti sýnt betri og göfuglegri hliðarnar á sér meðal bændalýðsins. Merguriun málsins í allri bókinni er þessi: Ég vil fela mæðrunum á hendur menntun þjóðanna. Þegar hann var að lýsa Geirþrúði, hafði hann tekið sér til fyrirmyndar vinnukonu, sem á mestu baslárum Pestalozzis hafði verið hjá þeim hjónum eins og önnur bjargvættur — líkt og Babeli hafði verið á æskuárum hans—, því með dugnaði sínum og ráðdeild, kjarki sínum og þreki gat hún komið á þrifnaði á heimili hans, og séð fyrir hollu viðurværi hjá honum.

Á svipstundu varð Pestalozzi frægur maður fyrir sögu sína. Hún var prentuð í alþýðublöðum og almanökum. Stórmenni höfðu hann í hávegum, ýms félög sendu honum þakklætisbréf og virðingarmerki. Stjórnir ýmsra landa fóru að skrifast á við hann, og það ætlaði að fara að rætast, sem einn af æskuvinum hans sagði við konu hans: »Ef ég ætti ríkjum að ráða, þá mundi eg ráðgast við Pestalozzi um allt það, er snertir sveitalýðinn og umbætur á högum hans, en aldrei láta hann fá til umráða eyrisvirði.«

Svo gýs upp frakkneska stjórnarbyltingin. — Pestalozzi finnst hún vera herklukka, er hringi til nýrrar aldar. Og hvernig gat honum annað fundizt, »þegar hann hugleiddi einveldiskröfur konunganna«, þegar hann hugleiddi einveldi Loðvíks 14., »sem fyrir því, að hann var smurður krýningarviðsmjöri, heimti sér réttindi guðs og hneppti þessa heimsálfu í þá ánauð, að hvorki Tyrkir né Svertingjar mundu hafa látið þjá sig svo«. Hann segir enn: »Þessi mikli sjónarleikur vorrar aldar er hugvekja, er náttúran gefur; væri betur að konungarnir heyrðu hana og þjóðirnar skildu hana«. Og þegar stjórnarbyltingin er búin að ryðja sér til rúms í Svisslandi og gera það að »einu óskiptilegu lýðveldi«, þá verður hann vonaröruggur og segir: »Fagna þú, föðurland mitt; ský villunnar eru rofnuð, kraptur þinn er yngdur upp. Frakkland tekur þig sér í faðm sem jafnborna systur.« Hann finnur það, að nú þarf hann ekki lengur að bíða; nú er uppskerutíminn þegar í nánd; fáum dögum eptir að byltingin er komin í kring, segir hann: »Ég ætla mér að verða skólameistari«, og kaus hann sér þannig það hlutverkið, er hann taldi sér hægast að inna af hendi, þegar fara ætti að endurskapa landslýðinn.

## III.

Í maímánuði 1798 skrifar Pestalozzi til eins af ráðgjöfunum, og býður stjórninni þjónustu sína, með lýðvaldshollri kveðju, og af því hann er sannfærður um, að umfram allt þarf föðurlandið verulegra umbóta á uppfræðingunni og skólunum fyrir

þá sem lægst eru settir meðal alþýðu. Hið fyrsta, sem þörf var fyrir, voru þá skólakennarar; var Pestalozzi því spurður að því, hvort hann gæti ekki stofnað kennaraskóla. En hann vildi fyrst reyna í barnaskóla, hvernig tiltækist með það, sem hann hafði hugsað sér og sumskostar reynt, og lagði hann það til, að stofnaður væri skóli áþekkur þeim, er hann hafði haft á Nýjabæ, og talað um í »Ljónharði og Geirþrúði». Þorpunum þar í grenndinni átti að gefast kostur á að senda börn til þessa nýstofnaða skóla, og ungir menn áttu þar að temja sér þá list að segja til, og svo átti ríkið smásaman, eptir því sem þessi ráðagerð reyndist, að koma á fót fleiri og fleiri slíkum stofnunum, þar sem börn fátækustu foreldra fengi það uppeldi, að þau mætti verða atorkusamir og sjálfstæðir borgarar. Ráðherrann lét sér skiljast, að það jafnrétti borgaranna, er stjórnarbyltingin hafði lögleitt, mundi ekki fá staðizt, nema þeir að efnahagnum til væri sjálfstæðir menn, og aðhylltist hann því tillögur Pestalozzi.

En hvar átti þessi stofnun að vera? Meðan verið var að velta þessu fyrir sér, gerðist út um það sjálfkrafa. Pestalozzi var þá sem stóð stjórninni liðsinnandi í ritum sínum, og var það mikilsvert, »því hann hafði opt með góðum árangri talað við sína ólærðu meðborgara, og þó talað svo, að þeir sem bezt voru menntaðir, vildu meira en fegnir heyra hann». Meðal annars ritaði hann um þessar mundir áskorun til þeirra fylkjanna, sem enn ekki höfðu samþykkt stjórnarskipunina. En þau vildu með engu móti þýðast hið nýja skipu-

lag. Kaþólsku prestarnir kölluðu Frakka kirkjuránsmenn, og kváðu þá saurga alla helga dóma, og æstu þannig landslýðinn upp á móti þeim, svo að hann vildi verja þeim landið, en urðu þó ofurliði bornir, þegar stjórnarherinn sótti að; drap hann niður karla, konur og börn, brenndi allt og bældi, en munaðarlaus og athvarfslaus börn flæktust um húsnæðislaus, svo að enginn sinnti. Stjórnin réð því af að setja á stofn uppeldishús í borginni Stanz, og kaus Pestalozzi til þess að veita því forstöðu. Hann iðaði allur í fjöri. »Ákefðin í mér eptir því, að fá nú að byrja á því, sem eg alla æfina hafði þráð, mundi hafa fengið mig til að byrja hæst uppi á fjöllum, mér er nær að segja þó mig hefði vantað bæði eld og vatn, ef mér að eins hefði verið leyft það að byrja». Og til konu sinnar skrifar hann um þessar mundir: »Ef þú átt mann, sem ekki hefir verið ranglega dæmdur, heldur hefir unnið til fyrirlitningar þeirrar, sem honum almennt er sýnd, þá eigum við enga viðreisnarvon. En hafi eg verið ranglega dæmdur, og sé eg maklegur þess, sem sjálfur eg hygg, þá getur þú átt von á því, að eg bráðum hafi nóg úrræði. En hafðu nú hægt um þig; hvert orð frá þér særir hjarta mitt. Þú hefir nú haft biðlund í 30 ár; bíddu nú enn hálft misseri».

Það var þá farið að gera að nunnuklaustri einu, svo að hægt væri að koma þar fyrir 80 börnum. Þau komu áður en húsið var fullgert, voluð og vesöl og útsteypt í kláða, svo að þau gátu varla skriðið, með sárum í höfðinu, lepparnir þeirra morauðir í lús, ekkert nema skinnið og skrapandi beinin, gul

á litarhátt, skæld í framan, augun á flótta, ennið í hnyklum, sum blygðunarlaus og spillt, vön því að lifa á aníkjum og bónbjörgum, sum orðin kjarklaus og tortryggin, sum kveifaraleg og heimtufrek, öll löt og fáfróð, og því alveg óvön að beita andlegum og líkamlegum kröptum sínum, og tæplega tíunda hvert af þeim þekkti stafina; þannig lýsir Pestalozzi börnunum, sem hann átti að fást við. En hann treysti manneðlinu, er lægi á botninum hjá þeim, þrátt fyrir alla spillingu þeirra, og hann þóttist viss um það, að hann gæti haft uppi á því með því að búa saman við börnin á líkan hátt og foreldrar búa saman við börn sín heima fyrir. »Frá því fyrst á morgnana og þangað til seinast á kvöldin ætlaði eg að láta börnin mín sjá það framan í mjer, að þau voru mér eins og hjartgróin, að eg lét til mín taka allt það, er var þeim til yndis eða ánægju. Eg var allan guðslangan daginn því nær einn á meðal þeirra. Allt það sem þau þágu af góðu, hvort það var heldur til sálar eða líkama, kom frá minni hendi. Hver hjálp og aðstoð og hver tilsögn, sem þau fengu, kom beinlínis frá mér. Hönd mín lá í hendi þeirra, augu mín horfðu í augu þeirra. Eg grét með þeim og eg brosti með þeim. Þau voru út úr heiminum, þau voru út úr Stanz, þau voru hjá mér, og eg var hjá þeim. Matur þeirra og drykkur var minn matur og drykkur. Eg hafði ekkert, ekkert heimilisfólk, enga vini, enga liðsmenn hjá mér; eg hafði ekkert nema þau. Þegar þau voru heilbrigð, var eg mitt á meðal þeirra, þegar þau voru veik, sat eg hjá þeim. Að kveldinu fór eg seinastur að hátta, að morgninum

fór eg fyrstur á fætur». Bæjarmenn höfðu ýmugust á Pestalozzi; bæði var það að hann var sendur af stjórninni, sem allir hötuðust við, og var auk þess ekki kaþólsku. Embættismenn, sem annars voru honum og stjórninni hlynntir, létu það á sér skilja, að þeir væru smeikir um, að þessi fyrirætlan mundi naumast lánast, »þar sem Pestalozzi hefði tekið upp á því að koma öllu í kring einn síns liðs, nema hvað hann kynni af hafa styrk af börnunum, og engin ráðaætlun gjörð um neitt». En Pestalozzi kvaðst ekki þekkja neina ráðaætlan aðra en þá, er blátt áfram lægi í því, að börnin hefðu trú á því að hann vildi þeim vel; og hann vildi ekki þekkja neina aðra. Að vísu þóttist hann opt í vandræðum með að kljúfa fram úr erfiðleikunum, þar sem þeir, er næstir stóðu, bæði misskildu hann og lètu hann kenna kala af sér; en allt um það taldi hann það víst, að áður en vorsólin hefði þítt snjó af fjöllum, mundu menn ekki geta þekkt börnin hans aptur; og að tveimur mánuðum liðnum skrifar hann svolátandi skýrslu til stjórnarinnar: »Erfiðleikarnir við tilsögnina jafnframt öðrum störfum minnka dag frá degi; börnin venjast smámsaman við reglusemi og ástundun».

Fyrst framan af voru þessir vesalingsflökkukrakkar að smáveikjast, og sumum brá til síns forna siðleysis; en það fór brátt af, og úr því lifðu þau saman í svo miklum friði og samlyndi, og sýndu hvert öðru svo mikla hjálpsemi, að teljast mátti fágætt meðal systkina. Hann settist undir þau, strauk hrukkurnar af enninu á þeim og sagði við þau: »Viljið þið nú ekki einhvern tíma, eins og

eg, lifa meðal volaðra aumingja og ala þá upp og gjöra þá að siðuðum mönnum?»

Um þetta leiti brann bærinn Altdorf; þá safnaði Pestalozzi börnunum sínum um sig og sagði við þau: »Nú er Altdorf brunnið; það er allbúið, að nú sem stendur sé þar um hundrað börn húsnæðislaus, klæðlaus og matarlaus. Viljið þér nú ekki biðja vor góðu yfirvöld um að mega taka 20 af þeim hingað til vor?» Börnin komust við og sögðu óðara: »Jú, það skulum við gjöra». En Pestalozzi sagði við þau: »Gætið að því, hvað það er, sem þér biðjið um. Hérna á heimilinu er ekki mikið um fé, og það er óvíst, þótt þessi fátæku börn bættust á oss, að vér fengjum meira en það sem vér höfum fengið. Það getur því farið svo, að þér þeirra vegna verðið að vinna meira fyrir tilsögninni á yður, fáið minna að eta, og verðið auk þess, ef til vill, að miðla þeim af fötum yðar. Biðjið því ekki um börn þessi, nema þér viljið leggja allt þetta í sölurnar þeirra vegna». Til þess að hann væri viss um, að þau hefðu skilið það sem hann sagði við þau, lét hann þau hafa það eptir. En börnin héldu fast fram því, sem þau höfðu beðið um. Á þennan hátt vakti hann tilfinningar þeirra, og lét þau svo temja sér það, að sigrast á sjálfum sér. Opt lét hann þau vera sér til hjálpar við tilsögnina. Það barnanna, sem var komið dálítið lengra en hin, settist meðal hinna, er skemmra voru á leið komin, og kenndi þeim það sem það kunni. Sú var aðalregla Pestalozzi, að börnin ætti að kunna til fullnustu allt sem þau lærðu, hvað lítilfjörlegt sem það var, og aldrei kom-

ast upp á það að týna neinu niður, þannig að þau gleymdu neinu orði, sem þau væri búin að læra, eða skrifuðu nokkurn staf lakara en þau áður hefðu gjört. Ef þeim varð þetta, var hann óvægur og hegndi þeim.

En frakkneskur her óð aptur yfir þetta bygðarlag; klaustrið var gjört að sjúkrahúsi fyrir herinn. Menn neyddust því til að senda börnin burt, þau til foreldra sinna, sem foreldra áttu á lífi; tuttugu ein urðu eptir. En svo mikið hafði Pestalozzi reynt á sig, að hann fékk blóðspýting, og varð að fara að heilsubrunni upp til fjalla; «það var eins og sker úti í reginhafi, er eg hvíldi mig á, áður en eg legðist leñgra — eg gat ekki lifað án þessa míns starfs», segir hann í brjefi til vinar síns.

## IV.

Hann fór aldrei aptur til Stanz. Menn sögðu það upp í opið geðið á honum, að hann væri fífl og draumóramaður; honum kynni reyndar endur og sinnum að hugkvæmast eitthvað skynsamlegt, en aldrei yrði neitt úr neinu fyrir honum; hann hefði aldrei stöðvun við neitt lengur en í mesta lagi missirið. Sá eini, er studdi mál Pestalozzi, var ráðherra sá, er átti að sjá um listir og vísindi, en hann gat eigi yfirbugað mótstöðuna gegn honum. Að fám vikum liðnum kom Pestalozzi aptur frá heilsubrunninum, og útvegaði þá ráðherra þessi honum bústað í höllinni í smáþorpi því, er Burgdorf heitir, og gerði hann að undirkennara við bændabarnaskólann í þorpinu taldi ráðherrann

Pestalozzi þar vel settan til þess að kennsluaðferð hans næði að útbreiðast erlendis, einkanlega í Þýzkalandi. Skólameistarinn í skóla þessum var skóari; ekki hafði hann nema eitt herbergi, þar sem hann og Pestalozzi áttu að segja til 73 börnum; Pestalozzi var hinn kappsamasti, svo að skóaranum þótti nóg um, með því hann var hræddur um, að Pestalozzi mundi bola sig frá embættinu, og fór skóarinn því að láta þær sögur berast út, að Pestalozzi væri hvorki lesandi né skrifandi, kynni ekkert að reikna, það væri ekki svo mikið að hann kenndi börnunum fræðin. Loksins æsti hann feður barna þeirra, er í skólann gengu, til þess að afsegja það, að börnin sín væri höfð til þess að reyna á þeim sérvizkuna úr honum Pestalozzi; borgurunum væri guðvelkomið að láta hann bera niður á börnunum þeirra með nýmælin. Pestalozzi var því fengin kennarasýslan við smáskóla einn, er kona stóð fyrir, þar sem kennt var að skrifa og lesa, og þar átti hann að halda áfram tilraunum sínum. Hann þóttist nú genginn úr skugga um, að sú alþýðuuppfræðing,sem þá var til, væri »kviksyndisfen»,og að það þyrfti að taka alveg nýja stefnu með alla alþýðukennslu í þessari heimsálfu.

Frá því kl. 8 að morgninum og þangað til kl. 7 að kveldinu var hann við kennsluna, með fárra stunda hvíld; börn, sem ekki þekktu stafina, lét hann heyra hljóð og hafa þau eptir, og sjálf sundurgreina hljóð, sem urðu æ erfiðari í framburði; hann lét þau taka eptir götunum og rifunum á veggfóðrinu í skólastofunni og lýsa þeim; hann fékk þeim töflur, sem var skipt í reiti, og í hverj-

um reit tiltekin tala af punktum, til þess að þau gæti lært að leggja saman og draga frá áður en þau þekktu tölustafina. Í sveita síns andlitis skrifaði hann heilar bækur fullar af atkvæðum og tölum, til þess að finna einföldustu undirstöðurnar til að byrja á, og til þess ekki þyrfti að hlaupa á neinu. Hann gáði ekkert að því, hvað tímanum leið; hann afskamtaði ekki tilsögnina eptir stundum; hann hélt stundum áfram í 3 stundir með það sem hann hann byrjaði á að morgninum; stundum var hann orðinn bæði þreyttur og hás á að hrópa áður en kl. var orðin 11, því opt voru börnin honum fjarska erfið; þau hlupu jafnvel burt í óleyfi. Eptir 8 mánuði var opinbert próf haldið í skólanum. Og nú sannaðist það loksins, að kennsluaðferð hans var afbragðsgóð; yfirvöldin gáfu honum þann vitnisburð, að hann hefði sýnt það, að hann hefði lag á því, að vekja hæfilegleikana hjá hinum yngstu börnum, og börnum, sem væri hin ólíkustu að gáfnafari, og láta þau taka framförum, og það með svo auðunninni aðferð, að hver móðir eða enda hver skynsöm stúlka gæti haft hana við heima fyrir meðan hún væri við vinnu sína.

Öndverðlega á árinu 1800 fór 24 ára gamall barnakennari, er Hermann Krüsi hét, með 26 börn frá Svisslandi austanverðu til Burgdorf, til þess að koma börnunum þar í fóstur á góðum heimilum. Pestalozzi kynntist brátt þessum framtakssama og viðkunnanlega manni, og stingur upp á því við hann, að þeir skuli gera félag með sér. Hann fékk léða höllina, sem hann bjó í, handa nýja

skólanum, og þar gengur allt í bezta lagi. Krüsi var hrifinn af eldhuga Pestalozzi, sem var 30 árum eldri, og dáðist að þeirri djúpsæi hans, að krefjast þess, að tilsögnin héldist í hendur við þroskun og framfarir hæfilegleikanna. Þessi skóli varð sí og æ ánægjulegri; það leyndi sér ekki, hvað börnin voru glöð, námfús og heilsugóð; fleiri og fleiri börn af öllum stéttum sóttu til skólans, og jafnframt varð að fjölga kennurum. Blöðin skiptust í sveitir í dómum sínum um þessa stofnun, og fór það eptir því, hvern flokkinn þau fylltu í stjórnmálum; því allir skildu það, að áhugi Pestalozzi á alþýðumenntun var sprottinn af ást hans á þjóðfrelsi. Í Svisslandi urðu ráðagjörðir hans mönnum hið mesta áhugamál, og erlendis fóru menn nú að veita þeim eptirtekt.

Haustið 1801 gaf Pestalozzi út merkilega ritið sitt um uppfræðinguna. Ritið heitir: »Um það, hvernig Geirþrúður segir til börnum sínum»; í því skýrir hann í bréfi til vinar síns frá því, sem sèr hafi reynzt, og hvað sér hafi hugsazt um fyrirkomulagið á skólum framvegis. Uppfræðingu þjóðarinnar, eins og hún þá var, telur hann alveg óhafandi. »Að því er eg hefi haft kynni af henni, þá hefir mjer virzt hún vera einna áþekkust stóru húsi, þar sem efsta loptið er ljómanda fagurt smíðað af hinni mestu list, en þar búa að eins örfáir menn. Á miðloptinu búa talsvert fleiri, en þar vantar stiga til þess að geta komizt þaðan skaplega upp á efsta loptið. Ef menn nú sýna sig í því að vilja klifrast þangað, einhvern veginn eins og

bezt gengur, þá eru þeir til bráðabirgða handleggsbrotnir eða fótbrotnir, eptir því, hvern útliminn þeir bera fyrir sig við klifrið. Niðri í húsinu býr svo óteljandi fjöldi af mönnum, sem hefir alveg sama réttinn til sólarljóssins og hreina loptsins, eins og hinir, er búa fyrir ofan; en það er ekki þar með búið, að þeir eru látnir eiga sig í skuggalegum, dimmum klefum, sem eru gluggalausir; þar á ofan eru augun stungin úr þeim, ef þeir dirfast að líta upp á við til þess að horfa á ljómann á efsta loptinu». Og svo er nú um sjálfa skólnveruna. Eptir að börnin 5 hin fyrstu ár æfi sinnar hafa í fullu frelsi tekið öllum áhrifum lífsins, þá er allt í einu »náttúran látin hverfa sjónum þeirra; þau eru eins og sauðkindur hneppt saman í daunillum klefum, þar eru þau stundum, dögum, vikum, mánuðum, árum saman miskunnarlaust fjötruð við það, að rýna í líflausa stafi, eintóma ólukku stafi, sem er æfi svo ólík þeirri, sem áður var, að það væri ástæða til að tryllast af því». Fyrst þarf með mestu fyrirhöfn að læra að þekkja stafina, þá er farið að stafa, þangað til það hefir lærzt að lesa; svo er lesið þangað til börnin geta þulið fræðin utanbókar hugsunarlaust. Þetta er öll spekin, er numin er í skólunum: ekkert nema orðin ein; á slíku nema menn það að þvaðra og þvætta um verkefnin, í stað þess að leysa úr þeim. Aptur á móti vill Pestalozzi láta kenna barninu að sjá og heyra, taka eptir og reyna, skipa niður áhrifum þeim, er það hefir orðið fyrir, láta það nema allt á þann hátt, er því er lagnastur, láta sálargáfur þess styrkjast og þroskast fyrir brúkun þeirra, láta

þekkinguna gjöra barnið leiknara og lagnara, gjöra barnið handgengið kennaranum, og láta tilsögnina mennta barnið.

Pestalozzi fann það nú, að hann fyrir þessa stofnun sína upp skar í fögnuði það er hann hafði með tárum sáð þessi löngu undirbúningsár. Stjórnin styrkti hann ekki að eins með því, að gjalda honum kaup og veita honum húsnæði. Hún gaf honum einkarétt til þess að selja bækur sínar, og studdi að útbreiðslu þeirra; við stofnun hans var tengdur almennur svissneskur kennaraskóli; í honum var á mánuði hverjum 12 barnakennurum veitt tilsögn í kennsluaðferð Pestalozzi. Útlendir menn gerðu sér ferðir þangað, og urðu forviða yfir því sem þeir sáu. Var það fyrst og fremst hinn óþreytandi Pestalozzi; hann var síhugsandi, og lifði meir í hugarheimi sínum, en þeim, sem umhverfis hann var; hann var fjörugur og ræðinn, þegar einhver hugmynd hreif hann, eða einhver mótbára; ýmist þaut hann í fumi herbergi úr herbergi, frá einum kennara til annars, eða þá hann gat setið liðlangan daginn á herbergi sínu við það að hugsa eitthvað eða rita; var hann því fegnastur, ef einhverjir þeir heimsóttu hann, er gæti látið víðar vitnast það, er hann hafði reynt; ósérplægni hans og greiðfýsi var takmarkalaus; hann hlaut að verða hvers manns hugljúfi með allri ákefðinni og óðagotinu, því þegar hann átti tal um eitthvað, sem honum var einkar hugleikið, þá talaði hann svo, að ómögulegt var að skilja hann; svo ótt ruddust á hann hugsanirnar; en af hinu fjörlega augnaráði

og síbreytilega svip á andlitinu mátti ráða í það, hvað hann fór. Og umhverfis hann var svo æskulýðurinn, er ólst upp við hið mesta frelsi, og ekki hafði neitt að segja af neinu viðhafnardekri í viðmóti. Þar stóð hver og sat sem honum bezt líkaði, en allir höfðu þó hugann fastan við það, sem verið var að kenna; samt var svo mikill hávaðinn hjá piltunum, þegar margir töluðu í senn, að heyra mátti í mörg herbergi. Pestalozzi var spurður að því, hvort börnin væru ávallt ánægð en hann svaraði: þau hafa allt það, er þau á hverri stundu þarfnast fyrir; vinnan samsvarar kröptum þeirra og óskum. Þau temja sér ýmsar aflraunir, fimleika og leiki milli þess að þau njóta tilsagnar, og til þess verja þau frístundum sínum. Hvað ættu þá börnin mín að telja sig vanta, og hvernig ættu þau að fara að verða ömurleg?

Þetta voru nú hans hversdagslegu störf, meðan hann sat í höllinni í Burgdorf; en jafnframt því tekur hann með miklum áhuga þátt í umræðunum um stjórnarhagi lands síns. Lagasetningin á að sjá borgið högum ókominna kynslóða, og til þess að hefja alla þjóðina í andlegu, siðferðislegu, hagfræðislegu, félagslegu og stjórnarfarslegu tilliti, heimtar hann fyrir því nýtt fyrirkomulag á þjóðmenntuninni, réttarfarinu, landvarnarskyldu og fjárráðsmennsku ríkisins. Hann vill hafa alþýðuskóla, þar sem þeir hæfilegleikar og kraptar mannsins, sem öllum eru sameiginlegir, geti náð framförum og þroska; hann vill auk þess hafa landbúnaðarskóla, verzlunarskóla og iðnaðarskóla, er efli kunnáttu í ýmsum greinum iðnaðarins. Réttarfarið vill

hann hafa svo, að fátækir menn eigi hægt með að ná rétti sínum, þótt við ríka sé að eiga, og að öllum veitist kostur á að neyta sem bezt krapta sinna. Sem undirstöður landvarnanna vill hann hafa stjórnfrelsis- og sjálfstæðistilfinninguna, og telur allt heillavænlegt skipulag á landvörnum ómögulegt, þar sem »allt atferli stjórnarinnar er síþrálát barátta við skýlaust yfirlýstan vilja þjóðarinnar, og í eðli sínu ekki er annað en opinber barátta gjörræðisins við réttinn, ofureflisins við lögin». Hann vill hafa fjárráðsmennsku svo lagaða, að hún afli ríkinu tekna þeirra, er það eigi má þarfnast, á þann hátt, að hver einstakur borgari finni sem minnst til þess og efli alla nytsama starfsemi, en leggi höpt á þá starfsemi, er að skaða má verða. Af landbúnaðinum vill hann létta þeim ranglátu sköttum, er aptra framförum hans. Haustið 1802 var hann kosinn í fulltrúaráð það — skipað 63 mönnum —, er fara átti til Parísar til þess að semja við stjórn Frakklands um stjórnarhagina í Svisslandi, þar sem »hið eina óskiptilega» lýðveldi var farið í mola, en fylkjasambandsskipulag var að komast á. Í þessu fulltrúaráði mælti hann fastlega á móti allri takmörkun á kosningarréttinum, og var hinn ötulasti formælandi ýmsra umbóta, er varðaði hag sveitalýðsins og meðalstéttarinnar. Samt fengu tillögur hans litlu áorkað, og þegar hann stakk upp á því, að í stjórnarskrána væri tekin upp fyrirmæli, er krefðust almennrar alþýðufræðslu, þá svaraði Napóleon Bónaparte, er þá var fyrsti ræðismaður, að hann gæti ekki farið að skipta sér af því, hvernig krökkum væri kennt að stafa. Lýðvaldsholli fram-

faraflokkurinn, sem Pestalozzi fylgdi, hafði nú beðið lægra hlut.

V.

Sumarið 1804 varð Pestalozzi að flytja burt úr höllinni í Burgdorf —; hún var ætluð yfiramtmanni til íbúðar. Honum var léð húsnæði fyrir skólann í höllinni í Münchenbuchsee, fyrst um sinn árlangt; þar höfðu fyrir skemmstu kláðasjúkir hermenn verið látnir gista. Stjórnin hætti nú að styrkja Pestalozzi, og heimtaði aptur fé það, er honum hafði verið greitt fyrirfram. En áður en hann færi frá Burgdorf, kom til hans frá býráðinu í Yverdon áskorun, er lagði fast að honum að taka höllina þar í bænum sér til aðseturs framvegis. Hann þá boðið; en með því að frakkneska er töluð í Yverdon og þar í grennd, þá hugsaði hann sér að hafa þyrfti skólann í tvennu lagi, annan fyrir þá, er á þýzku mælti, hinn fyrir þá, er mælti á frakknesku. Herragarðseigandinn Emanúel v. Fellenberg tók að sér stjórnina á skólanum í Münchenbuchsee; hann var maður á bezta aldri, þrekmikill, ötull, ráðsvinnur, en ekki tiltakanlega tilfinninganæmur; en mjög var honum hughaldið um alþýðumenntun. En þegar hann tók við stjórninni, þótti jafnt kennendum og lærisveinum hann beita ofmikilli harðúð og óbilgirni, og felldu sig illa við hann. Það var mála sannast, að þá skildi mikið, Pestalozzi og hann. Hjá Pestalozzi réði hjartað mestu, en skynsemin hjá Fellenberg. Hann var óvæginn í dómum sínum, og lét það á sér finna, að hann þóttist eiga mikið undir sér, og út

af því sló í marga rimmu með þeim, og var þá hvorugu megin hinu betra brugðið. Samt sættust þeir, en sættirnar stóðu sjaldan lengi. Loksins kyrrsetti Fellenberg alla innanhússmuni í skólanum; þá dró Pestalozzi af sér skóna, og spurði hann að, hvort það væri ekki sæmst, að kyrrsetja þá líka; sér væri hvort sem væri hægt að komast berfættum til Yverdon með börnum sínum og kennara. Þó fór svo að lokum, að þeir skildu nokkurn veginn skaplega.

Pestalozzi ætlaðist til, að kennslustörfum sínum væri lokið, þegar hann færi frá Burgdorf. Úr því ætlaði hann að lifa sem ritsmiður, til þess að skýra fyrir öðrum hugsanir sínar og fyrirætlanir, og gjöra þær sem flestum kunnar. Hann segir í bréfi einu: »Eg er nú ekki að hugsa um annað en að útvega mér einhverja kytru, og hvar svo sem eg flækist, þá ætti eg að geta fengið hana; þar sezt eg svo fyrir, og læsi að mér fyrir þeim sem koma, þangað til mér sjálfum þóknast að fara ofan»'. En 20 árin, þau er hann dvaldi í Yverdon, urðu honum ekki önnur eins friðaröld og hann hafði verið að smíða sér. Það fór einlægt meira og meira orð af honum, og eptir því jókst skólinn hans. Lærisveinar komu til hans, ekki að eins frá Svisslandi, heldur frá Þýzkalandi, Frakklandi, Rússlandi, Englandi og Ameríku. Prússneska stjórnin sendi unga kennara til Yverdon, til þess að þeir gætu komið kennsluaðferðinni hans á í prússnesku skólunum. Þegar Prússaveldi lá aflvana fyrir fótum Napóleoni, þá var það, að þýzki heimspekingurinn Fichte í Berlín hélt sínar frægu og

karlmannlegu ræður um endurfæðing þýzku þjóðarinnar; var þá opt svo, að trumbur frakknesku hersveitanna glumdu svo hátt á strætunum, meðan hann var að halda ræðurnar, að ekkert heyrðist til hans; í ræðum þessum benti nú Fichte á Pestalozzi, sem mann, er ekki að eins hefði lagt grundvöll til alþýðumenntunar, heldur til sannrar þjóðmenntunar. Og tæpast voru 20 ár liðin frá dauða Pestalozzi, þegar því nær öll menntun sú, er kennarar fengu í Prússlandi, var byggð á frumreglum þeim, er hann hafði verið að berjast fyrir í Burgdorf og Yverdon. Áður en prússneska stjórnin fór að gefa honum gaum, hafði Danastjórn sent kennara til hans, og margir mikils háttar menn og konur í Danmörku fóru að skrifast á við hann, og lagði hann ríkt á við alla þá, að eini vegurinn til þess að fá þjóðina uppfrædda væri sá, að vekja hjá henni áhuga á uppfræðingu. Mikils háttar menn af Englendingum leituðu vinfengis hans, og gerðust kennarar hjá honum; í ritling einum skoraði hann á almenning í Englandi, að sinna þeirri ráðagjörð sinni, að fela mæðrunum á hendur fyrstu tilsögn á börnunum; og um tíma var hann að hugsa um að láta snara á ensku ritum sínum. Spænska stjórnin stofnaði í höfuðborg landsins skóla, sniðinn eptir frumreglum Pestalozzi; nafn hans var á allra vörum; myndin af honum var prentuð hvað eptir annað til sölu. En heima í höllinni í Yverdon jukust á vandræðin svo fyrir Pestalozzi, að hann sá ekki fram úr þeim.

Milli kennara hans mynduðust smásaman gagn-

stæðar skoðanir, og út af þeim spunnust deilur, er hann vantaði bæði lagni og þrek til að þagga niður. Árið 1803 hafði ungur prestur, er hét Jóhannes Niederer, sagt af sér embætti og gengið Pestalozzi á hönd, með því að honum fannst sjálfsagt, að »meistarinn þyrfti að fá sér samboðna lærisveina«. Hann vildi koma vísindalegu skipulagi og samræmi á hugsanir Pestalozzi, sem sjálfur hann átti ervitt með að koma fyrir sig; en við það fjarlægðist hann æ meir og meir hinar óbrotnu reglur kennara síns, þær er hann hafði byggt á reynslu þeirri, er hann hafði fengið fyrir kynni sín við alþýðu; og svo flókið gerði Niederer það, sem hann var að fást við að skýra og gera skipulegra, að Pestalozzi botnaði ekki í neinu, svo að það fór margopt svo, þegar hann var spurður að, hvern skilning ætti að leggja í þetta eða þetta, að hann í hjartans einfeldni svaraði: »Já, ég er nú hættur að skilja sjálfan mig, en ef þér viljið vita, hvað ég hugsa og hvað ég vil, þá verðið þér að fara til hans Niederers.« Af því að hann hafði fengið vísindalega menntun, var það talið svo sem sjálfsagt, að láta hann sitja fyrir svörum, ef á prenti þyrfti að halda uppi svörum fyrir skólann. En með því Niederer var bæði bráðlyndur og kappgjarn, þá flæktist hann, og Pestalozzi með honum, í langvinnar deilur, er eyddu tíma þeirra og kröptum og talsverðu af fjármunum skólans. Auk þess var Niederer hinn ólagnasti, ef úr einhverju vöndu verkefni átti að ráða; honum fundust hártoganir og útúrsnúningar bezta ráð við öllum meinum. Honum alveg gagnstæður var Jósep Schmid; hann var bóndason og

kom til náms í skólann 15 ára gamall, en að tveimur árum liðnum var hann orðinn kennari; hann var hár og grannur og hraustlega vaxinn, með haukfrán augu; hann var þrekmikill og einbeittur; vinnukraptar hans voru óþreytandi; hann var framtakssamur og verkséður, kjörinn til þess að stjórna; einbeittur mótstöðumaður alls slóðaskapar og óreglu. Til þess að bæta úr brestum þeim, sem voru á fyrirkomulagi skólans, vildi hann koma á betra skipulagi, sparsemi og reglusemi, þótti það ekki nærri nóg, að láta við það sitja, að rita um það. En hinir kennararnir voru honum móthverfir; fóru þeir fyrst hægt, fýldu við öllum tillögum hans, en kváðu svo upp úr, þegar fram í sótti, og ónýttu allt fyrir honum, þótt Pestalozzi styddi mál hans, því honum fannst því meir til um þrek hans og dugnað, sem hann kynntust honum betur. Loks varð Schmid að fara frá skólanum. Um það segir Pestalozzi: »Mér var það sárasta hugraun, að þurfa að láta hann fara, því ég elskaði hann eins og lífið í brjósti mér. Hefði ég verið fertugur, þá hefði ég farið með honum og byrjað á einhverju, sem mér ekki hefði verið ofvaxið«. En nú varð ástand skólans verra og verra; nú var enginn sá, er með ráðdeild og þreki tæki stjórntaumana, heldur fór stjórnleysið og ráðleysan dagvaxandi, og skuld hlóðst á skuld ofan. Niederer var, eins og vant var, stríðlyndur og óvæginn, og gramdist Pestalozzi opt svo við hann, að hann réð sér ekki fyrir bræði, og eirði þá engum, og bað svo eptir á auðmjúklega um, að virða sér þetta til vorkunnar. Það var auðráðið, að ef nokkur ætti að geta bjargað

skólanum við, þá væri það Schmid. Jafnvel Niederer neyddist til þess að skrifa honum og þrábiðja hann um að koma aptur. Eptir 5 ára burtuvist kom hann aptur. Hann skipti verkum með kennurunum, og kom reglu á skólabúskapinn. Allir fundu, að stilling hans og staðfesta var mjög haldkvæm, og létu leiðast af honum, og Pestalozzi það því fremur, sem hann um þetta leyti missti konu sína, sem þá var orðin 76 ára, og hann ávallt unni hugástum frá því fyrsta að þau höfðu kynnzt, og sem hafði reynzt honum svo vel í öllu hans basli. En brátt fór aptur að brydda á mótþróa móti Schmid. Nokkrir kennararnir afhentu Pestalozzi harðort kæruskjal á hendur Schmid, þar sem þeir brigzla honum um »ráðríki hans, sem væri án auðmýktar, án kærleika, án sjálfsafneitunar«. Pestalozzi kallaði þá fyrir sig; hann lá þá rúmfastur og kvartaði sáran yfir þessu ósamlyndi heima fyrir hjá sér, og bað þá um frið; síðan lét hann Schmid lesa upp varnarskjal, tók í hönd honum, kallaði hann bjargvætt sinn, sem hann hvorki sagðist mega missa né vilja missa; og nokkrum mánuðum síðar fóru þeir allir burt, er undir kæruskjalið höfðu ritað. Niederer þótti lítið til Schmids koma, fyrir það, hvað hann var lítt lærður til bókarinnar, og sárnaði það því meir, að hann fann, að Schmid smásaman réð einn öllu. Hann var reyndar að streitast við að halda fram sínum skilningi á setningum Pestalozzi, en það kom fyrir ekkert. Pestalozzi skrifaði honum: »Vertu engill, vertu guð; það getur vel verið, þú skiljir rétt; en gerðu ekki meira úr mér en mann; láttu mig lifa og anda eins og

mér er lagið, eins og þú lifir og dregur andann, eins og þér er lagnast.« Auk þess urðu þeir svo missáttir út af fjárviðskiptum, og vissi enginn fyrri til en að Niederer kvaddi Pestalozzi á prédikunarstólnum, eptir guðsþjónustugjörð, er hann hafði framið í stóra salnum í höllinni, þegar skólabörnin voru fermd; hlaut það að særa Pestalozzi, að Niederer hafði þau orð um, að hann gæti ekki fengið það af sér, að breyta svo á móti betri samvizku, að hann léði sig til þess að kenna við skóla, sem ekki hefði lengur neitt af sönnum anda Pestalozzi. Árum sama stóð þetta rifrildri milli þeirra Pestalozzi og Schmids annars vegar, en Niederers og Krüsi hins vegar, og í mál fór það að lokum. Pestalozzi varð svo æfur, að honum lá við brjálun, og varð að flytja hann upp til fjalla, svo að svalað gæti um hann. Svo gusu upp nýjar óeirðir milli undirkennaranna; var þá reynt til þess að fá Fellenberg til þess að taka við stjórn skólans, því það var talið víst, að hann mundi fá miklu umráðið, svo mikils háttar maður, jafnduglegur og hann þá líka var. En úr þessu ráði varð ekkert, því Fellenberg krafðist þess, að mega einn öllu ráða, en því mótmælti Schmid fyrir hönd Pestalozzi; þótti höfðingsmanninum Fellenberg þetta svo mikil ósvífni af bóndasyninum Schmid, að hann lét fleygja Schmid út, og lagði hann síðan hlífðarlaust í einelti.

En Schmid leitaðist á allar lundir við, að bæta úr högum Pestalozzi. Hann samdi við þýzkan bókasölumann um prentun á öllum ritum Pestalozzi; hann fékk keisara, konunga og önnur stór-

menni til þess að styrkja til útgáfunnar, og við hana áskotnuðust Pestalozzi, er þá var orðinn 72 ára gamall, 36,000 krónur; hann varð grátfeginn gjöf þessari, og ánafnaði hann féð í ræðu, er hann hélt á afmælisdag sinn, til þess að grafast eptir hinum einföldustu meðulum til uppfræðslu og tilsagnar, og hvernig þeim yrði varið heima fyrir, og til þess að mennta kennara eptir þeim reglum og til þess að stofna einn eða fleiri reynsluskóla fyrir fátæk börn. Ræðu sinni lauk hann með þessum orðum: »Verið allir vottar að því, að andi æsku minnar, sá andi, hvers fyrsta blóm sprakk út í »Ljónharði og Geirþrúði«, og sem náði fullum þroska í »Hvernig Geirþrúður sagði til börnum sínum«, sá andi lifir enn í mér. Já, hann lifir enn í mér og ég lifi í honum, og mun lifa í honum til æfiloka«. Svo lifði hann nokkur ár í friði og velgengni. Schmid stjórnaði skólanum í Yverdon með mesta dugnaði; þar í grennd við var stofnaður skóli fyrir börn fátæklinga. Pestalozzi fór að sýsla við ný ritstörf.

En rifrildið og illdeilurnar höfðu komið óorði á skólann. Með vélum fengu óvinir Schmids því komið í kring, að stjórnin rak Schmid úr landi, þar eð hann væri útlendingur — hann var fæddur í Tyrol—; eptir 5 ár var hætt við fátæklingaskólann, þegar Pestalozzi vildi flytja hann að »Nýjabæ«, því þangað vildi ekkert af kennslubörnunum fara. Á 80. árinu varð Pestalozzi að hætta kennslustörfum sínum. »Við það þannig að þurfa að hætta, var mér sem ég sjálfur stytti mér aldur, svo sárnaði mér það«, sagði hann.

Hann lifði enn rúm tvö ár; var hann þau ár-

in að rifja upp fyrir sér sína liðnu æfi, og svo sí og æ að hugsa um fyrstu uppfræðsluna. Hann hafði þau árin heimili sitt á »Nýjabæ«, jörðinni sinni, og á hverjum degi skrifaði hann margar stundir, og tók sér þess á milli langar göngur. Einn af vinum hans bað hann að fara varlegar með sig, en fékk ekki annað svar en þetta: »Ég er heilsugóður eins og björn«. En svo fór undir hans hið síðasta enn á ný að syrta að til nýrra árása; en þá varð hann sjúkur, og þess sjúkdóms beið hann eigi bata. Tveimur dögum fyrir andlát sitt lét hann skrá skipan sína, og er þar þetta meðal annara orða: »Þess bið ég guð, að friður sá, er ég nú brátt mun finna, megi einnig gefa óvinum mínum frið. En hvernig sem um það fer, þá fyrirgef ég þeim. Ég blessa vini mína, og vona, að þeir með ástsemd minnist mín, þegar ég er liðinn, og eptir dauða minn, án þess að þreytast, helgi krapta sína því, að efnd megi verða á því, er ég alla æfi hafði viðleitni á að framkvæma«. Hann dó að morgni 17. d. febr. 1827.

Þar kvaddi heiminn maður, er hafði eldheitan óslökkvanda kærleik til smælingjanna í mannlegu félagi, og sem fyrir þann sinn kærleika hefir kveikt áhuga vorrar aldar á alþýðumenntun; hans djúpsæju og víðtæku hugsanir hafa verið teknar upp og fullkomnaðar af skólamönnum og uppeldisfræðingum í öllum heimsálfum, og gefið uppfræðslunni hennar rétta grundvöll, og beint henni í þá stefnu, sem hún á að hafa, sem er sú, að leiða til þroska og framfara alla óspillta krapta mannlegs eðlis.

# Sjálfs er höndin hollust.

---

Eystri-Patten var einhver hinn kyrrlátasti og friðsamasti bær í heimi. Bæri svo við, að hestur sýktis eða að fatlaðist við kú hjá einhverjum bæjarbúa, þá þóttu það allmikil tíðindi, og létu allir sig það varða. Ef sagt var, að komin væri upp auglýsing á póststofuhurðinni, mátti ganga að því vísu, að borgararnir skunduðu þangað hópum saman.

Það er því ekkert tiltökumál, þótt mönnum yrði heldur en ekki tíðrætt um, hvernig á því mundi standa, er majór Martt tók sjer bústað í Eystri-Patten þrjú sumur hvert eptir annað, án þess hann ætti þar nokkurn ættingja, eða að nokkur væri þar hermaður annar.

Jafnvel þeir, sem annars voru vanir að vera hinir allra fréttafróðustu, höfðu aldrei frætt menn á, hvernig á þessari nýlundu mundi standa. Reyndar höfðu þeir svo fjörugt ímyndunarafl, að þeir gátu leitt ýmsum sennilegum getum að því, hversvegna majórinn kynni svona vel við sig í Eystri-Patten; en þeir hikuðu þó við að gera almenningi þær heyrum kunnar.

Þeir hefðu nú reyndar ekki orðið í neinum vandræðum með, og þeir hefðu heldur ekki horft í það, að búa til einhverja sögu, og láta hana berast, ef um hversdagslegan náunga hefði verið að ræða; en það var ekki gott að vita, hvernig hann, hermaðurinn, kynni að taka því, ef hann kæmist

að slíku—, og um það var nú ekki að efast í þessu skúmaskoti.

Síðan í frelsisstríðinu, það er að segja í nærri því heila öld, hafði ekki sézt einn einasti hermaður í bænum, þangað til majór Martt sýndi honum þann sóma að taka sér þar bústað. Að sönnu höfðu einstöku hermenn slæðzt þangað á myndablöðum, og þó að þeir væri all-vígamannlegir, höfðu bæjarbúar látið þá óáreitta.

Bæjarbúum leizt því ráðlegast, að hlutast ekki til um hagi majórsins; þeir voru kátir og hreyknir yfir því, að hafa hann þarna lifandi fyrir augum sér. Það var fremur hörgull á karlmönnum í Eystri-Patten, að minnsta kosti á glæsilegum mönnum. Þeir, sem komnir voru á efra aldur, voru svo dauflegir, að engin ánægja var að horfa á þá eða látbragð þeirra; ungu mennirnir voru örfáir, því nýlega hafði allur þorri þeirra tekið sig upp og flutt vestur á bóginn.

Majórinn var maður hár vexti, herðibreiður, limaður vel, vel eygður og vel skeggjaður; þegar hann gekk um stræti bæjarins, skrýddur glæsilegasta einkennisbúningi, þótti öllum yndi á að horfa, nema nokkrum hinna yngri manna, sem voru hálfsmeykir um, að hann mundi, ef í það færi, verða þeim hlutskarpari hjá stúlkunum.

En það þurfti enginn að óttast majórinn. Þegar er hann í fyrsta sinn kom til bæjarins, keypti hann Rose Cottage, sem er rétt hjá höfuðbóli einu miklu, sem kennt var við eigandann, Wittleday. Majórinn var laus við herþjónustu á sumrin, og mátti þá heita að hann væri öllum stundum í aldin-

garði sínum í Rose Cottage; þar vann hann að öllu, sem með þurfti, og starfaði margt það, sem tignum mönnum vanalega ekki er títt. Stundum tefldi hann skák við gamla prestinn, sem hét Fischer, stundum reykti hann sjer pípu hjá póstmeistaranum, og ávallt kom hann, er honum var boðið til tedrykkju. Hann var jafn vingjarnlegur við alla kvennmenn, og fannst mæðrunum í bænum í fyrstunni þess vegna, að hann hlyti að vera giptur, og það sjálfsagt vel giptur. Samt reyndist það bráðum, að svo var ekki. Leið nú og beið; ekki gerði majórinn neina breyting á háttum sínum; hann var jafnhlýlegur við allar stúlkur, en ekki fremur við eina en aðra.

Það má geta því nærri, að ekki minnkaði vinsæld majórsins við það, að hann eitt sumarið kom með fjelaga sinn með sjer til Eystri-Patten, ungan mann og álitlegan.

Þessi ungi maður var lieutenant og hjet Dayson. Majórinn átti honum líf sitt að launa. Það atvikaðist svo, að Indíani nokkur, vel vopnum búinn, hafði einhverju sinni ráðizt á majórinn, sem ekki hafði þá vopna nema skammbyssu sína óhlaðna, og varð því undan að snúa. Dayson var nærstaddur og skaut Indíanann í tæka tíð. Hann varð brátt í mestu metum hjá kvennþjóðinni í Eystri-Patten.

Hviklyndi er jafneinkennilegt fyrir syndum spilltar höfuðborgir og siðuga smábæi. I Eystri-Patten var allt í einu hætt að tala um þessa tvo hermenn; það þurfti nú um fleira að hugsa.

Ekkjufrú Wittleday, sem átti hið mikla höfuðból Wittleday, var nú búin að vera ekkja í tvö ár. Það var farið að pískra um, að hún mundi vera orðin leið á sorgarbúningnum, að hún mundi bráðum gera þetta uppskátt með því að hætta að vera í svörtum fötum, og að hún ætlaði að halda stóreflis veizlu, er öllum bæjarbúum skyldi til boðið.

Það var allmikið um það talað, að það þótti miðlungi vel við eiga, að frú Wittleday — hún var ung og fríð — skyldi ekki ætla lengur að vera í sorgarbúningi; það þótti líka óhæfileg eyðslusemi, þar sem svörtu fötin voru naumast hálfslitin. En allir í Eystri-Patten voru á einu máli um það, að það ætti sjerlega vel við, að hún hjeldi veizlu.

Nokkrir af bæjarbúum, sem höfðu átt því láni að fagna, að borða einhvern tíma hjá Scott sáluga Wittleday, sögðu, að þar á höfuðbólinu væru hinir fágætustu og gómsætustu rjettir, sem til væri, óspart á borð bornir; þeir, sem hingað til ekki hafði auðnazt að koma þar, trúðu þessu svo fastlega, að þeir rjeðu sjer ekki, svo hlökkuðu þeir til.

Í þetta skipti hafði þó fótur verið fyrir fregninni. Það var tæplega liðinn hálfur mánuður frá því að fyrst fór að kræla á þessu, er hver einasti virðulegur húsfaðir í Eystri-Patten fjekk boðsbrjef, þess efnis, að frú Wittleday beiddi hann, ásamt konu og börnum, að láta svo lítið að drekka te hjá sjer næsta fimmtudagskvöld. — Undirbúningstíminn var stuttur; í bænum var að eins ein fatasölubúð og í henni fremur fátt af því, er með þurfti. En bæjarbúar ljetu höndur standa fram úr

ermum, svo allt var í lagi þegar veizlukvöldið kom. Það var fjölmennt í stofunum hjá frú Wittleday það kvöld; þar mátti sjá alla höfðingjana úr grenndinni — margir voru þeir ekki — og fjölda fólks; þar voru margir menn, sem reyndu til að vera sem kátastir og heimamannlegastir að unnt var, þó að frú Wittleday hefði hryggbrotið þá, síðan hún varð ekkja. Þeir báru það eins og hetjur.

Majórinn og lieutenantinn voru svo sem sjálfsagðir; þeir voru í einkennisbúningi, enda hafði frúin beinlínis mælzt til þess.

Majórinn hafði nokkrum sinnum, meðan maður hennar lifði, hitt frú Wittleday í samkvæmum í bænum. Eptir að hún varð ekkja hafði hann stöku sinnum komið til hennar. Um leið og hann nú heilsaði henni leiddi hann lieutenantinn fram fyrir hana og skýrði henni frá nafni hans og ætt; fór svo nokkrum fögrum orðum um það, hversu bæjarbúar mættu vera frúnni þakklátir fyrir það, að hún nú aptur vildi láta svo lítið að taka þátt í fjelagslífi þeirra; síðan heilsaði hann upp á kvennaþyrpinguna, sem stóð umhverfis, með kurteisum orðum, og var mörgu hýru auga rennt til hans í staðinn.

Nokkru seinna um kveldið gerði majórinn lieutenantinum bendingu; hann sat hjá frú Wittleday, og var fremur tregur í spori, er hann skyldi fjarlægjast hana; vingjarnlegt bros ljek um varir henni, og gerði það lieutenantinn ekki fóthvatari. Majórinn leiddi hann nú fyrir fjölda kvenna og ljet

hann kynnast þeim; þær voru mjög á ýmsum aldri og mjög misfríðar.

Hinum unga hermanni sárleiddist þetta; undir eins og honum gafst færi á, flýði hann, til þess að komast aptur til húsmóðurinnar. Rjett á eptir, er hún leit við til að svara öðrum manni, var þrifið í hönd lieutenantinum, og hann leiddur út. Boðsfólkið sat allt enn í kyrð og spekt, svo majórinn hafði tóm til að tala um fyrir lieutenantinum. Hann tók nú að ganga um gólf úti fyrir og leiddi lieutenantinn.

»Heyrðu, vinur minn, þú hegðar þér eins og kjáni.«

»Hvaða vitleysa, majór«, svaraði hinn ungi maður, og var auðsjeð að honum fjell þetta illa. »Hvernig getið þjer ætlazt til, að jeg geti fengið af mjer að vera allt kvöldið að masa við þessar skepnur skaparans?«

»Jeg ætlast heldur ekki til að þú skulir gera það, Friðrik; en þó þig ekki fýsi að spjalla mikið við þær, ættirðu samt að vera vingjarnlegur og skemmtinn. Þú dregur þig allt of mikið eptir frú Wittleday.«

»En í allra heilagra nafni!« mælti lieutenantinn, og var mikið niðri fyrir, »hvernig er annað hægt? Hún er öldungis töfrandi!«

»Þetta lízt fleirum enn þjer — mjer sjálfum jafnvel líka—, en þeir gera það þó ekki eins greinilega eins og þú, og það eins ókunnug og þið eruð hvort öðru. Þú mátt til með að stilla þig. Þú sjer prýðilega; farðu nú inn, seztu niður og vertu vingjarnlegur við einhverja af rosknu konunum;

jafnframt geturðu horft eins mikið á frú Wittleday eins og þú villt.«

Lieutenantinn hlýddi skipun yfirboðara síns, en það var auðsjeð á andliti hans, að honum var það mjög á móti skapi; hann var ungur og rjeð því ekki við drættina í andlitinu; ekki gat hann heldur hulið þá í skegginu, því það var lítt sprottið honum. Frú Wittleday gat naumast að sjer gert að brosa, þegar henni varð litið til hans, þar sem hann sat ýgldur á brún og brá, og einblíndi á hana með angurblíðu augnaráði.

Fyrst hafði majórinn gaman af að sjá til vinar síns, en bráðum fór hann að verða hræddur um, að menn mundu reka augun í útlit hans og augnaráð; gæti þá verið, að þeir, sem líkt var ástatt fyrir, færu að skopast að honum; það vildi hann fyrir hvern mun forðast. Hann tók það þá til bragðs, að biðja Fischer prest að færa frú Wittleday, þegar hann gæti komizt gegn um mannþröngina, sem utan um hana var, kveðju sína og afsökun; hann mætti til með að fara þá þegar. Hann tók vin sinn við hönd sjer og fór heim til sín.

»Mjer liggur við að óska að jeg hefði lofað Indíönunum að skella af yður höfuðleðrið, herra majór«, sagði lieutenantinn; »þjer hefðuð þá að minnsta kosti ekki rænt mig þeirri beztu kvöldstund, sem jeg nokkru sinni hefi átt — eða, rjettara sagt, sem jeg ætlaði að fara að eiga.«

»Ef svo hefði farið, þá hefðirðu naumast nokkru sinni dvalið eina einustu kvöldstund í Eystri-Patter, Friðrik», sagði majórinn hlægjandi; hann rjetti lieutenantinum um leið vindil .og kveikti

sjálfur í öðrum. »En í alvöru að segja, drengur minn, þú verður að gæta betur að þjer. Þú ert hingað kominn til þess að lifa þægilegu lífi hjá mjer tveggja mánaða tíma. Í fyrsta sinn, sem þú kemur hjer í samkvæmi, hegðar þú þjer svo, og það við konu, sem þú hefir aldrei fyr sjeð, að hún mætti, ef hún hefði ekki talsverða þekkingu á heiminum, halda, að þú værir bráðskotinn í sjer».

»Jeg er það! Jeg er bráðskotinn í henni!» gall hinn ungi maður við með ákefð. »Jeg ætla líka að segja henni það — það er að segja —: jeg ætla að skrifa henni til um það».

»Hægt og hægt!» sagði majórinn. »Hún mundi kunna því mjög illa. Jeg veit að þú hefir enga hugmynd um það, sem jeg nú ætla að segja þjer, en þjer er óhætt að trúa orðum mínum. Jeg skal fræða þig á því, að það hefir farið fyrir mönnum, svo hundruðum skiptir, eins og fyrir þjer; þeir hafa orðið öldungis frá sjer numdir, er þeir sáu hana í fyrsta skipti; hún hefir mjög vel vitað af þessu, en ekki hefir það truflað rósemi hennar hið allra minnsta. Fagrar konur vita það yfirburða vel, að þær gjöra karlmennina tuglaða; þær bera jafnaðarlega mesta virðingu fyrir þeim mönnum, sem eru svo hyggnir að hepta tungu sína, að minnsta kosti þangað til þeir eru orðnir þeim svo kunnugir, að afsakanlegt megi þykja, þó eitthvert fljótlega hugsað orð kunni að hrjóta manni af vörum». »Majór», sagði veslings Friðrik með lágri, nærri því aumingjalegri rödd; »haldið þjer — segið þjer mjer það hreinskilnislega, haldið þjer ekki að

mjer gæti tekizt að fá hana til þess að þykja vænt um mig?»

Majórinn horfði stundarkorn alvarlegur og heldur dapur í bragði á vindilinn, sem hann hjelt milli fingra sjer; loksins sagði hann mjög vingjarnlega:

»Jú, því ekki það, kæri vinur! En sýnist þjer nú rjett að reyna til þess? Þegar ástinni fylgir full alvara, þá er hún sama sem hjónaband. Heldurðu þú getir fengið það af þjer, að láta aumingja konu, sem búin er að missa manninn sinn, kveljast æfilangt á hverri stundu, að heita má, af þeirri hugsun, að nú sje, ef til vill, einhver ólukkans Indíaninn að rista höfuðleðrið af seinni manninum hennar?»

Lieutenantinn þagði, og reykti svo ákaflega, að ekki sá í andlit honum fyrir tóbaksreyk.

»Jæja», sagði hann, stökk upp og hamaðist til og frá um gólfið, eins og óarga dýr í búri; »jeg hef það nú svona: jeg skrifa henni til og legg hjarta mitt fyrir fætur henni. Það getur verið að það sje satt, sem þjer segið. Líkast til kærir hún sig ekki vitund um mig. Því skyldi hún líka gjöra það? En, hvað sem tautar, jeg skrifa henni — og svo fer jeg til herdeildar minnar. Mjer þykir það leiðinlegt, að gjöra mig hlægilegan í augum yðar, majór; það er af því að óvinurinn er um of yfirsterkur mjer. Jeg væri engu smeykari, þó jeg ætti að ganga einsamall móti heilum herflokk. Jeg ætla að skrifa henni á morgun. Jeg vil heldur að hún hafni mjer, en að nokkur önnur kona elski mig».

»Láttu það dragast svo sem hálfsmánaðartíma, ungi vinur», sagði majórinn. »Samkvæmt tízkunni verðum við að heimsækja frúna í næstu viku; þá geturðu kynnzt henni betur; jeg heyri sagt að hún sje mikið fjörug og ræðin. Það gæti líka farið svo, að þú kæmist að þeirri niðurstöðu, að ákjósanlegra væri fyrir þig að nota sumarleyfið til þess að heimsækja hana við og við, heldur en að þjóta í burtu, og sjá hana aldrei framar. Bíddu hálfan mánuð, eins og skynsömum, ungum manni samir».

»Jeg get það ekki, majór», anzaði unglingurinn. »En þjer, sem eruð alvanur hermaður, vitið þjer þá ekki, hvað fjandi óþægilegt það er, að verða að standa kyr í sömu sporum og bíða eptir kúlunum?»

»Jú, það veit jeg, drengur minn», svaraði majórinn með undarlegum málróm, og leit undan.

»Nú, öldungis eins verður ástatt fyrir mjer, ef jeg verð hjer, og fæ ekki að segja það sem mjer býr í brjósti».

»Láttu það dragast að minnsta kosti í viku», sagði majórinn.

»Þá það, látum það bíða vikutíma», sagði hinn ástfangni hermaður, þungur á svipinn. »Jeg býzt annars við, að mjer veiti ekki af þeim tíma til þess að koma saman brjefi, sem boðlegt sje öðrum eins engli». Hann kveikti á kerti og gekk til herbergis síns.

Majórinn andvarpaði, fór í sloppinn sinn og gekk út í garðinn.

»Aumingja Friðrik», tautaði hann við sjálfan sig í hálfum hljóðum og gekk spölkorn, ýmist fram

eða aptur. »Hann getur ekki beðið einn hálfan mánuð! Hvað ætli hann segði, ef að hann vissi, að jeg hef beðið í sjö, átta ár — ef hann vissi, að jeg varð eins fljótlega ástfanginn af henni og hann, og að jeg hef aldrei getað útrýmt þessari ást? Hvað skyldi hann gjöra, ef einhver tæki sig til og giptist henni allt í einu, rjett fyrir snjáldrinu á honum, eins og Wittleday gjörði, þegar jeg var að rembast við að finna upp ráð til þess að kynnast henni? Skyldi hann ekki álíta það heldur bjánalegt af mjer, að jeg þar á eptir við og við gjörði mjer ferð til Eystri-Patten, bara til þess að jeg gæti sjeð hana í svip — að jeg keypti Rose Cottage, einungis til þess að geta verið nálægt henni — að jeg hef dulið þetta eins og mesta leyndardóm, og að mjer, tvö síðustu árin, hefir fundizt jeg vera yngri en jeg í raun og veru er, af því að mjer kom til hugar, að svo gæti farið, að jeg á endanum næði í hana? Aumingja Friðrik! En, þegar öllu er á botninn hvolft, því skyldi hún þá ekki eiga hann? Það er aldrei að vita, upp á hverju kvennfólkið tekur; hann gengur líka miklu betur í augun heldur en jeg, sem farinn er að eldast. Ef svo fer, þá blessi guð þau bæði tvö, og sje mjer líknsamur, karlgarminum!»

Majórnum varð litið yfir um til hússins á Wittleday. Dyrnar stóðu upp á gátt. Það var auðsjeð, að hið síðasta af boðsfólkinu var að fara á stað. Húsmóðirin fagra stóð í dyrunum; geislarnir frá ljósafjöldanum ljeku um hina grannvöxnu, skrautbúnu konu. Hún sagði eitthvað við gestina, sem voru að fara, og hló lítið eitt við; það ljet

sem engilshljómur í eyrum majórsins. Svo var dyrunum lokað. Majórinn stundi þungan og gekk til herbergis síns.

Næsta vikan, það var ljóta vikan fyrir majórinn. Hann gaufaði eins og hann var vanur í aldingarði sínum, og blístraði eins hann var vanur við vinnu sína; en nú reif hann hvern blómknappinn á fætur öðrum af plöntunum; lögin, sem hann blístraði, lýstu ýmist hugarangri og örvæntingu, eða bræði og hefnigirni; loksi urðu það eintóm sorgarlög. Að kveldinu, þegar hann var að tefla skák, fór hann svo ógætilega með drottninguna sína, að Fischer prestur þóttist ekki geta annað en bent honum á það, og lofaði honum að leika upp aptur. Póstmeistarinn, sem var sparsemdarmaður, tók eptir því, að majórinn eyddi ófyrirgefanlega mörgum eldspýtum, til þess að halda lifandi í pípunni, og dugði þó varla til; annars var vant að lifa ágætlega í pípunni hjá majórnum.

Það vildi svo til einu sinni í þessari viku, að hann mætti frú Wittleday. Um leið og hann heilsaði henni, leit hann til hennar með svo þungum svip, að henni brá ónotalega við. Hún fór að velta því fyrir sjer, hvort hún, án þess af að vita, á nokkurn hátt kynni að hafa getað styggt majórinn.

Um lieutenantinn er það að segja, að hann sat á hverjum degi, tímunum saman, við skrifborð majórsins; það voru engir sældartímar; jafnan varð sá endir á, að hann reif í sundur það sem hann hafði ritað. Þær stundir, sem hann hafði afgangs frá ritstörfunum, bljes hann á hljóðpípu, eintóm

örvæntingar- og hugsýkislög; hann var til fara eins og ástfangnum, vondaufum yngismönnum er títt: snöggklæddur, vestið flakandi, hárið úfið.

Majórinn kvartaði — og það nokkuð opt af manni, sem hafði verið árum saman í hernaði — um súg frá gluggunum, sem sneru að höfuðbólinu; hann lauk þeim líka sjaldan upp; á þann hátt hlífði hann frú Wittleday við þeim leiðindum, sem hún annars mundi hafa haft af því, að verða að heyra til hljóðpípunnar.

Majórinn gat annars ekki á heilum sjer tekið, hvort sem hurðum og gluggum var lokað eða ekki. Það var einungis einn atburður, alla þessa viku, sem varð honum að gleðiefni, en það var sá, að þjónn hans einu sinni velti um koll borði og braut um leið hljóðpípuna.

Það fór nú loksins að líða á vikuna. Majórinn hafði á allar lundir leitazt við að leiða huga hins unga manns frá því, sem hann var að hugsa um nótt og dag. Hann hafði sagt honum sögur, sungið fjörugar hermannavísur, talað um hernaðaríþrótt; hann hafði jafnvel stungið upp á, að þeir skyldu ferðast um norðurálfuna, þvert og endilangt, og lýsti þeirri ferð fyrirfram svo glæsilega, að hann varð sjálfur hrifinn af; kostnað allan við þá ferð ætlaði hann að borga. En það kom fyrir ekki. Hinn ungi vinur hans var allt af jafnástfanginn og jafneinþykkur.

Svona gekk það þangað til síðasta dag vikunnar. Þegar þeir fjelagar þann dag settust að morgunverði, varð majórinn bæði forviða og glaður

ur við, er hann sá, að það var allur annar svipur á lieutenantinum en vant var.

»Heyrið þjer, majór», sagði hann, »mjer hefði aldrei til hugar komið, að minnast á það, ef ekki hefði staðið svona á; en — jeg bjargaði einu sinni lífi yðar!»

»Já, það gerðirðu, drengur minn! Guð blessi þig fyrir það!» svaraði majórinn.

»Jeg ætlaði nú að biðja yður bónar í staðinn; jeg gæti ekki nefnt það við nokkurn annan mann í víðri veröld. Það er ekki til neins að jeg sje að reyna að skrifa henni; það verður allt af verra og verra hjá mjer, því optar sem jeg reyni. Þess vegna kem jeg nú með bæn mína. Búið þjer nú til uppkast handa mjer; svo skrifa jeg það upp. Jeg ætla ekki að biðja hana að svara mjer samstundis; jeg ætla einungis að leggja hjarta mitt á fótskör hennar; en þetta verður að gjöra svo kurteislega og riddaralega sem framast er unnt, og — jeg get ekki með nokkru móti fundið á því lagið. Hafið þjer það öldungis eins og þjer munduð hafa það fyrir sjálfan yður. Ætlið þjer nú að gjöra þetta fyrir mig?»

Majórnum varð svo hverft við, að hann stóð á öndinni; en rödd hins unga vinar hans og augnaráð var svo bænarlegt, að hann áttaði sig von bráðar, og svaraði:

»Já, vinur minn, og það á sömu stundu».

»Nei, nei; borðið þjer morgunverðinn í næði, það liggur ekki á því fyr en svona einhvern tíma fyrir hádegið», sagði lieutenantinn, er majórinn stóð upp. En majórinn þurfti að hafa einhverja ástæðu

til þess að snerta ekki matinn; hann anzaði engu, gekk út og var mjög hugsandi.

»Hafið þjer það öldungis eins og þjer munduð hafa það fyrir sjálfan yður!»

Þessi orð hins unga manns hljómuðu sífellt majórnum í eyrum. Innan skamms var hann fastráðinn í því, að gjöra samvizkusamlega það, sem hann var beðinn um.

Það var eðlilegt, að þetta heimskulega óstýrilæti lieutenantsins mundi hafa þær afleiðingar, að majórinn og frú Wittleday hittust ekki framar; að öðrum kosti hlyti hún að vera enn þá elskulegri en hann nokkurn tíma hafði ímyndað sjer. En því skyldi hann nú ekki, í nafni lieutenantsins, segja henni allt það, sem hann í mörg ár hafði vonazt eptir að geta sagt henni sjálfur? Það hefði ekki svo mikið að þýða, þó að hún engan grun renndi í, hver væri í raun og veru höfundur að brjefinu — það yrði honum þó til mestu huggunar, að rita þessi orð, og vita að hún mundi lesa þau með sínum eigin augum, og, ef til vill, í hjarta sínu — ja, það gat ekki verið neitt efamál— hrærast til meðaumkunar yfir höfundinum.

Majórinn settist niður, skrifaði, strykaði út, skrifaði aptur; síðan hreinskrifaði hann og rjetti lieutenantinum póstpappírsörk; fyrsta blaðsíðan var nærri útskrifuð með hinni einkennilegu rithönd majórsins.

Það hýrnaði yfir lieutenantinum á meðan hann var að lesa brjefið. »Það er hreint ágætt, majór! afbragð, það veit sá sem allt veit! Öldungis eins og jeg ætlaði að hafa það! Þetta gefur mjer góða

von; samt skammast jeg mín fyrir að leita svona hælis undir annars merki».

»Kærðu þig ekki grand um það, drengur minn. Skrifaðu það nú upp, settu nafnið þitt undir og sendu svo með brjefið; en gjörðu þjer ekki ofmiklar vonir».

Hinn ungi hermaður ritaði brjefið upp orðrjett og vandaði sig sem mest hann mátti; hann reif nokkur umslög í sundur, þangað til honum loksins líkaði utanáskriptin. Svo sendi hann þjón majórsins með brjefið. Uppkastinu stakk hann niður í skúffu; hann ætlaði að lesa það síðar meir í raunum sínum, ef illa gengi.

Þarna sátu nú báðir hermennirnir allan fyrri hluta dagsins, hnuggnir og kvíðnir, og biðu eptir svari. Þeir reyktu ósköpin öll af vindlum, án þess þeim ljetti neitt í skapi við það.

Lieutenantinn reyndi til þess að hressa þá upp með því að segja sögur, og majórinn hló hátt að þeim; en það leyndi sjer ekki, að það var uppgerðarkæti hjá báðum. Miðdegisverður var á borð borinn, en hann fór hjer um bil jafngóður frá þeim aptur; að eins tæmdu þeir eina vínflösku, sem majórinn hafði heimtað; hann var annars sjaldan vanur að drekka neitt.

Eptir miðdegisverð reyktu þeir að eins stutta stund; dagblöðin komu með járnbrautarlestinni; þeir litu naumast í þau; þeir fóru að tefla skák, en hættu þegjandi við hana í miðju kafi.

Loksins marraði hurðin í garðshliðinu. Lieutenantinn stökk upp og leit út um gluggann. »Það

er svertinginn hennar—hann kemur með svar—æ, majór, hvernig skyldi það vera?»

»Vertu þolinmóður, vinur minn, vertu þolinmóður!» sagði majórinn og studdi á öxl lieutenantinum, sem ætlaði að þjóta út. »Mundu eptir því að þú ert offíséri og »gentlemaður». Láttu Samúel ljúka upp».

Það heyrðist til klukkunnar við dyrnar; útidyrunum var lokið upp; þjónarnir töluðu nokkur orð saman; svo gekk vagnmaður frú Wittleday inn í borðstofuna með brjef í hendinni. Lieutenantinn hljóp til og ætlaði að þrífa það af honum; en svertinginn brosti út undir eyru og mælti:

»Það er til majórsins, herra offíséri! Jeg mátti ekki afhenda það neinum öðrum!» Hann fjekk majórnum brjefið, gekk burtu, bugtaði sig og beygði og skældi sig allan; hermennirnir settust aptur niður.

»Rífið þjer það upp, majór . . . . blessaðir flýtið þjer yður», sagði lieutenantinn í hálfum hljóðum. En það leit ekki út fyrir, að majórinn hirti um að hraða sjer að rífa utan af brjefinu. Hann var ekki vanur að vera lengi að hugsa sig um það, þegar hann fjekk embættisbrjef. Nú fór hann ofan í vasa sinn, tók upp pennahníf, lauk upp minnsta og fínasta blaðinu í honum, og skar umslagið upp með mestu varúð. Hann fletti sundur brjefinu, sperrti neðri vörina fram á við og hvessti augun. Hann las brjefið gaumgæfilega með sjálfum sjer. Það leit að vísu út fyrir, að hann væri vel ánægður með brjefið. En hann varð einhvern

veginn svo skringilegur í framan, og rjett eins og hann vissi ekki hvaðan á sig stæði veðrið.

»En, í herrans nafni og fjörutíu, hvern þremilinn hefurðu skrifað henni frú Wittleday?» hrópaði majórinn loksins, með þeirri heljar rödd, að lieutenantinn spratt upp við, og stóð þar eins og ungur dáti, sem í fyrsta sinn á að fá ofanígjöf.

»Einmitt það, sem þjer fenguð mjer», sagði hinn ungi maður forviða.

»Lofaðu mjer að sjá það sem jeg skrifaði», sagði majórinn.

Lieutenantinn lauk upp skúffu, tók þar upp blað, leit á það, kreysti það saman í lófa sínum og æpti:

»Og helvízkur bjáninn, jeg! jeg hef sent henni uppkastið yðar; þetta er brjefið mitt».

»Og frúin hjelt að brjefið væri frá mjer, og hefir tekið mjer», sagði majórinn, sem naumast gat komið orðunum upp fyrir geðshræringu.

Friðrik var aumlegur ásýndum; hann varð fölur sem nár, og staulaðist að einhverjum stólnum. Majórinn vjek sjer að honum til þess að hughreysta hann; en þó hann sárkenndi í brjóst um veslings Dayson, ljómaði samt andlit hans af þvílíkri unun, að hann þorði ekki að láta lieutenantinn sjá framan í sig; hann gekk þá að baki honum, og lagði hönd sína á öxl honum.

»Æ, majór», sagði hinn ungi maður, »eruð þjer nú öldungis viss um, að yður ekki skjátlist?»

»Þarna er brjefið hennar, vinur minn; þú getur sjálfur sjeð það».

Lieutenant Dayson þreif brjefið og las:

»Kæri herra majór!

Brjef yðar, dagsett í dag, hef jeg fengið. Þó að kvennfólkinu sje heldur ámælt fyrir forvitnina, þá er það samt henni eingöngu að þakka, að jeg veit frá hverjum brjefið er — þjer höfðuð gleymt að skrifa nafnið yðar. Jeg var að horfa út um gluggann, og þekkti þá þann, sem kom með brjefið.

Jeg var búin að einsetja mjer að gjöra ekki annað en hlægja að öllum biðilsbrjefum; en þá minntist jeg þess, hve langt er síðan við sáumst í fyrsta skipti; þjer hafið ávallt síðan sýnt mjer svo trygga hollustu, að mjer kom til hugar — jeg vona að þjer fáið það ekki af yður að bera á móti að svo sje — að vera mætti, að það væri að nokkru leyti mín vegna, að þjer kunnið svo óskiljanlega vel við yður í Eystri-Patten, og þá get jeg ekki stillt mig um, að votta yður mínar beztu þakkir.

Þjer getið komið til mín þegar í kvöld og fengið munnlegt svar; karlmennirnir, og ekki sízt hermennirnir, eru svo fljótir að átta sig, að jeg reyndar býst við, að þjer vitið fyrirfram, hvernig það muni verða.

Yðar einlæg vinkona
*Helena Wittleday*».

Lieutenantinn stundi þungan.

»Þá er öll von úti! En þjer sjáið það sjálfur, majór, að það væri öldungis óhæfilegt, að láta hana vita, að þetta hefir allt orðið óvart. Þjer megið til með að eiga hana!»

»Svo, heldurðu það endilega, drengur minn», spurði majórinn, og var að reyna til þess að brosa ekki.

»Já, það gjöri jeg vissulega!» svaraði lieutenantinn, »og jeg jeg er sannfærður um, að þjer fáið ást á henni, þegar stundir líða; hún er hreint og beint engill — gyðja er hún! Þjer getið ekki með nokkru móti komizt hjá að verða ástfanginn af henni!»

»Ertu viss um það, drengur minn», sagði majórinn með föðurlegri alvörugefni. »En hvernig heldurðu að þú fáir þetta af borið?»

»Það er enginn annar maður á jarðríki henni samboðinn; hún verður betur gefin en nokkur önnur kona,» svaraði lieutenantinn hiklaust. »Ef þjer bara viljið eiga hana, þá mun hjarta mitt bráðum læknast».

»Það er gott, vinur minn», sagði majórinn; »jeg skal, svo fljótt, sem mjer er unnt, gjöra mitt til að lækna það».

Það gat öldungis ært mann, hvað lengi var að rökkva þennan dag. Loksins kom þó kvöldið, og óðara skundaði majórinn yfir á höfuðbólið til frú Wittleday.

Hverju frúin hafi svarað honum, má ráða af því, að nokkrum mánuðum síðar fjekk hann lausn frá herþjónustu, og um sama leyti tók hún sjer nafn majórsins.

Áður en langt um leið, sá lieutenant Dayson að hin útsprungna rós, sem fest hafði rætur við brjóst majórsins, var hvergi betur komin en þar. Sjálfur fann hann bráðum blómknapp, sem hafði að geyma nægileg fyrirheiti um ánægju og

gleði fyrir hans þunga hjarta æfilangt. Þessarar gleði og ánægju varð hann aðnjótandi á Rose Cottage, sem majórinn gaf ungu hjónunum. Um leið bauð hann Dayson að taka við verkstjórn við kolanámu eina mikla, sem lá undir höfuðbólið, og þáði hann það með þökkum.

*(Ó. S.).*

---

# Sókrates.

Eptir

*Harald Höffding,*

*háskólakennara.*

---

## I.

Ef þú hefðir komið til Aþenuborgar á ofanverðri 5. öld fyrir Krists burð, mundir þú opt á strætum úti hafa hitt mann, mjög einkennilegan ásýndum og ólíkan öllum öðrum, þar sem hann var að tala við menn á unga aldri, fleiri eða færri. Hann var alveg ólíkur því að vera grískur, því Grikkir voru manna fríðastir sýnum, eða svo ímyndum vér oss þá. Vinir hans kölluðu hann í gamni satýrinn (skógarpúkann), því hann var eins og Grikkir ímynduðu sér vættur þær, úteygður, söðulnefjaður, kinnamikill og varaþykkur. Ef þú ekki hefðir gefið þér tóm til þess að hlýða með athygli á viðræður hans allt til enda, þá mundi þér lítið hafa

fundizt til þeirra, og þótt þær allt annað en skemmtilegar. Hann tók fyrir eitthvert hversdagslegt efni; spurði svo út úr því í þaula, til þess að skýra það fyrir sér á allar lundir. En út af þessum umræðum spunnust brátt rannsóknir um aðrar eins hugmyndir og gott og illt, rétt og rangt, skjótt að segja, rannsóknir um hinar siðferðislegu hugmyndir, er ávallt koma fram í dómum vorum um breytni manna, þótt vér eigi ávallt höfum fyrir því, að gera oss glögga grein fyrir því, hvað þær í raun réttri þýða og hvert gildi þær hafa. Fjöldi ungra manna, og meðal þeirra margir af hinum göfugustu ættum, urðu hrifnir af þessum viðræðum hans; aptur gerðu aðrir lítið úr honum sem markleysuskjalara, eða þá að þeir hötuðu hann fyrir það, að hann ókyrrði huga þeirra, og gerði þá bera að óskýrleik í hugsunum.

Þessi maður var Sókrates; hann var sonur Sófronisks myndasmiðs, en móðir hans hét Fænareta og var ljósmóðir. Hann fæddist árið 469 f. Kr. b., og er almennt haft fyrir satt, að hann framan af æfinni hafi lagt fyrir sig list föður síns. En öllum síðari hluta æfi sinnar varði hann til þess, að fræða landa sína og koma þeim í réttan skilning. Það, sem birti honum, hver hans sanna köllun væri, var svar það, er véfrétt Apollós í Delfí gaf honum. Fréttin lét honum sagt, að hann væri spakastur allra manna. Hann furðaði sig mjög á þessu svari; en með því hann hafði mikinn átrúnað á Apolló, þá kom honum það eigi til hugar, að véfréttin færi með ósatt. Hann hlaut því að grafast eptir með sjálfum sér, í hverju speki hans

mundi einkanlega fólgin. Hann tók tali menn af öllum stéttum, og helzt þá, er eitthvað sköruðu fram úr, landsstjórnarmenn, skáld, iðnaðarmenn o. s. frv., og í viðræðum við þá komst hann að því, að þeir gátu borið einkar gott skyn á það, er ekki fór út fyrir þeirra mennt, en að þeim hætti flestum við því, einmitt fyrir það, að ímynda sér, að þeir bæri skynbragð á allt annað. Honum fannst því skilningur véfréttarinnar hlyti að vera sá, að sá væri manna spakastur, er léti sér skiljast fávísi sína, það sem honum er áfátt, og takmörk þau, er óraskanlega eru sett mannlegri þekking. Upp frá þessu mat nú Sókrates það sitt hlutverk, að vekja landa sína til sjálfsþekkingar. Sá einn, er þekkir sjálfan sig, getur gert greinarmun á því, er hann veit og því er hann ekki veit, og fyrir það einnig á því, til hvers hann er fær og til hvers hann er ekki fær. Sá einn, er þekkir sjálfan sig, getur haft stöðuga sannfæringu, sem er annað og meira en það, að herma eptir eða eins og bergmála það, sem aðrir hafa fyrir satt. Sókrates vildi leiða landa sína til þess, að hafa sjálfstæða hugsun um allt hið merkasta, er úr þarf að ráða í lífinu. Til þessa varði hann sinni löngu æfi, og fyrir þetta mál lét hann með gleði líf sitt.

## II.

Sókrates var maður fátækur; en til þess hann mætti vinna að því, er hann taldi guðlega köllun sína, gerði hann lítt að sinna sjálfs síns hagsmunum. Frá morgni til kvelds var hann á reiki á strætum úti eða á almennum samkomustöðum, einkum þó þar, sem hann átti von á að geta hitt

unga menn til viðtals. Það er svo sem auðvitað mál, að hann með þessu háttalagi gat ekki verið neinn gæða húsfaðir. Margar sögur gengu í fornöld um Xantippu konu Sókratesar og stygglyndi hennar, sem opt bitnaði á spekingnum; en það má með réttu mæla henni til málsbóta, að eptir því sem á stóð fyrir henni, þá hafði hún gildar ástæður til að kvarta. Fyrst og fremst ber þess að gæta, að svo mikill munur var á menntun karla og kvenna í Aþenuborg, að engi von var til þess, að hún gæti haft nokkra hugmynd um, hvað það í raun og rétti væri, er bóndi hennar hafði fyrir stafni. Uppeldi ungra manna laut ekki að eins að því, að gera úr þeim gagnlega borgara og góða hermenn, heldur jafnframt að því, að opna augu þeirra fyrir öllu, sem fagurt var og gott. Borgin var skreytt hinum fegurstu listaverkum, og borgarar hennar áttu kost á að heyra hin mestu snilldarverk málsnilldarinnar og skáldskaparins. En að öllu því, er laut að hinni æðri, andlegu menntun, var kvennþjóðin alveg sett hjá. Konan var ekki talin jafnborin manninum; það var farið með hana mjög áþekkt því, sem enn tíðkast með austurlandaþjóðum; hún var lengstum hneppt innanhúss; innivinna og barnauppeldi var það eina, sem hún fékkst við. Það er því ekkert tiltökumál, þótt Xantippa skildi lítið í háttalagi manns síns, og þætti kynlegur þessi hans sífelldi erill. Henni er vorkunn, þó henni hefði komið það betur, að hann hefði gert eitthvað »þarfara«, og látið sér hóti annara um hana og þrjá sonu þeirra. En vafalaust hefir hún geðvond verið og í skömmóttasta lagi. Svo

er sagt, að einu sinni hafi hún rokið upp á Sókrates úti á torgi og þar rifið hann úr yfirhöfninni. Annars tók Sókrates ávallt vonzkunni í henni með mestu stillingu, en þó er ekki fyrir að vita, nema það hafi fremur orðið til þess að espa hana en blíðka. Einu sinni var hún búin að ausa yfir hann dómadagskömmum, og steypti þar á ofan yfir hann vatni; þá varð honum þetta eitt að orði: »Það mátti svo sem búast við því, að það kæmi regn hjá henni Xantippu ofan á allar þrumurnar úr henni.« Hvernig Sókrates skoðaði hjónabandið — og annars Grikkir almennt — má marka af þessum orðum hans. Ungur maður, vinur hans, var að fárast út af því, að það væri óþolandi að heyra rifrildið úr henni Xantippu. Sókrates sagði: »Þykir þér þá óþolandi gargið í gæsunum?« Vinur hans sagði: »Svo er víst; en eg fæ undan þeim egg og kjúklinga.« »Já, og eg fæ börn undan henni Xantippu«, sagði Sókrates. Á öðrum stað víkur Sókrates svo til orðs, að á því má marka, að hann telur sér lærast það, að stilla geð sitt, og þekkja betur á menn, við það að búa við Xantippu: »Þegar reiðmennirnir geta vel ráðið við ólmustu hestana, þá verður þeim hægðarleikur að eiga við hina; og ef eg get komizt af við hana Xantippu, þá á eg að geta látið mér semja við aðra.«

Sókrates sýndi vinum sínum, þeim er urðu honum handgengnir, miklu meiri alúð og ástúð en konunni. Þegar komið var að lífláti hans, lét hann leiða hana frá sér, til þess á dauðastundu sinni að vera í hóp þeirra manna, er í andlegum skilningi voru honum nákomnastir.

III.

Hann hafði lítil afskipti að neinu því, er að landsstjórn laut. Hann taldi sitt hlutverk vera það, að ná að hafa áhrif á einstöku menn og vekja þá hvern í sínu lagi til þess að leita fastrar sannfæringar. Það sem hann heimtaði af hverjum einstökum var mikið, og hann sá að það mundi verða til einskis, að fara fram á annað eins við allan almenning. Að þessu lúta þau orð hans í varnarræðunni, sem Plató hefir ritað, er nú skal greina: »Þess megið þér vera fulltrúa, þér Aþenuborgarmenn, að hefði eg fyrir löngu farið að hlutast til um landsstjórnarmál, þá væri eg líka fyrir löngu genginn veg allrar veraldar, og hefði á þann hátt hvorki orðið yður né mér til neinnar nytsemdar. Og ekki megið þér reiðast þótt eg segi satt: því sá maður mun aldrei fá borgizt, er veita vill af alhuga mótstöðu múgnum, hvort sem það nú eruð þér, eða það er annarstaðar, og sporna vill við því, að margt ranglæti og lögleysur nái fram að ganga í ríkinu; en hver sá, sem í sannleika vill berjast fyrir því, sem rétt er, ef hann vill sjá sér borgið, þó ekki sé nema stutta stund, hann hlýtur að vera frásneiddur öllum stjórnarmálum, og engi afskipti hafa af almennum málum.

Sókrates dæmdi hart um lýðvaldsstjórnina í Aþenuborg; og það verður ekki varið, að lýðveldið í Aþenuborg var komið á glapstigu. Í lýðveldinu áttu allir að vera jafnir, og svo ríkt var gengið eptir jöfnuðinum, að óhæft þótti að taka nokkuð til greina vitsmuna mun og þekkingar, og því var hlutkesti látið ráða skipun margra áríðandi em-

bætta. Þetta var Sókrates hneixli; því hann hélt því stöðugt fram, að því að eins væri hægt að breyta rétt, að maður vissi rétt. Hann heimtaði það, að þeir hefði ráðin, er þekkinguna hefði. Honum var því síðarmeir gefið það að sök, að hann hefði glapið unga menn til þess að lítilsvirða stjórnarskipunina, sem þá var. En engi sakargipt gat verið ástæðuminni. Að vísu leitaðist hann við að vekja unga menn til þess að hugsa, og fá þá til þess upp á eigin eindæmi að leita sannleikans; en sjálfur laut hann lögum borgarinnar, og með dauða sínum vottaði hann hlýðni sína við þau, þar sem hann ekki með því að flýja vildi forða sér undan lífláti, er honum var dæmt. Hann sagði, að dómurinn væri ranglátur; en hann vildi ekki tálma því, að honum yrði fullnægt. Í viðræðum sínum lét hann það, sem voru lög borgarinnar, skera úr því, hvað væri rétt og gott í því eða því tilfelli. Í virðingu sinni fyrir lagaákvæðunum fór hann lengra en oss mundi þykja góðu hófi gegna; hann bar lotningu fyrir lögunum. Að vísu var það hans mikilsverða æfistarf, að halda því fram, hve mikilvæg frjáls rannsókn er; en hann mat lögin sem erfðafé liðinna kynslóða, er geymdi þá speki, er liðnar aldir höfðu lært af lífinu, og vildi hann ekki láta hugboð einstakra manna ráða meira en þau. Að því, er snerti álit hans á stjórnarháttum, þá mundi hann fremur talinn í flokki íhaldsmanna en byltingamanna. Eins og margir af löndum hans dáðist hann að stjórnarskipun Spörtu, sem var miklu reglubundnari og meir á valdi hinna bezta manna.

Þrátt fyrir allt þetta var hann hinn lýðhollasti maður. Hann var ekki eins og aðrir landar hans í því, að fyrirlíta vinnubrögð, og telja þau frjálsum mönnum ósæmandi; hann var sparnaðarmaður hinn mesti og að öllu sundurgerðarlaus, eins og óbreyttur múgamaður. Allir, jafnt fátækir og ríkir, umkomulitlir menn og mikilsháttar, áttu kost á því, að taka þátt í viðræðunum við hann. Það eitt með öðru er ljósastur vottur þess, hversu marghæfur þessi merkilegi maður var, og hve frásneiddur hann var öllum einstrengingsskap, að hjá honum var frjáls rannsókn samfara lotningunni fyrir því, sem hafði á sér forna helgi, og einlæg lýðvaldshollusta samfara sannfæringunni um það, að þeir ætti einir að ráða, er bezt vita. Þetta þarf nú að vísu eigi að koma í bága hvað við annað; en í bága berst, þegar þeir, er bezt vita, þeir, er bæði hafa vitsmuni og menntun, vilja gerast stétt út af fyrir sig með vissum forréttindum, og geta naumast sætt sig við, að vera taldir með öðrum almenningi, og því síður geta áunnið sér ást hans og traust.

Tvisvar sinnum gafst Sókrates færi á, að sýna löghlýðni sína, og hætti hann lífi sínu í hvorutveggja skiptið.—Eptir sigur þann, er floti Aþenuborgarmanna hafði unnið við Argínússa-eyjar, var kæra hafin á hendur fyrirliðum flotans, og voru þeir 16, fyrir það, að þeir hefðu ekki hirt um að slæða upp þá, er fallið höfðu utanborðs af þeim, er í orustunni féllu, að þeir, eins og aðrir, mætti fá sæmilega greptrun. Heimtuðu ættingjar og vinir hinna föllnu hefnd fyrir þetta, sem þeir töldu hróp-

legt ræktarleysi, og gjörðu lýðinn svo æstan, að hann, er á lýðmótið kom, heimtaði með hinni mestu frekju, að í einu lagi skyldi ganga til atkvæða um hershöfðingjana alla, og dæma þá til dauða; en þetta var lögleysa, því lögin mæltu svo fyrir, að ekki mætti taka fyrir mál nema eins í einu. Nú vildi svo til, að hlutkestið hafði komið á Sókrates, að stjórna þennan dag umræðunum á lýðmótinu; þveraftók hann að láta það viðgangast, að breytt væri móti lögum í atkvæðagreiðslunni, og lét ekkert á sig fá heitingar manna, er nógar voru hafðar. Seinna meir var steypt um stund lýðvaldsstjórninni í Aþenuborg, og höfðu þá völdin 30 menn, efldir til ríkis af Spartverjum; Aþenumenn kölluðu þá 30 harðstjórana, og var réttnefni, því þeir sýndu óþolanda yfirgang og rangsleitni, og vildu þeir fá sem flesta viðriðna óhæfur þær, er þeir höfðu með höndum. Því buðu þeir meðal annars Sókrates ásamt öðrum að fara og handtaka mann einn saklausan, er þeir höfðu óþokka á; hafði hann það mest til saka, að hann var auðugur; en þeir ætluðu að láta dæma hann frá lífi og kasta svo sinni eign á auð hans. Til slíkra erindagjörða léði Sókrates sig ekki, þó hinir færi; og er talið víst, að hann mundi hafa tekið gjöld á sjálfum sér fyrir óhlýðni þá, ef þeim ekki rétt á eptir hefði verið steypt úr völdum, og það því fremur, sem þeir áður voru búnir að fá hatur á honum fyrir bersögli hans um athæfi þeirra. Þeir létu drepa fjölda borgara, en sumir flýðu til að forða sér. Því sagði einu sinni Sókrates: »Smalamaður, sem sæi, að hjörð sín væri að týna tölunni

dag eptir dag, og vildi þó ekki kannast við það, að vera illur smalamaður — hann hefði ekki aflögum sannleiksást; þó hefði enn minna af henni sá borgarstjóri, er sæi, að borgararnir færi sífækkandi, og vildi þó ekki kannast við, að hann væri vondur stjórnandi.

Eins og hver annar Aþenuborgarmaður, gegndi Sókrates þeirri skyldu borgaranna, að ganga í herþjónustu, og var hann í mörgum herferðum, og reyndist jafnan hinn hraustasti og harðfengasti. Í herferðinni til Potidæu, sem dróst fram á vetur, var hann í sömu slitnu yfirhöfninni, sem hann var vanur að hafa heima í Aþenuborg, og ekki bar á því, að hann berfættur kveinkaði sér meira við því að ganga á ís, en hinir liðsmennirnir með loðskinnsskó. Þó finnst Alkibiades enn meir til um það, hvað rólegur hann var, þegar Aþenuborgarmenn flýðu frá Delion; þá fór hann einn sér við annan mann og fór hvergi ótt, heldur smálitaðist um; en engir þeirra, er flóttann ráku, urðu til þess að ráða á þá félaga, »því það gat hver maður séð, og það enda langt til», segir Alkibiades, »að þar var sá fyrir, er fræknlega mundi verjast, ef á hann væri leitað».

## IV.

Það var skylda hvers borgara í Aþenuborg, að taka þátt í hinni opinberu guðsdýrkun, einkum þó það, að færa fórnir á ölturum borgarinnar. Þessarar skyldu gætti Sókrates grandvarlega. Hann hafði einlæga trú á guðunum, og var hann einnig í þessu ólíkur öðrum mönnum; eða svo segir einn

af lærisveinum hans: »því flestir menn hyggja, að sumt sé það, er guðin viti, aptur viti þau ekki sumt; en Sókrates hafði þá trú, að guðin vissi allt, bæði allt það, er menn tala, og allt það, er menn aðhafast, og allt það er menn hyggja á með sjálfum sér». Þess var áður getið, að hann þóttist hafa fengið köllun sína að tilvísun guðs. Og hann var sannfærður um það, að hið innra með honum léti guðdómleg rödd til sín heyra, og varaði hann við, ef hann ætlaði að gjöra eitthvað, er mundi verða honum til tjóns, annaðhvort í líkamlegum eða andlegum efnum. Þar sem þessi rödd ekki gjörði vart við sig, þar hélt hann áfram öruggur, þess fullviss, að hverju svo sem fram yndi, þá yrði það honum fyrir beztu. Annars voru hugmyndir hans í trúarefnum í litlu frábrugðnar þeim, sem algengar voru meðal Grikkja á hans öld, öðru en því, að hann trúði á einn guð öllum guðum æðri, og undir honum stæðu svo hin guðin. Í því heldur hann fram sömu stefnunni, er komið hafði fram hjá sumum spekingum og skáldum Grikkja, er fyrr voru, og hafði lýst sér í því, að þeir vildu hreinsa fjölgyðistrúna og koma inn háleitari hugmyndum um guðdóminn. Annars vildi hann sem minnst eiga við guðfræðislegar rannsóknir, því hann áleit að allt slíkt yfirstigi mannlegan skilning. Honum fannst auk þess, að mennirnir hefðu nóg verkefni fyrir höndum, ef þeir ætti að komast í skilning um það, sem mennina snertir — og að meðan menn eigi þekkti sjálfa sig, þá væri bezt að láta þessi háleitu og mönnum fjarstæðu efni eiga sig.

V.

Eitt af því, sem ekki hvað sízt einkennir Sókrates, er sú frábæra stilling, stjórn á sjálfum sér, er hann sýnir, hvernig sem á stendur. Hann er andlega frjáls, og lætur engan hlut fá vald yfir sér; en þó er hann ekki svo hræddur um sjálfan sig, að hann bindist allra nautna, eða sneiði sig hjá að taka þátt í lífinu umhverfis hann. Þess er áður getið, að hann var allra manna herknastur og einnig sparneytnastur. Hann gat að vísu komizt af með lítið, og hann var þeirrar trúar, að maður stæði því nær guðdóminum, sem maður hefði færri þarfir; en allt um það gat hann, ef honum bauð svo við að horfa, drukkið alla í rot, þá er með honum voru, og þótt hann hefði vakað alla nóttina, gat hann daginn eptir gegnt sínum vanastörfum. Honum var það gefið, að geta láta gaman og fyllstu alvöru vera samferða. Landar hans sögðu, að hann væri það sem vér mundum kalla ólíkindatól (εἰρωνευτικός). Bak við gaman hans og ertni, þó um lítilfjörleg efni væri að ræða, lá alvarleg hugsun. Það er efunarlaust, að hann hefir ekki getað áunnið sér þennan mikla andlega styrk, nema fyrir stríð og baráttu. En vér vitum ekkert um þroskaskeið hans á yngri árum hans. Þegar vér fyrst förum að hafa sögur af honum, þá var hann fullþroskaður, var orðinn það sem hann var. Að eins á einum stað er gefin bending um það, að hann hafi búið yfir sterkum og brennandi ástríðum, sem hann þurfti að sefa og kefja niður.

Hvergi lýsir hjartans alúð Sókratesar sér jafnglögglega sem í því, hvernig hann var vinum sín-

um. Í gamni kallaði hann sig unnusta þeirra. Hugur hans hneigðist að ungum mönnum, sem höfðu ósljófgaða hugsun og tilfinningu, sem hægt var að opna fyrir öllu fögru og góðu. Í viðræðum við þvílík ungmenni átti hann hægast með að láta rakna úr hugsunum sínum; aptur var hann frábitinn því, að halda ræður eða tala langt erindi. Hinn andlegi félagsskapur lagði grundvöllinn til varanlegrar vináttu milli hans og þeirra, er tóku þátt í viðræðunum við hann. Eins og hann væri faðir þeirra, leitaðist hann við að verða þeim til liðs bæði með ráðleggingum og liðsinni. Og hve fast tengdir þeir hafi verið honum, má marka af því, að hann heyrði hið innra með sér sömu röddina, sem vön var að vara hann við, einnig þegar einhver af vinum hans ætlaði að stofna sér í eitthvert háskaráð.

En það var ekki tekið út með sitjandi sældinni, að komast í vinatölu Sókratesar. Hann gjörði sér það að reglu, ekki að ota fram því sanna vafningalaust, heldur að vekja hjá mönnum þörfina til þess að leita hins sanna og krapt til þess. Hann byrjaði því jafnaðarlega viðræður sínar á því, að hann sjálfur þóttist ekkert vita, en fór að spyrja þann, sem hann átti orðakast við, um það, hvað hann vissi; hann gat þá að öllum jafnaði flækt hinn svo með spurningum sínum, að hann komst í mótsögn við sjálfan sig, svo að hann, þó sárt væri, hlaut að finna til þess, að þekking sú, sem hann þóttist hafa, var ekki annað en einber ímyndun. Við þetta styggðust nú margir. Þeir þóttust ekki geta betur fundið, en að Sókrates væri meinertinn,

og að honum væri ekkert tíðara en það, að flækja menn í orðum. Þeim gat ekki skilizt, að nokkur alvara fylgdi gamanyrðum hans og ertingum. Og eins og sjálfur hann segir, óvinguðust margir við hann einmitt fyrir þessa aðferð hans. En þeir sem þoldu að ganga gegnum þennan hreinsunareld sjálfsprófunarinnar, þeir komust að því, að undir líki þessa stríðna skógarpúka fálust hið innra dýrlegir gripir og líkneski guðanna, er þeir fengu að sjá, er opna vildu. Sókrates sjálfur sagðist hafa sömu aðferðina og hún móðir sín — því eins og ljósmóðirin æli ekki sjálf börnin, heldur hjálpaði öðrum konum til þess að ala þau, eins væri það sitt verk — ekki að koma sínum hugsunum inn hjá öðrum mönnum, heldur að hjálpa öðrum til þess að komast frá þeim hugsunum, sem þeir sjálfir gengi með.

## VI.

Nokkur dæmi geta sýnt, hver áhrif Sókrates hafði á ýmsa unga menn.

Maður einn ungur, er Evþydemos hét, var búinn að kaupa sér fjölda af bókum, og þóttist nú vegna fróðleiks síns vera orðinn mikill spekingur. Sókrates fer nú að tala við hann; en það kemur þá upp úr kafinu, að Evþydemos hugsar mjög óskipulega og ekki sem skýrlegast. Loksins segir Evþydemos: »Mér er sjálfsagt hollast að þegja, því það er hætt við, að eg viti ekki neitt«. Og að svo mæltu fór hann burt stúrinn, því að hann fékk nú fyrirlitning á sjálfum sér, og þóttist nú í raun réttri vera hreinn þrælsjafningi. Margir þeir, sem

Sókrates hafði leikið á líkan hátt, fráfældust hann upp frá því; slíka menn taldi hann daufgerða drjóla. En Evþydemos fórst öðruvísi; hann ímyndaði sér, að hann því að eins gæti orðið nokkru nýtur, að hann sem stöðugast nyti samvista við Sókrates; en er Sókrates sá, að hann var svo skapi farinn, þá vildi hann fyrir hvern mun ekki framar rugla hann, heldur skýrði hann fyrir honum sem einfaldast og greinilegast það, sem hann áleit að menn þyrftu að vita og síðan leggja stund á.

Einn meðal þeirra lærisveina Sókratesar, er mestu mannviti voru gæddir, var hinn frægi Alkibades, er með óstýrilæti sínu og metnaðargirnd leiddi svo marga óblessun yfir Aþenuborg. Hann hneigðist ósjálfrátt að hinum undarlega manni, en gat aldrei að fullu fellt sig við hann. Þetta, sem Sókrates heimtaði, að menn ættu að þekkja sjálfa sig, það fannst honum of strangur skóli—; og hvað eptir annað lét hann metnaðargirnd sína og munaðfýsi teygja sig frá kennara sínum. En þó gat hann aldrei gleymt honum. Sókrates hafði í huga hans vakið eitthvað það, er ávallt knúði hann til þess að leita aptur á hans fund. Í einu af ritum Platóns er lýst samdrykkju, er Sókrates var í; er þar sagt frá því, að seint um kvöldið hafi Alkibiades komið þangað, og var þá ölvaður, því hann kom úr veizlu; hélt hann þá lofræðu yfir Sókratesi, og lýsir hreinskilnislega öllu, sem þeirra hafði farið á milli. Sannaðist þá, að öl segir allan vilja, því annars mundi hann naumast hafa játazt eins afdráttarlaust.

Meðal annars segir hann:

»Ef eg ekki mætti vera hræddur um, að þér hélduð, að á mér væri ölæði, þá skyldi jeg segja yður, hver áhrif ræður þessa manns hafa haft á mig og enn hafa á mig. Þegar jeg heyri til hans, berst ótt hjartað í mér og eg tárast, og eg sé, að eins fer öðrum. En þegar eg hlýddi á ræður Periklesar, eða annara góðra mælskumanna, þá þótti mér þeim að vísu segjast vel, en samt fengu ræður þeirra aldrei á þann hátt á mig, og aldrei varð sál mín á þann hátt hrifin, eða fann til gremju út af því, hvað eg er í miklum þrældómi; en við hans orð skipaðist opt svo skap mitt, að mér þótti ekki við það líft, að vera eins og eg er. Og þetta getur þú, Sókrates, ekki sagt, að ósatt sé; og einnig nú veit eg það með mér, ef eg að eins vildi ljá honum eyru, þá mundi eg ekki fá harkað hann af mèr, heldur mundi fara fyrir mér líkt og vant er; því hann neyðir mig til þess að kannast við það, að mér, sem er svo áfátt í mörgu, verður það að hugsa ekki um sjálfs míns hagi, heldur skipta mér af högum Aþenuborgarmanna. Mér er því ekki annað fangaráð, ef eg ekki á að sitja hjá honum þangað til eg verð gamall, en það, að taka fyrir eyrun og flýja frá honum. Hann er eini maðurinn, sem eg fyrirverð mig fyrir, og vænti eg þó, að margir kunni að halda, að eg eigi það ekki hjá mér að skammast mín. En fyrir honum skammmast eg mín. Því vel veit eg það, að eg get ekki rengt orð hans, þegar hann segir mér, hvernig eg eigi að breyta, en finn jafnframt, að óðara en eg

er kominn frá honum, læt eg ginnast af virðingum almennings».

Langfrægastur allra lærisveina Sókratesar var Plató, einn hinn mesti og göfugasti spekingur í fornöld, og má rekja þau áhrif, er hann hefir haft á framfarir alls andlegs lífs, allt fram á vora daga. Þar sem hann var, má segja, að Sókrates hafi vakið upp mann, sem var afbragð allra annara að hugarflugi og sjálfstæði hugsunarinnar. En það voru einnig fjöldamargir aðrir menn af ýmsum stéttum, meira og minna kunnir, er af viðræðum Sókratesar leiddust á ýmsa vegu, og fengu af þeim hvatir, er síðan réðu lífsstefnu þeirra.

## VII.

Sókrates þóttist mega ganga að því vísu — og því hagaði hann tilsögn sinni eins og hann gerði — að innra með hverjum manni felist kjarni, sem að þurfi að komast, hulin þrá eptir sannleikanum, sem ekki þurfi annað en vekja; en hins vegar höndli maður með þeim einum kosti sannleikann, að maður hafi sjálfur fyrir því, að grafast eptir honum. Hann gerði ef til vill meira úr því, hvað mikilsvert er, að skýra skilninginn, en vér mundum gera. Ef menn að eins vissu það, sem rétt væri, taldi hann víst, að menn einnig mundu gera það. En þar sem hann talar um að vita, þá skilur hann við það ekki eingöngu vitneskjuna, heldur lifandi viðkönnun, er hafi gagntekið alla veru mannsins, svo að engar aðrar hugsanir komist að. Eptir skoðun Sókrates stafar öll synd af andlegum

blindleik, og orðin, sem mörgum öldum seinna heyrðust á krossinum á Golgata: »Fyrirgef þeim, þeir vita ekki hvað þeir gera«, koma vel heim við hugsun hans. Sá sem illa breytir, veit ekki hvað hann gerir, þess vegna þarf að vekja hann og koma honum á rétta leið með því að láta hann fá sanna vitneskju um það, hvílíkur hann er, þó það aldrei nema sé honum sárt. Sjálfsþekkingu og skilning mat hann því mest andlegra gæða; og hann leitaðist af alefli við að fá landa sína til þess, að taka þessi hin innri andlegu gæði fram yfir ytri gæðin. Það var því opt, að hann sagði þetta og því um líkt við þá, sem hann átti tal við: »Góðurinn minn, þú sem ert Aþenuborgarmaður, og því borgari ríkis, sem mikils er metið fyrir vizku og dugnað, fyrirverður þú þig nú ekki þess, að láta þér einkar annt um það, að geta rakað saman sem mestu fé, og komast til sem mestra valda og metorða, en um rétta þekking sannleiks hirðir þú lítt, og lætur þér hvergi annt um það, að sál þín batni sem mest má verða.«

## VIII.

Hvernig stóð nú á því, að svo fór, að slíkur maður var borinn ólífis sökum og dæmdur til dauða?

Til þess að gera sér þetta skiljanlegt, verða menn að íhuga það, að Sókrates var að berjast fyrir alveg nýrri hugmynd.

Áður hafði enginn látið sér til hugar koma, að þörf væri á sérstakri vakning eða leiðbeining til þess að geta orðið nýtur og góður maður, og að

uppeldið heima fyrir, umgengnin við sér eldri menn, og hluttekning í guðs dýrkun ríkisins og öllum athöfnum borgaralegs lífs væri ekki nóg til þess. Þeir menn, sem héldu fast við forna siðu, hlutu því að meta allt atferli Sókratesar tortryggilegt. Hann var að venja unga menn við að dæma og rökræða alla hluti, í stað þess að láta sér lynda það, sem verið hafði.

Í smáríkjunum á Grikklandi í fornöld var það heimtað af borgurunum, að þeir með lífi og sál væri ríkisins. Frá vöggunni til grafarinnar átti öll þeirra iðja að vera í ríkisins þarfir. En Sókrates vildi fá hvern einstakan mann til þess, að eiga nokkuð útundan, að eiga hið innra með sér helgistað, þar sem hinn innri og sanni maður öllu óháður fengi lifað einum sér, en við þetta virtist hljóta að vekjast áhugi sá og alúð, er hann átti að hafa við allt það, er ríkið varðaði. Við þetta komst inn það afl, er eyða mundi og sundra, og á þann hátt verða hættulegt lífi grísku ríkjanna. Eins og fyrer á vikið, trúði Sókrates sjálfur á guði feðra sinna, og sjálfur laut hann með lotningu lögum ríkisins; en með því að heimta sjálfsþekkingu og frjálsa sannfæringu hafði hann komið mönnum á þann rekspöl, að margir mundu hljóta að leiðast lengra á honum en sjálfur hann fór. Hjá honum gat á aðdáanlegan hátt frjáls hugsun orðið samferða varfærinni hugarstefnu; en hjá öðrum hlutu þær að segja skilið hvor við aðra og verða ósamþýðanlegar. En við þetta risu upp kærur, sem ekki var hægt hjá að sneiða með öðru móti en því, að stjórnarskipun og þjóðlíf hefði skapazt á þann hátt, að rétt-

ur hvers einstaks manns og frelsi samvizkunnar í öllum andlegum efnum væri miklu skýlausar viðurkennd í þeim, en tíðkast gerði í ríkjum fornaldarinnar — já, betur viðurkennd, en flest ríki, er nú eru til, hafa enn lært að gera það. Hugsun Sókratesar, þegar hún var rakin út í æsar, hlaut að reka að því, að sundur yrði sagt friðinum við fornan hugsunarhátt.

Þeir, sem ákærðu Sókrates og dæmdu hann, gerðu sér ekki glöggva grein fyrir þessu. En eptir skilning sögunnar og skýringu hennar var þetta það, sem réð afdrifum Sókratesar. Sókrates beindi framfararás mannlegs anda í nýja stefnu; en nú sannar sagan það, að þeir, sem vinna slík eða því um lík stórvirki, hljóta opt að láta lífið fyrir.

Allir Aþenuborgarmenn hafa sjálfsagt þekkt Sókrates í sjón; en þeir voru auðvitað miklu færri, er vissu nokkuð til hlítar um það, sem hann hafðist að. Sjálfsagt hefir allur þorri manna tekið hann fyrir stakan sérvitring, síþrefandi og sírýnandi eptir einhverjum hégóma, og sem vildi koma öllu í öfugt og öndvert horf. En enginn vissi, hvað hann í raun réttri fór. Menn gerðu sér því hægra um hönd, og kenndu honum allar þær kenningar, er taldar voru guðlausar og siðum spillandi; hann var sakaður um að gera rétt að röngu, satt að lognu, og um það að neita tilveru guðanna. Í sjónarleik var hann sýndur á leikhúsinu alveg eins og hann var hversdagslega, og þar er hann látinn koma með alls konar hártoganir og guðleysi. Sókrates var sjálfur við, þegar leikurinn var leikinn, og stóð upp í leikhúsinu til þess að

allir mætti sjá, að gríma trúðsins væri eins og hann. En 24 árum seinna sagði hann í varnarræðu sinni, að það, hvernig hann var látinn koma fram í leikriti þessu, hefði mjög svo stutt að því, að gefa löndum sínum rangar hugmyndir um sig, þó þeir reyndar áður kynni að hafa haft þær nokkuð skakkar.

Þegar Aþenuborgarmenn höfðu rekið af höndum sér 30 harðstjórana, og komið aptur á lýðveldi hjá sér, þá var það eðlilegt, að lýðvaldsvinirnir færi að hugsa um, hvað valdið hefði öllum þeim ófagnaði, er yfir ríkið hafði gengið og stjórnarskipun þess. Aðalorsökina þóttust þeir þá finna í hinum nýju, andlegu stefnum, í hinum frjálsu umræðum um hvað eina, er olli því, að allt varð sem á reiki, og að um allt mátti efast, og í þeirra augum varð Sókrates forvígismaður þessara nýjunga. Allar slíkar nýjungar voru því látnar bitna á honum einum. Til þess að fella Sókrates hélzt því í hendur eitthvert óljóst hugboð um nýmæli þau, er hann var forvígismaður að, og hróplegur misskilningur á honum sjálfum, og öllu hans atferli.

## IX.

Árið 399 f. Kr. b. komu þeir þrír, Meletos skáld, Anytos sútari, og Lýkón mælskumaður, fram með svofellda sakargipt gegn Sókratesi: »Sókrates gerir sig sekan í að spilla ungum mönnum, og í því, að trúa ekki á guði þá, er ríkið trúir á.«

Sókrates hélt fyrir dóminum ræðu sér til varnar, og hefir Plató, lærisveinn hans, fært hana í letur, og er hún þannig sjálfsagt að aðalefninu enn

til; í varnarræðu þeirri skýrir Sókrates frá því, hvernig það atvikaðist, að hann fór að gefa sig við þessu sínu einkennilega starfi, og var það fyrir svar það, er hann hafði fengið frá véfréttinni í Delfí. Hann taldi sig því vera í þjónustu guðsins. Hann sýnir fram á það, að landar hans höfðu fengið rammskakkar hugmyndir um hann, og að sakargiptirnar á hendur honum voru teknar úr lausu lopti. Hann lýsti því yfir, að þótt dómendurnir vildu sýkna sig með því skilyrði, að hann léti af uppteknum hætti, þá mundi hann ekki að því ganga, með því að fremur bæri að hlýða guði en mönnum. Hann segir enn fremur;: »Fjarri fer því, að eg sé nú að verja mig sjálfs mín vegna, sem margur kann að hyggja; yðar vegna geri eg það, Aþenuborgarmenn, til þess að þér eigi, með því að sakfella mig, brjótið af yður velgjörð guðsins við yður. Því, ef þér látið drepa mig, þá mun það ekki auðgert fyrir yður að finna annan slíkan, sem, blátt áfram að segja, þótt hlægilegt kunni að þykja, af guðinum er settur upp á borgina, eins og hún væri hestur, að vísu stór og kostamikill, en fyrir stærðar sakir í þyngra lagi, og því þurfandi þess, að vera vaktur af einhverjum kleggja. Þannig virðist mér að guðinn hafi sett mig upp á borgina, svo að eg án afláts veki yður og telji yður hughvarf og vandi um við yður hvern fyrir sig, með því allan liðlangan daginn að vera að setjast á yður. Yður mun trauðlega bætast annar slíkur; en ef þér viljið fara að mínum ráðum, þá er yður hollast að þyrma mér; en það er nú albúið, að yður fari nú líkt og svefnóramönnum, þegar þeir

eru vaktir, þá verða þeir styggir við, og að þér, leiddir af fortölum Anytosar, sláið í mig, og látið yður lítið fyrir verða að drepa mig. Og síðan mættuð þér sofa það sem eptir væri æfinnar, ef guðinn þá ekki léti sér svo annt um yður, að hann sendi yður einhvern annan.«

En Aþenuborgarmenn vildu fyrir hver mun losast við kleggjann sinn. Hann var sakfelldur, að vísu með miklu minna atkvæðamun, en hann hafði búizt við. Að lögum var ekki nein tiltekin hegning lögð við sökum þeim, er hann var borinn; var því skorað á hann, að tilnefna sjálfur hegninguna, er hann þættist hafa unnið til. Þeir, sem höfðu kært hann, höfðu lagt til, að hann yrði líflátinn. En hann vildi ekki við það kannast, að hann væri um neitt sekur. Hann þóttist þvert á móti vera velgjörðamaður ríkisins, og því vera maklegur umbunar. En þangað til voru vinir hans að nauða við hann, að hann fékkst til að bjóða fram fébætur. En dómendunum hafði gramizt svo þetta þrályndi hans, að þeir dæmdu honum líflát, og var nú meiri atkvæðamunurinn en fyr.

Hann varð að sitja í varðhaldi nokkrar vikur, áður en hann var líflátinn og varði hann tíma þeim eins og vant var, til þess að tala við vini sína og lærisveina. Síðasta daginn, sem hann lifði voru þeir einnig margir saman komnir hjá honum, og átti hann langar viðræður við þá, eptir að hann hafði látið konu sína og börn frá sér fara. Að því búnu lét hann svo þjón þeirra ellefu færa sér eitrið. Hann hét á guðina og drakk í botn bikarnn, eins og hann væri að drekka minni í einhverri

veizlu. Vinir hans grétu og bárust lítt af; en hann sagði: »Undarlegir menn eruð þér; hvað er að yður? Það var einkum þess vegna, að eg lét fara burt kvennfólkið, að eg vildi ekki að það hefði hér þau læti, er nú hafið þér. Eg hefi ávallt heyrt, að bezt væri að deyja svo, að aðrir hefðu góða orðheill fyrir. Berið yður því vel og harkið af yður.« Hann gekk svo um gólf, þangað til hann fór að finna til þyngsla í fótunum. Þá lagðist hann fyrir og breiddi upp fyrir andlit sér, og færðist svo dauðadoðinn smám saman neðan að upp á við. Það síðasta, sem hann mælti, var það, að hann bað einn af vinum sínum um að flytja heilsuguðinum fórn fyrir sig.

Einn af þeim, sem við var andlát hans, segir svo: »Þannig dó vinur vor, maður sem að vorum dómi var allra manna beztur, allra manna spakastur og allra manna réttlátastur, þeirra manna, er þá voru uppi, og þeirra manna, er vér höfum haft nokkur kynni af.«

---

# Gamli-Toggi.

## Sjálenzkt æfintýri.

---

Einu sinni var maður, sem hjet »Gamli-Toggi«; enginn þekkti nafn hans með vissu, en menn hjeldu að hann hjeti eiginlega Þorgrímur. Hann

bjó með kerlingu sinni í ofurlitlu kofahrófi yzt í bæjaþorpinu; bæði voru þau mjög svo komin til ára sinna. Fátæk voru þau, og þó að þau stöku sinnum hefði dálítið að jeta, þá var það þó optar, að þau ekkert höfðu, og tæpt var hjá þeim um viðurværi, bæði sumar og vetur. Kú áttu þau að vísu, en hey eða fóður handa henni var aldrei til í kotinu. Þess vegna stálu þau beit fyrir hana á sumrin, en á veturna betluðu þau hey handa henni hjá bændum þar í kring. »Maður verður að bjarga sjer eins og bezt gengur«, sagði Gamli-Toggi; það var nú orðtak hans.

Svo bar það við eitt ár, að vetur var aftakaharður. Fannirnar þöktu húsin upp á mæna og varla varð komizt húsa á milli fyrir ófærð; enginn þóttist muna annað eins. — Þá vildi kúnni hans Gamla-Togga það til, að hún eignaðist kálf. Í sjálfu sjer hefði það nú ekki verið neitt sjerlegt slys, ef þau hjónin hefði haft nokkurn hlut handa henni að jeta; en þau höfðu ekkert handa kúnni, því síður handa kálfinum, og þessa sízt handa sjálfum sjer, en á aðra bæi komust þau ekki fyrir ófærð og fanndyngjum.

Gamli-Toggi hugsaði þá með sjer, að einhvern tíma yrði kálfurinn þó að kú, og það væri þess vegna bezt að slá kúna af. Þetta fannst kellu þjóðráð; þau slátruðu kúnni og átu svo kjöt við kjöti í alla mata, því ekkert var annað til, en eigi sultu þau meðan það entist.

Þetta varð þó endaslepp ánægja, því fljótt gekk á kýrskrokkinn, og þegar hann var búinn, var sveltan hálfu verri en áður.

Nú var kálfurinn eptir. Það var stór kvíga, rauð á lit, og þau höfðu ætlað sjer að halda í henni lífinu, svo að hún gæti orðið að kú með tímanum, en nú voru þau komin í alveg botnlaus vandræði, því í kotinu var ekki til einn einasti matarbiti að jeta.

»Maður verður að bjarga sjer eins og bezt gengur«, sagði Gamli-Toggi, og svo labbaði hann á stað til bæjarins.

Hann hitti fyrst heldri skóarann þar — þeir voru ekki nema tveir—, það var vel efnaður maður og átti hús í aðalgötunni í bænum og bjó í því.

»Heyrðu«, sagði Gamli-Toggi; »þú skyldir ekki vilja kaupa af mjer kálf sem jeg á? Það er ágætt á honum skinnið; jeg þori að segja það er frægasta skóleður, og svo er hann spikfeitur.«

»Hvað á hann að kosta?« spurði skóarinn.

»Átta dali hafði jeg hugsað mjer«, sagði Gamli-Toggi; »það er reyfarakaup.«

Hvort sem þeir nú töluðu um það lengur eða skemur, þá varð það úr, að þeir gjörðu kaupin. Toggi fjekk átta dali í vasann, og hróðugur var hann; skóarinn átti svo að sækja kálfinn eptir viku.

Þaðan labbaði Gamli-Toggi til hins skóarans. Hann átti nú ekki nærri því eins mikið undir sjer, og fjekkst mest við að næla undir skó og bæta; hann bjó í dálitlum kumbalda utanvert í bænum.

»Sæll vertú«, sagði Gamli-Toggi, »hvað heldurðu jeg sje að fara?

»Komdu sæll«, tók skóarinn undir og keyrði

á næluna með spekingslegum aðgætnissvip; »þú ætlar líklega að fá þjer bót á gömlu garmana.«

»Ónei-nei« sagði Gamli-Toggi; »en á jeg að segja þjer nokkuð? Jeg á kálf. Þú munt nú ekki vilja kaupa hann af mjer? Það er frægasta skinn á honum, og þú gætir svei-mjer búið fallega skó úr því.«

»En hvað á dýrið að kosta?« spurði skóarinn.

»Af því við erum svo góðir kunningjar, þá skal jeg láta þig hafa hann fyrir fimm dali. Það er reyfarakaup, eins og þú skilur.«

Það varð úr, að þeir keyptu þessu. Toggi stakk skildingunum í vasann og skóarinn lofaði að sækja kálfinn eptir viku.

Þegar Toggi kom heim, bað hann kerlingu að gefa sjer að jeta.

»Já, fá þú þjer fyrst mat, svo skal jeg gefa þjer að jeta. Fari bölvuð sú ögnin sem jeg hefi«, sagði kerling.

»Jæja«, sagði Gamli-Toggi—»við ættum held jeg annars að skera kálfskammarangann—; það verður þó aldrei kýr úr honum hvort sem er. Það er bezt við gerum það; þá fær maður þó einhvern botn í það.«

Þetta þótti kerlingu heillaráð, og sama dag skáru þau kálfinn og matreiddu sjer góða steik til miðdegisverðar.

Viku síðar—það var einmitt um miðdegisleyti og Gamli-Toggi sat að snæðing — komu skóararnir báðir undir eins heim í kofann; báðir voru þeir að sækja kálfinn.

»Já, það var skrambi leiðinlegt að tarna«,

sagði Gamli-Toggi, þegar þeir voru komnir inn. »Jeg gleymdi því alveg, að jeg var búinn að selja ykkur kálfinn. Ja-jæja, og nú sit jeg hjerna og er að skarka um seinasta hryggjarliðinn af honum —ef þið viljið fá ykkur ofboð-litla nögu með, þá er það guðvelkomið.«

»Nei, þetta er ljóta gabbið«, sögðu báðir skóararnir í einu; þeir voru svo gramir, að þeir náðu ekki upp í nefið á sjer. »Þetta skal verða þjer dýrt spaug, Gamli-Toggi. Ef þú ætlar þjer að draga svona dár að heiðvirðum borgurum bæjarins, þá skulum við sýna þjer í tvo heimana. Við skulum sjá um, að þú verðir vistaður einhversstaðar, þar sem þú ekki þarft að hafa fyrir að telja stjörnurnar.«

Þeir þuldu þarna yfir honum heil-langan pistil, og ljetu dynja fúkyrði og heitingar, en Gamli-Toggi ljet sem ekkert væri og hjelt áfram að snæða í makindum.

Þegar hann var búinn að kyngja síðasta bitanum, þurkaði hann sjer vandlega, og sagði svo: »Jú, en þið munið þó, vænti jeg, hvað jeg sagði, þegar jeg seldi ykkur kálfinn. Jeg sagði, að það væri »reyfara-kaup«. Það sagði jeg, og því hefðuð þið átt að hugsa eptir, hana-nú.«

Það bætti nú ekki úr skák, þegar þeir heyrðu, að Gamli-Toggi ofan á allt gabbið fór að gera gys að þeim. Þeir ruku út, eins og byssubrenndir, og lá við sjálft, að þeir sættist sín á milli heilum sáttum—svo fok-vondir voru þeir—, en áður höfðu þeir aldrei setið á sárshöfði, þegar þeir hittust.

Skömmu síðar ljetu skóararnir stefna Gamla-

Togga fyrir svikin, og hann átti nú að mæta fyrir sýslumanni til að standa fyrir máli sínu.

Á hinum tiltekna degi lagði svo Gamli-Toggi á stað að heiman, áleiðis til sýslumanns. Leið hans lá fram hjá hreppstjórasetrinu, og það bar svo vel í veiðar, að hreppstjórinn sjálfur stóð úti undir skemmuvegg, snöggklæddur, og var að totta tóbakspunginn sinn.

»Sæll vertú, Gamli-Toggi — hvert á að ferðast?« kallaði hreppstjórinn til hans.

»Og það get jeg meir en sagt þjer«, svaraði Toggi. »Jeg lenti í benvítis klúðri þarna með skóarana; jeg seldi þeim kálfinn minn, og svei-mjer svo ef jeg mundi eptir því aptur seinna, svo að jeg skar hann og át hann sjálfur.«

»Já; það er sem sje, karl minn, ljóta gamanið að tarna«, sagði hreppstjórinn; »þú lendir í skömm fyrir þetta, Gamli-Toggi; þú þekkir ekki forordningarnar og ordinásíurnar; nei, þær þekkirðu ekki, og það verður þjer til bölvunar.«

Jú, það kannaðist Toggi við að satt væri.

»En-e« — hreppstjórinn snýtti sjer og nuggaði tóbakspunginn — »hver veit nema jeg gæti hvíslað einhverju að þjer, svo að þú slyppir úr klípunni.«

»Ói-já«, það vildi Toggi fyrir hvern mun.

»Jæja«, sagði hreppstjórinn; hann bretti upp á tóbakspunginn og tók vendilega í nefið. »Jeg skal nú annars hjálpa þjer, en þú verður að þægja mjer eitthvað fyrir það; þú verður að láta mig hafa svo sem að minnsta kosta treimarksvirði.«

»Já, sei-sei«, það var nú svo sem ekki nema sjálfsagt, og þó meira hefði verið.

»Jæja, taktu þá vel eptir því, sem jeg ætla að segja þjer, Toggi«, sagði hreppstjórinn. »Sko, þegar þú nú ert kominn inn til sýslumannsins — eiginlega er hann nú vænsti maður, karlsauðurinn, en, eins og þú líklega hefir heyrt, þá er hann svo öskubráður, að hann getur þotið upp eins og funi, þegar minnst varir—; nú, þegar þú ert kominn inn til hans, þá skaltu muna eptir því, að láta eins og þú sjert fjarskalega heimskur og einfaldur, og hvað sem hann spyr þig um eða hvernig sem hann yrðir á þig, þá skaltu engu svara, en bara púa svona út í loptið: »e-pú, e-pú«. Það er enginn vandi, og ef þú bara passar þig, þá er jeg viss um að allt gengur vel.«

Gamli-Toggi þakkaði fyrir ráðlegginguna og hjelt leiðar sinnar.

Svo kom gamli-Toggi fyrir rjettinn og báðir skóararnir með honum. Sýslumaðurinn strauk kollinn, hagræddi gleraugunum á nefinu, og fór svo að rýna í »stóru bókina«.

Eptir litla stund leit hann upp og tók svo til máls:

»Jeg aðspyr þá alla, er viðstaddir eru, hvort maður þessi, er hjer stendur fyrir mjer, er hinn stefndi, Gamli-Toggi eða Þorgrímur?«

Jú, það gátu þá allir staðhæft, að svo væri.

»Þá aðspyr jeg nefndan Gamla-Togga, hvort hann kannist við, að hann hafi þann 5. dag í þessum mánuði selt þeim tveimur heiðruðu borgurum, er hjer standa, kálf, pro primo fyrir 8 dali og pro secundo fyrir 5 dali, og svo á eptir slátrað honum og jetið hann?«

Gamli-Toggi stóð grafkyr, eins og þetta kæmi honum ekkert við. Hann var mjög einfeldnislegur á svipinn.

Það fór að síga í sýslumanninn. »Hvað? Ætlar hann ekki að svara, þegar yfirvaldið spyr hann?« spurði sýslumaður og brýndi röddina. »Í annað sinn spyr jeg hann að, hvort hann kannist við, að hafa selt kálfinn tvisvar, og svo jetið hann á eptir?«

Nei, það dugði ekkert; það kom ekki orð úr Gamla-Togga. Hann stóð þarna grafkyr; munnurinn hjekk í hálfa gátt, það hvítglytti í augun, og hann glápti stöðugt galopnum skjánum á skallann á sýslumanninum.

»Svaraðu, bölvaður glópurinn þinn! Ætlarðu ekki að svara? Jeg spyr þig í þriðja og síðasta sinn, ætlarðu að kannast við, hvað þú hefir gjört við þennan kálf-djöful; svaraðu, bannsettur nautshausinn!«

»E-þú, e-þú«, sagði Gamli-Toggi.

»Hvað? Hvað þá? Ætlarðu að draga dár að yfirvaldinu?«, hrópaði sýslumaður bálreiður; »gjöra uppistand hjer í rjettinum! Sækið þið fangajárnin; það er bezt að sýna þjer þau. Ætlarðu ekki að svara? Hefurðu jetið þennan helvítis kálf?«

»E-þú, e-þú«, sagði Gamli-Toggi.

»Þetta er vitfirringur, svei-mjer ef hann er ekki alveg vitlaus; hann er bandóður«, hrópaði dómarinn öldungis uppvægur; »þið hafið dregið hingað vitskertan spítalalim til að gjöra gys að

rjettinum! Ellegar — þið skóbótaskafar — ef þið hafið keypt við vitskertan mann, þá segja Kristjáns 5ta lög þar um í 17—18—19, að það verðið þið að eiga við sjálfa ykkur. Burt með ykkur, snáfið þið heim til ykkar! Það er rjett að sekta ykkur fyrir óþarfar þrætur — 4 lóð silfurs til jústitskassans—koma hingað með bandóðan dárakistulim — gjöra uppistand í rjettinum — he — út með ykkur, út—t—t!, eða jeg skal hjálpa ykkur.«— Nötrandi af reiði þreif sýslumaðurinn stafinn sinn og lumbraði á skóurunum allt hvað af tók; þeir urðu lafhræddir og þutu út í ofboði, en Gamli-Toggi faldi sig á hurðarbaki meðan þessi ósköp gengu á; svo skauzt hann út og labbaði heimleiðis.

Hann kom að hreppstjórasetrinu, og hreppstjórinn var á vakki úti á hlaði. »Nú, hvernig fór það, Gamli-Toggi?« spurði hann.

»Og, þakka þjer fyrir, það fór allt saman nógu vel«, sagði Toggi.

»Fórstu að eins og jeg sagði þjer?«

»Já, það gjörði jeg náttúrlega«, sagði Toggi.

»Og dugði það ekki?«

»Jú, hann rak okkur alla út«, sagði Toggi.

»Ha, ha, ha; jæja, þarna sjerðu, hvort það er ekki nógu gott svona á stundum, að hafa vit á lögunum og fororðningunum og því dóti. — En nú manstu víst hverju þú lofaðir mjer?«

Ónei, ekki mundi Gamli-Toggi það nú almennilega. »Það var treimarkið, sem þú lofaðir að borga mjer«, sagði hreppstjórinn.

»E-pú, e-pú«, svaraði Gamli-Toggi; hann tók til fótanna og hafði sig á burt hið bráðasta.

»Maður verður að bjarga sjer eins og bezt gengur«, var máltakið hans Gamla-Togga.

*(Guðl. Guðmundsson* þýddi.)

---

# San Francisco eptir 1850.

Eptir

C. de Varigny.

Þegar útlitið fór að batna í San Francisco, tóku bæjarbúar þangað til sín konur sinar og börn austan úr Bandaríkjunum. Þessi nýja kynslóð hafði undir eins góð áhrif á bæjarbrag allan. Fram til 1850 hafði varla sjezt þar annað kvennkyns en lítils háttar rusl frá Mexico og Chili, er heyrði til spilahúsunum. Það var skömmu fyrir árslokin 1849, er hljóðfærasamsöngur var haldinn þar í bænum í fyrsta sinn; þá var haft svo mikið við kvennfólkið, að því voru áskilin beztu sætin ókeypis. Það var ekki margt; það voru til alls í borginni 4 kvennmenn af skárra tagi. Undir árslokin 1850 var þetta mjög orðið umbreytt. Stórkaupmenn settust þar að fyrir fullt og allt, og hugsuðu ekki til að hverfa burt aptur. Konur þeirra, dætur og systur komu til þeirra, og var þeim fagnað for-

kunnar-vel og með svo mikilli viðhöfn, er þær stigu þar fyrst fæti á land, að kynlegt mundi þykja þeim, er því eru ókunnugir, hversu mikils Vesturheimsmenn virða siðprúðar konur, en af þeim hafði áður verið að kalla má gjörsnautt í borginni. Það var svo árið eptir, 1851, að sæist einhver af þeim á gangi úti, þá tóku allir ofan fyrir henni, þótt ljelega væri búin. Hvað mikil ys og mannþröng sem var í Montgomery-Street, höfuðgötu bæjarins, og hvað mikill kliður sem þar var og háreysti, á öllum tungumálum, þá þurfti ekki annað en að einhver kallaði upp á ensku: »Hjer er kona á ferð», — þá tóku allir ofan og allt varð kyrrt og hljótt. Hin eina göngustjett í götunni, þar sem rjett áður hafði verið krökt af mönnum, sem ruddust hver um annan þveran, varð allt í einu alauð, til þess að rýma fyrir einni »móður, konu eða meyju», er rifjaði upp fyrir öllum þessum karlmannasæg minningu þeirrar móður, konu eða systur, er þeir höfðu yfirgefið. Sá mátti vara sig, sem ljet sjer þá ósvinnu í hug koma, að taka ekki ofan eða að sýna hina minnstu óhæversku, þótt eigi væri nema með augnaráðinu einu saman, er kvennmaðurinn gekk fram hjá, hálfffeimin og hrærð af lotningu þeirri, er henni var sýnd. Sá hefði fengið þokkalega útreið, er brydda hefði látið á einhverju þess háttar. Slíkt bar aldrei við. Það var ekki til sá bófi eða drösulmenni meðal gullnemanna, að hann lyti eigi því, er allir aðrir báru lotningu fyrir.

Áður en konur komu til San Francisco, var borgin ekki annað en herbúðir óaldarseggja. Svona hefir

verið í Róm á dögum Rómúlusar og Remusar, þar sem var griðastaður alls konar misindislýðs frá öllu Latlandi; það voru ungir karlmenn, hraustir og fjörugir, en áttu hvorki konur nje börn. Þar sem sú veikburða kynslóð er með, þar breytist allt lífið smámsaman. Þar skapast heimilislíf; þar eru reistar kirkjur og skólar.

San Francisco tók öll stakkaskiptum. Göturnar urðu beinar. Hinn afkáralegi búningur, er þar tíðkaðist framan af, hvarf og leið undir lok. Ruddaskapur og siðleysi rjenaði, en prúðmennska fór í vöxt; karlmennirnir urðu ekki eins klúrir í orðum og áður, og ekki eins ókurteisir í látbragði. Alla skárri menn langaði til að komast upp úr skrælingjaskapnum. Þeim var farið að leiðast að þurfa allt af að hafa á sjer marghleypu, og að hafa enga lögreglu og engin lög. Þeir vildu hafa frið og reglu á strætum bæjarins —; þeir vildu fegnir geta komið sjer svo fyrir, að óhætt væri lífi og limum, þótt þeir eignuðust eitthvað, að ekki þyrfti sí og æ að óttast rán og gripdeildir og húsbruna af manna völdum. Til þess að reyna að eyða húsbrunafárinu, var komið á fót sjálfboðnu brunaliði, er allir gengu í; þegar lögregluliðið reyndist máttvana gagnvart bófum og illvirkjunum, eða þá að það studdi þá og hlífði þeim vísvitandi, þá var sett á stofn velferðarnefnd til að bæta úr þeim brestum.

Velferðarnefnd þessi tók til starfa 22. febrúar 1851, og fór hvergi leynt með áform sitt og skipulag. Oddvitarnir birtu nöfn sín á prenti, og tóku alla ábyrgðina á sig. Það voru hinir helztu menn

bæjarins og mest metnir: Coleman, Shattuck og Allister. Þrjú þúsund bæjarmenn gengu í lið með þeim og bundust því heiti, að framkvæma allt, er þeir legðu fyrir þá, og beita til þess vopnum, ef á þyrfti að halda. John Jenkins var höndum tekinn 10. júní; hann var staðinn að þjófnaði. Nefndin stefndi honum fyrir sig, dómarinn dæmdi hann frá lífi, og var hann hengdur samdægurs. Yfirvaldsnefnurnar mótmæltu hátíðlega slíkri framhleypni og óboðnum afskiptum af því, er lægi undir þeirra embætti, og skipuðu að taka hina sjálfboðnu dómara höndum og snara þeim í varðhald; en þeirra liðar svöruðu svo, að þeir sömdu stórt auglýsingarskjal, er þeir rituðu nöfn sín undir, og tjáðu sig samseka velferðarnefndinni og dómurum hennar, og urðu hinir að hafa það svo búið.

Hálfum mánuði síðar ljet nefndin handtaka James Stúart. Það var alræmdur þjófur og morðingi. Hann játaði glottandi á sig manndráp þau, er hann hafði framið. Hann var hengdur niður við höfn.

Whittaker og Mac-Canzie, er hin reglulegu yfirvöld höfðu látið setja í varðhald, voru þar allt af óhreyfðir; það var ekkert átt við mál þeirra. Velferðarnefndin heimtar, að mál þeirra sjeu dæmd þegar í stað. Því var synjað. Þá lætur nefndin hringja áhlaupsklukkunni, brýtur upp dyrnar að fangelsinu, og lætur færa fangana fram fyrir sig. Þeir reyndust sannir að sök, og voru hengdir að vörmu spori. — Við þessa röggsemi og skjótræði varð öðrum illvirkjum felmt; þeir fóru að hafa sig á kreik burt úr bænum. Velferðarnefndin

lýsti því yfir, að hún mundi halda völdum áfram, meðan henni þætti þess við þurfa.

— Eptir því sem viðskipti jukust, fór að verða tilfinnanleg þörf á peningum. Það var ekki hægt að bjargast endalaust við gulldupt og gullkólfa. Það hefir verið reynt að bjargast við útlenda gullpeninga hina og þessa, sínu sinni hvað, svo sem tvítugfranka frakkneska, fimmdollara frá Bandaríkjum, og ensk pund; enn fremur skrítilega peninga innlenda, tilbúna þar í borginni; þeir voru í laginu sem átthyrningur, mjög illa gerðir, og samsvöruðu 175 kr. Af silfurpeningum var notast við pjastra frá Mexico, Chili og Perú, og fimmfranka frá Frakklandi. Til smákaupa hafði eigi tekizt að finna annað fangaráð en að höggva pjastrana í tvennt, og samsvaraði hver hluti hjer um bil 1 kr. Með því að gull voru nú einar hinar helztu landsnytjar í Kaliforníu, var ofureðlilegt, að landsbúar vildu fá þar komið á stofn peningasláttu; en ekki lá það laust fyrir, að fá til þess samþykki allsherjarþingsins í Washington.

Árið 1851 fluttist frá Kaliforníu til annara landa 120 miljónir kr. í gulli. Það ár urðu innflytjendur til San Francisco sjóleiðis eingöngu 27,000. Það hefir aldrei hópazt þangað eins mikið af Frökkum á einu ári eins og þá. Var þar misjafn sauður í mörgu fje, og komu þeir talsvert við sögu landsins síðar meir.

Lengi framan af, allt þangað til 1855, var að ýmsu leyti örðugt mjög að reka verzlun í San Francisco. Vörupöntun var meira en mánuð á leiðinni, þaðan austur í New-York, og nærri tvo mán-

uði til Parísar eða Lundúna. Það var löng skipaleiðin sunnan um Ameríku, suður fyrir Horn; voru kaupskip opt 4—6 mánuði á þeirri leið. Verðlag var því mjög á reiki og verzlunaráform öll hæpin. Leiga af lánsfje hafði verið 10 af hundraði á *mánuði* 1840; hún var um 3—4 af hundraði á mánuði, er hjer var komið sögunni, og var því óbærilegt að eiga óseldar vörur sínar til lengdar, ef þær lækkuðu í verði. Þar við bættist svo brunahættan, en brunaábyrgð ófáanleg. Því máttu kaupmenn til að selja vöru sína undir eins og hún var þangað komin, hvort sem mikið fjekkst fyrir hana eða lítið. Þaðan stöfuðu skyndilega verðlækkanir og verðhækkanir. Urðu því verzlunarfyrirtæki ekki annað en áhættu-spilamennska; sumir urðu stórauðugir, aðrir rúðir inn að skyrtunni á skömmu bragði. Þegar fór að verða lítið um einhverja vöru, hækkaði hún í verði um 100—300 af hundraði á fám dögum; væri of mikið til af henni, lækkaði verðið að sama skapi.

Hinn 23. febrúar 1854, þann dag, er Panamajárnbrautin var vígð, minnkaði fjarlægðin milli New-York og San Francisco svo, að ekki nam nema 22 dögum. Hægaðaraukinn á ferðalaginu var að sama skapi.

Það hafði verið byrjað á brautinni 1850. Hún átti að vera búin á 2 árum. Ráðgjört var, að hún mundi kosta rúmar 5 milj. kr. Þar þurfti engin jarðgöng að grafa, og óvíða að hlaða stórkostlega brautargarða; ekki var meira en 300 fet yfir sjávarmál, þar sem hæst var. Þeir, sem tekið höfðu að sjer brautargerðina, hugðust hafa vel veitt, og gerðu

sjer von um stórmikinn ágóða á því; en þéim hafði sjezt yfir að gera fyrir letinni í þarlendu verkamönnunum og hinum miklu vanhöldum á útlendum vinnulýð af banvænu loptslagi, og þessa sízt fyrir hinu tælandi aðdráttarafli gullnámanna í Kaliforníu. Var því brátt hætt við að hugsa um að hafa brautina trausta og endingargóða, og ekki hugsað um annað en koma sem allra-skjótast á einhverri samtengingarmynd milli hinna miklu reginhafa, Atlanzhafs og Kyrrahafs. Brautargarðurinn mikli yfir dalverpið hjá Barbacoes, er fjelag eitt hafði tekið að sjer að hlaða, var eigi óðara fullgjör, en meiri parturinn af honum hrundi.

Tíminn leið, og í stað þess að græða, þá misstu þeir aleigu sína, er fyrir brautargerðinni stóðu. Peningamenn í New-York, er höfðu lánað fje til fyrirtækisins, tóku nú alveg fyrir það. Í þessum stórvandræðum var leitað liðs hjá tveimur hinum mestu auðmönnum í New-York, Howland og Aspinwall, og þeir hjálpuðu öllu við aptur. Eptir 4 ára strit var brautin loks búin; en 26 milj. kr. hafði hún kostað, í stað 5.

Nú varð hálfu greiðara fyrir innflytjendur að komast til Kaliforníu. Það fór að koma fólk af betra tagi en áður og sem ætlaði sjer að ílendast þar. Heimilislíf tók að þróast og dafna. Heimilisfeðurnir hugsuðu lengra fram en til næsta dags. Þar sem skrælingjalýður og flækingjar höfðu áður tjaldað til einnar nætur, þar reistu sjer nú hýbýli til frambúðar siðaðir menn frá menntuðum þjóðum.

En það sem enn amaði mjög að í San Franci-

sco, það var hin almenna spilling meðal embættismanna, kjósenda og þeirra, sem skiptu sjer af landsins gagni og nauðsynjum. Í stað gullnemanna gömlu voru komnir lítt vandaðir þjóðmálaskúmar, málfærslumenn, sem ekkert höfðu að gera, blaðamenn, sem enga lesendur höfðu, — ýmislegt rusl af lakari endanum, er hafði fengið á sig óorð í Washington, New-York og Boston, en nenntu ekki að leggja á sig líkamlega vinnu, og vildu heldur koma sjer á framfæri með vjelum og tálbrögðum, og bera sig að ná í hálaunuð embætti. I slíkra manna höndum var lögreglan máttvana, engin virðing fyrir yfirvöldunum og landstjórnin í litlum metum. A tímabilinu frá 1849—1856 voru framin þar meira en þúsund launmorð. Almenningi var fullkunnugt um morðingjana og brennuvargana. Það kvað jafnvel svo rammt að, að þeir stærðu sig af hreystiverkum sínum; þeir þóttust öruggir, með því kosningar til embætta gengu eins og þeir vildu vera láta, bæði sökum ótta þess, er almenningi stóð af þeim, og fyrir bíræfni fylgismanna þeirra. Lögreglumenn voru verkfæri í höndum kosningaprangara og atkvæðasmala; annars voru þeir afskiptalausir og sátu kyrrir hjá, hvaða óhæfa sem framin var, og þágu laun af bófunum og illvirkjunum til þess að látast af engu vita, og amast ekki við neinu, sem þeir höfðu fyrir stafni.

Ýmsir hinir betri menn reyndu til að afstýra þessum ófögnuði. En það var árangurslaust. Hinir höfðu svo öflug samtök sín á milli og rígbundinn fjelagsskap, og rjeðu öllum kosningum og embætta-

veitingum. Þegar ófagnaður þessi stóð sem hæst, og öllum heiðvirðum mönnum blöskraði, tók sig til blaðamaður einn, er William King hjet, og byrjaði á blaði, er hann nefndi »Boðskeytið», með þeirri fyrirætlun, að því er stóð í fyrsta blaðinu, »að halda fram rjettindum hinna undirokuðu og fletta ofan af stjórnarspillingu þeirri, er væri orðin að sannköll-uðu átumeini í borginni og ætlaði að steypa henni í glötun». — Var þessu tekið með miklum fögnuði af öllum hinum betri mönnum. Blaðinu söfnuðust mjög greiðlega kaupendur, og ritstjórinn tók til að starfa. Hann ritaði hverja greinina á fætur annari, þar sem hann fletti ofan af margvíslegum stjórnarmisferlum, og lýsti hinni fyrri æfi þeirra manna, er þá höfðu æðst völd í borginni. Hann ljek þá harla ómjúkt og hlífðist hvergi við, fór stundum lengra en góðu hófi gegndi, og kom stundum með ýmislegt, sem hann hefði ekki átt gott með að sanna. En í öllum aðalatriðum hafði hann rjett fyrir sjer og rjett að mæla, og öllum almenningi þótti mjög vænt um greinar hans.

Hinn 14. maí 1856 tók hann til meðferðar í blaði sínu mann þann, er James Casey hjet. Það var alkunnugt, að maður þessi, sem þá ætlaði að láta kjósa sig í hálaunað embætti, hafði við fyrri kosningar,er hann var kjörstjórnaroddviti, falsað atkvæðagreiðsluna og dregið sjer fjölda atkvæða, er þeir höfðu fengið, er í kjöri voru á móti honum. En hitt var eigi kunnugt, er William King skýrði frá í blaði sínu, að James Casey hafði verið mörg ár í tukthúsinu í New-York. Þetta var alveg satt. Jafnvel þar í San Francisco hefði James Casey

verið löngu kominn undir manna hendur, ef hann hefði eigi verið svo frábærlega bíræfinn og óskammfeilinn og haft með sjer nóga sína líka.

Blaðið kom út um nónbil. Stundu fyrrir miðaptan skaut Casey ritstjórann til bana með marghleypu á horninu á Washingtonstreet og Montgomerystreet.

Þá kastaði tólfunum. Þetta gekk fram af öllum. Þetta svívirðilega morð um hábjartan dag, á almannafæri, þar sem einna mest var mannferð í borginni, og það á manni, er hafði á sjer almenna virðingu, en flestir höfðu dázt að hugprýði hans, og margir talið hann formælanda laga og rjettinda og forvígismann fyrir almenningsheill bæjarmanna. Mundi Casey hafa verið lagður að velli að vörmu spori, ef hann hefði tekið það fangaráð, að láta sína fylgismenn leggja hendur á sig og færa sig í varðhald bæjarins. Fangavörðurinn var góður kunningi hans, en dómararnir allir honum háðir og hans fylgifiskum. Hann vissi, að í varðhaldinu var hann svo sem eins og heima hjá sjer, en þeir, sem áttu að gæta hans þar, allir dyggir þjónar hans eða fylgifiskar. Var honum því hvergi betur borgið, þar til er mál hans væri útkljáð og sýknudómur upp kveðinn.

Borgarlýðurinn taldi engan vafa á því, að svo mundi fara. En hjer var þó svo að sjá, sem eitthvert rjettlæti væri til. Almenningur stóðst eigi lengur mátið. Allt kvöldið var Montgomery-Street fullt af fólki, er beið þess, að sjer væri gefið eitthvert merki til að hefjast handa. Og það kom. Kl. 9 um kvöldið spurðist, að stefnt væri til fund-

ar hjá kaupmanni einum í borginni, er Cunningham hjet, og skyldi þá til skarar skríða. Þangað streymdi borgarlýðurinn hópum saman. Var samþykkt þar, að endurreisa velferðarnefndina, og skorað á Coleman, er verið hafði oddviti hennar 1851, að takast nú aptur forustuna á hendur.

En það hagaði nú talsvert öðruvísi til en þá að mörgu leyti. Nú voru til regluleg yfirvöld, löglega skipuð og með fullu lögstjórnarvaldi. Þessi yfirvöld höfðu lögregluliðið undir sjer, og gátu kvatt herlið Bandaríkjanna til fulltingis sjer, ef á þyrfti að halda. Áhættan var mikil. Hjer þurfti mikils mannafla við og á talsverðu fje að halda. Forkólfar fyrirtækisins áttu mikið á hættu; þeir áttu líf sitt í veði, ef miður tækist. En þeir hopuðu hvergi og tóku þegar til sinna ráða með miklu fylgi og miklum dug. Eiður var stýlaður öllum þeim, er fundinn sóttu, og sóru allir að skiljast eigi við þetta mál, fyr en yfir lyki með þeim og fjandmönnum rjettvísinnar. Auk þess rituðu fundarmenn sig fyrir drjúgum fjársamskotum. Áskorun var samin og samþykkt um fulltingi allra góðra manna utanfundar. Síðan skiptu menn sjer í sveitir á hermannavísu, og tóku sjer foringja; voru hundrað manna í sveit hverri. Liðsmenn kostuðu sig sjálfir að klæðum og vopnum, og bjuggust að öllu sem í hernað.

Tveim dögum síðar var svo komið, að 500 hraustra drengja hjeldu vörð um hús það, er velferðarnefndin háði í fundi sína, en skotið herkví um fangelsið, þar sem morðinginn var geymdur, til þess að honum yrði eigi skotið undan, og her-

sveitum skipað til gæzlu á helztu stöðvum í bænum, og tók hver við af annari, með góðri reglu. Kaupskapur og þvílíkar sýslanir hættu í borginni, búðum var lokað og stræti voru öll full af hermönnum. Borgin var öll sem undir hervaldi.

það var á miðvikudag, er morðið hafði framið verið. Sunnudag næstan eptir gengu 2,400 vopnaðra manna hljóðir eptir strætum borgarinnar, eptir skipun velferðarnefndarinnar, tóku sjer stöðu hver þar sem fyrir hann var lagt, og slógu hring um ráðhúsið, þar sem yfirvöld bæjarins sátu á fundi.

Stundu eptir dagmál beindi stóskotaliðs-sveit ein fallbyssum sínum að dyrunum á fangelsi bæjarins, og tveir fyrirliðar úr velferðarnefndinni gengu fram, og skoruðu á Stannel fangavörð að fram selja James Casey. Svo var vel um búið, að þar var ekkert undanfæri. Casey bað sjer griða í tíu mínútur til þess að búast við dauða sínum. Honum var sagt heimilt að koma vörn fyrir sig, og var hann færður þaðan til höfuðstöðva nefndarinnar. þangað var og færður annar bandingi, er Charles Cora nefndist; hann hafði drepið lögreglumann þann, er Richardson hjet, þá er átti að snara honum í fangelsi fyrir þjófnað. Var síðan haldið próf yfir þeim báðum. Að því búnu voru þeir dæmdir af lífi, og var þeim tjáð, að dómnum mundi fullnægt verða að tveim dögum liðnum, eptir að búið væri að jarða William King.

þann dag, er jarðarförin skyldi fram fara, blöktu dökkvir fánar á hverri stöng í bænum. Förkólfar velferðarnefndarinnar gengu næstir á eptir líkvagninum, og fylgdu þeim fjörutíu sveitir vopn-

aðra manna; en á undan vagninum gengu þeir Casey og Cora. Þeir voru síðan hengdir á dyratrjen í săluhliðinu svo sem í gálga stað, sinn til hvorrar handar, og gekk öll líkfylgdin þar inn á milli þeirra örendra.

Þessu næst var tekið til að höndla aðra stórglæpamenn bæjarins, og náðust þeir flestir. Nefndin hafði af tekið allar samgöngur við skipin á höfninni, og skipað mönnum á vörð fyrir öllum gatnamótum. Einn alræmdur illvirki, er bæjarmönnum hafði lengi staðið ótti af, og Sullivan hjet, og var bæði þjófur og morðingi, rjeð sjer sjálfur bana, til þess að komast eigi undir manna hendur. Aðrir voru teknir af lífi. Þeir, er minna höfðu til saka unnið, voru færðir út á skip og gerðir landrækir. Velferðarnefndin rjeð öllu í borginni, og skipunum hennar var vandlega hlýtt.

En yfirvöldin vildu eigi láta þoka sjer úr sessi viðnámslaust. Landstjórinn skipaði Sherman majór, er síðar varð hershöfðingi og frægur mjög af framgöngu sinni í þrælastríðinu, að taka við forustu yfir landvarnarliðinu, og taka höndum forkólfa velferðarnefndarinnar. Sherman var þess allfús, en liðið vildi eigi hlýða honum til þess. Wool hershöfðingi átti að láta Bandaríkjaliðið skerast í leikinn, en annaðhvort gat hann það ekki eða þorði ekki.

Velferðarnefndin hjelt áfram starfi sínu í fulla þrjá mánuði, með fylgi sinna liðsmanna og almenningsálitsins, hvað sem hin yfirvöldin sögðu. Síðasta afrek hennar var aftaka þeirra Hatteringtons og Braie; þeir voru hengdir 29. júlí. Var þá

allri mótspyrnu eytt, og glæpamenn búnir að fá sín makleg málagjöld, og friður og kyrð komin á. Þá afrjeð nefndin að leggja niður völdin.

Hún gjörði það 18. ágúst. Borgin var öll fagurlega prýdd með fánum og blómskrúði. Nefndarmenn, 29 saman, gengu gegnum borgina, og fylgdi þeim allt herlið þeirra, 5,137 sjálfboðaliðar, þrjár sveitir stórskotaliðs og 18 fallbyssur, en fagnaðaróp kváðu við meðal borgarmúgsins, er skipaði sjer eptir stjettunum beggja vegna. Kvennfólk stóð í gluggunum, og klappaði lof í lófa. Sama kvöld var upp fest á götuhornum kveðjuskjal frá nefndinni til liðsins; var liðsmönnum þar þökkuð liðveizlan fögrum orðum, og skorað á þá að taka hver til sinnar fyrri iðju. Kvaðst nefndin hafa lagt niður völd sín, en vera viðbúin að taka aptur í taumana, ef á þyrfti að halda.

Það er fágætt að sjá aðrar eins aðfarir og þetta, er lýðurinn tekur sjálfur í taumana — að sjá jafnskörulega að verið og þó stillilega, jafndjarflega farið gagnvart löglegum yfirvöldum, og þó lögð niður völdin aptur sjálfkrafa og með fúsu geði, er eigi þurfti á þeim að halda framar, þau völd, er hinir löglegu valdsmenn höfðu eigi kunnað með að fara, svo að borgið væri almenningsheill. Enda mæltist og allt atferli nefndarinnar svo vel fyrir, að flestir hinir helztu nefndarmenn hlutu kosningu í æðstu embætti í bænum, næst þegar kosið var, þótt þeir hefðu eigi boðið sig fram; og svo stóðu þeir vel í stöðu sinni þar, að útgjöld borgarinnar minnkuðu um 7—8 milj. kr. á einu ári.

Þannig var aptur friður og regla á komin í

San Francisco. Þar með var merkilegt tímabil í sögu borgarinnar á enda, sturlungaöld hin mesta, vargöld, skálmöld, brennuöld, en jafnframt öld mikillar atorku og mikilla stórvirkja hraustra og dugandi drengja. Það eru þeirra þróttmiklu armleggir og traustu mundir, er hlaðið hafa undirstöðurnar að hinum tilvonandi höfuðstað við Miklahaf, við gullhliðið annálaða.

*(B. J.)*

---

# Um auðæfi.

Eptir

G. Pfeuffer.

Það er venjulega kölluð auðlegð, að eiga mikla fjármuni. Hugmyndin »mikill» er þó mjög svo á reiki í því sambandi. Það, sem sumum finnst vera ógrynni fjár, þykir öðrum ganga smámunum næst.

Óðara en orðið »eign» kom fyrst upp, og mennirnir tengdu þar við hugmyndina um fjemæta muni, þá kviknaði viðleitni þeirra að afla sjer auðæfa, þ. e. að útvega sjer svo miklar tekjur, að fari meira eða minna fram úr því, sem menn þarfnast almennt. Þess vegna höfum vjer frá elztu tímum

frásögur um ógrynni gulls og gersima, er einstakir menn hafa dregið saman, og er harla fróðlegt að renna augum yfir og rekja fyrir sjer, hvað hátt auðsafn einstakra manna hefir komizt á ýmsum öldum.

Hin miklu ógrynni gulls og gersima, er austrænir þjóðhöfðingjar höfðu safnað öldum saman, lentu í höndum rómverskra hershöfðingja og embættismanna á þjóðstjórnarárunum síðustu og á keisaraöldinni, enda var fjegræðgi þeirra lengi við brugðið. Það voru feiknin öll, sem þeir rændu og eyddu síðan í stjórnlausu óhófi og munaði. Vjer þurfum ekki að nefna nema fáein dæmi. Meðan Gabinius var skattlandsstjóri á Sýrlandi, hafði hann þar út meira en 100 miljónir dollara, en það er meira en 74 milj. króna. Júlíus Cæsar tók fram undir 6000 talenta frá Ptolemæus Auletes Egiptakonungi; það er hjer um bil 25½ milj. kr. Crassus rændi 10,000 talentum í peningum og dýrgripum frá musterinu í Jerúsalem; það er meira en 42 milj. kr. Gallía, sem nú heiti Frakklandi, var og auðug af gulli á dögum Rómverja; hjer um bil árið 106 f. Kr. rændi Qu. Servilius Caepio hofið í Tolosa (Toulouse), og tók þar 15,000 talenta eða 63½ milj. kr.

Hinn mesti auður í eins manns eigu, sem getið er um á dögum Rómverja hinna fornu, nam 78 milj. kr. Það átti Gn. Lentulus hofgoði, og sömuleiðis Narcissus, leysingi Nerós keisara; hann var vildarmaður keisarans, og hagnýtti sjer rækilega þá stöðu til fjedráttar.

Einhver hinn mesti auðmaður á síðari öldum

var Mazarin kardínáli, æðsti ráðgjafi á Frakklandi 1641—1661; Voltaire segir, að hann hafi átt um 200 milj. franka eptir peningaverði þá, eða 140 milj kr. Ekki komst hann samt í hálfkvisti við Potemkin fursta, vildarmann Katrínar annarar Rússadrottningar, á 18. öld ofanverðri, enda var hann allra manna ágjarnastur. Hann var og jafnframt hinn mesti sóunarseggur, svo munaðargjarn og skrautgjarn, að líkast var því sem segir í Þúsund og einni nótt, og þó hafði honum tekizt að safna á einum 16 árum 90 milj. silfurrúfla eða hjer um bil 290 milj. kr.

Fyrir hjer um bil rúmum 100 árum voru þessir mestir auðmenn hjer í álfu, og höfðu í *árstekjur* það sem nú skal greina:

| | Árstekjur. |
|---|---|
| Tscheremetew greifi | 4,500,000 kr. |
| Prinzinn af Condè (á Frakklandi) | 3,400,000 — |
| Lubomirski fursti | 1,780,000 — |
| Markgreifinn af Spinola | 1,600,000 — |
| Radzivil fursti | 1,440,000 — |
| Hertoginn af Medina-Sidonia | 1,280,000 — |
| Czernischew greifi | 1,200,000 — |
| Hertoginn af Orleans | 1,100,000 — |
| Hertoginn af Bedford | 1,000,000 — |
| Hertoginn af Norðymbralandi | 800,000 — |
| Hertoginn af Devonshire | 720,000 — |
| Hertoginn af Marlborough | 720,000 — |
| Spencer lávarður | 550,000 — |
| Shelburne greifi | 450,000 — |
| Fitzwilliam lávarður | 450,000 — |

| | árstekjur. |
|---|---|
| Hertoginn af Rutland .................. | 450,000 kr. |
| Temple greifi ............................. | 420,000 — |
| Hertoginn af Manchester ............... | 400,000 — |
| Hertoginn af Beaufort .................. | 375,000 — |

Það eptirtektavert, að allt eru þetta tiginbornir menn. Nú á tímum eru hinir mestu auðmenn flestir af óæðri stigum.

Montesquieu, hinn nafntogaði höfundur að »*Esprit des lois*» (»Anda laganna»), † 1755, segir, að skuldasúpa sje fylgikona og höfuðauðkenni tiginna manna á þeim tímum. Er það og engin furða, eptir hinu stjórnlausa óhófi og munaði, er þá tíðkaðist, og svo voru mikil brögð að meðal aðalsmanna á Frakklandi á 18. öld, að það er hin mesta andstyggð að lesa það og heyra. Aðalsmenn tóku alla hluti að láni, jafnvel gáfur, segir einn þeirrar tíðar rithöfundur; þeir tóku lán hvar sem þeir gátu, rituðu undir víxla með hvaða kjörnm sem fáanleg voru, og hvernig sem á stóð, og bökuðu lánardrottnum sínum óþrjótandi umstang og armæðu. Þar kom að lokum, að drengskaparheit aðalsmanna voru einskis metin og undirskriptir þeirra fyrirlitnar. Það þótti ekki við þá eigandi öðruvísi en með milligöngu málfærslumanns; það mátti til að gjöra skriflegan samning og setja veð í hvert skipti, sem aðalsmaður tók eyrisvirði að láni. Sí og æ sáust skuldheimtumenn á ferðinni með lögregluþjóna og dómara. Eptir hvern gjalddaga hófust langvinn málaferli, og lauk svo opt og tíðum, að skuldunaut var snarað í fangelsi og eigur hans í föstu og lausu seldar á nauðungaruppboði.

Allir handiðnamenn, er gerðu eitthvað fyrir aðalsmenn, allir kaupmenn, sem ljetu þá fá vörur, guldu þess sáran, ef þeir veittu þeim nokkra umlíðun. Með því móti er hægt að skilja í því, að ungfrú Bertin, er átti einhverja hina stórkostlegustu og glæsilegustu kvennbúninga- og kvennstáss-verzlun í þá daga, skuldaði meira en 2 miljónir franka, er hún varð gjaldþrota, og átti þó miklu meira útistandandi hjá ýmsum hertogafrúm, markgreifafrúm og öðrum tignum konum; en ekki gat hún náð því, hvernig sem hún reyndi og hvaða tökum sem hún beitti. Höfðingjarnir lifðu skuldum vafðir upp fyrir höfuð, og dóu í óbotnandi skuldasúpu. Þetta var orðið að svo ríkum vana, að það þótti svo sem sjálfsagt, og því var jafnvel tekið til þess, að Loðvík konungsefni, sonur Loðvíks XV., skuldaði ekki nema 50—60,000 kr., er hann dó (1765), þótt hann hefði eigi haft nema 4000 kr. að lifa á um mánuðinn. Árið 1783 var greifinn af Artois, er síðar varð konungur og nefndist Karl X. (1824—1830), lögsóttur um hjer um bil 10 milj. kr. skuld, er hann hafði skuldað í 6 ár. Sama ár tók bróðir hans, greifinn af Provence, er konungur varð síðar og nefndist Loðvík XVIII. (1815—1824), 8 miljón króna lán, til þess að losa sig úr nokkru af skuldum sínum. Til þess að útvega prinzinum af Condè frið fyrir skuldheimtumönnum keypti Loðvík XV. af hönum hina miklu og skrautlegu höll hans og gaf honum að auki 1 milj. kr. En hvorugt dugði þó til að bjarga prinzinum úr klóm skuldheimtumanna hans, og neyddist hann því bráðlega til að selja konungi allar fasteignir

sínar, en af þeim hafði hann haft nær 200,000 kr. í árstekjur.

Eptir því, sem Haxthausen segir frá í Rússlands-lýsingu sinni, átti höfðingjaættin Schjeremetjew áður en bændaánauðinni var af ljett (1861) um 200,000 »sálir», þ. e. ánauðuga þegna, og voru þar á meðal margir stórauðugir kaupmenn, er guldu húsbændum sínum ekki nema ofurlítið árgjald til þess að mega reka verzlun sína með frjálsu. En ekki var nærri því komandi, að þeir fengju sjer keypta lausn, og fyndist húsbændum þeirra þeir berast nógu mikið á, þá gat það dottið í þá, að skipa dætrum þeirra stórkaupmanna, er alizt höfðu upp við alls nægtir og nóga dýrð og viðhöfn og aldrei verið látnar drepa hendi sinni í kalt vatn, að koma og gjörast gólfþvottakonur í viðhafnarhýbýlum húsbændanna, og dugði þar eigi í móti að mæla. Alkunnugt er og um hin miklu auðæfi Demidoffsættarinnar. Það var einn af þeim frændum, er ljet reisa sjer varða (obelisk) í lifanda lífi í kirkjugarðinum Père la Chaise í París, er kostaði ½ milj. franka (350,000 kr.), og var hin mesta prýði fyrir kirkjugarðinn.

Astachoff hjet sá, er næstur gekk Demidoff að auðlegð á Rússlandi um miðbik þessarar aldar. Hann hafði 111 pund gulls upp úr námum sínum í Síberíu á einu ári (1848). Það eru hjer um bil 4,600,000 kr.

Enn er nefndur Jakulow nokkur, rússneskur. Eigur hans voru taldar 370 milj. kr.

Þetta var talin hin mesta auðlegð á megin-

landi þessarar álfu um miðja öldina; en ekki er það mikið hjá því, er gerzt hefir síðan.

Reiturnar eptir James Rotschild, er andaðist í París haustið 1868, voru gerðar 2000 milj. franka í minnsta lagi; það eru meira en 1400 milj. kr.

Johan Jakob Astor, þýzkur kaupmaður í Ameríku, átti eptir sig látinn um 100 milj.kr., og hafði þó verið maður stórgjöfull í lifanda lífi, og komið á fót ýmsum nytsamlegum stofnunum og þeim summum mjög stórkostlegum, á sinn kostnað.

Árið 1865 taldi Alexander J. Stewart í New-York fram til tekjuskatts meira en 4 milj. dollara (15 milj. kr.) í árstekjur, og greiddi þar af í skatt rúmar 400,000 dollara (1½ milj. kr.), enda var hann þá auðugastur kaupmaður í öllum Bandaríkjunum.

Nú sem stendur eru þessir 4 taldir mestir auðmenn í heimi:

Hertoginn af Westminster. Hann er þeirra minnstur, og er þó mestur auðmaður á Englandi. Hefir í árstekjur 800,000 milj.pd.sterl. = 12,400,000kr.

Næstur honum er þingmaður einn í öldungadeildinni á allsherjarþinginu í Washington, er Jones heitir, frá Nevada. Hann hefir í árstekjur hjer um bil 1 milj. pd. sterl. . = 18,000,000 kr.

Þá kemur Rotschild í París með 1,900,000 pd.sterl. í árstekjur, eða = 34,200,000 kr.

En mestur er J. W. Mackay frá Ameríku. Hann hefir 2,750,000 pd. sterling í árstekjur, eða ........................................49,500,000 kr. Nærri því 50 milj. kr. í árstekjur!

Þar með lúkum vjer þessu sögulega yfirliti yfir auðæfi á ýmsum tímum og í ýmsum löndum. Auð-

æfi eru og hafa jafnan verið vafasöm gæði, enda hafa lengi verið misskiptar skoðanir um þau, þótt flestir haldi þau raunar eitthvert hið mesta hnoss í þessu lífi.

Rjettust verður líklega skoðun Benjamíns Franklíns. Hann svaraði svo þeirri spurningu: Hvað er auðlegð?:

»Margur maður er auðugur, þótt fjelaus sje. Til eru menn svo þúsundum skiptir, sem eru auðugir, þótt þeir eigi ekki einn eyri í eigu sinni. Sá maður, sem er vel af guði gerður, er auðugur; sá, sem hefir gott hjarta, góða heilsu og góða greind, er auðugur. Hraust bein eru betri en gull, þróttmiklir vöðvar eru betri en silfur, og fjörugar og stæltar taugar eru betri en fasteign. Það er betra en stóreignir, að vera af góðu bergi brotinn. Það er til gott kynferði og slæmt kynferði manna, eins og hunda og hesta. Uppeldið getur miklu áorkað til að bæla niður slæmar tilhneigingar og örva góðar; en það er miklu meira í það varið, að hafa fengið að erfðum góðar gáfur og gott náttúrufar til að byrja með lífsferilinn. Sá maður er auðugur, sem hefir gott lundarfar — sem er geðgóður, þolinmóður, glaðlyndur og örugguur».

*(B. J.)*

# Kvæði.

---

Þýðingarbrót úr
## „Kaupmanninum frá Feneyjum“
(Merchant of Venice), 5. þ., 1. sjónaratriði,
eptir Shakespeare.

*Lórenzó.*

— — — — —
— — — — —

Hve sefur tunglskin sætt á þessum grasbekk.
Nú setjumst hér og látum ljúfa sönglist
Í eyrun læðast; ætíð nótt og kyrðin
Samþýðist bezt við söngsins yndishljóm.
Jessíka, seztu! Sjá, hve himinhvolfið
Er fjölsett doppum glitskínandi gulls.
Svo langt þú eygir, er ei minsti hringur,
Er syngur ei á sinni för sem engill
Með fagureygum kerúbum í kór.
Slíkt samræmi' er í ódauðlegum sálum,
En meðan dauðleiks moldarhjúpur þessi
Grófklæðir andann, getum vér ei heyrt það.
(Hljóðfæramenn koma).
Hó, drengir, vekið Díönu með tónum;
Með blíðum hljómum hyllið yðar drottning,
Og fylgið henni heim með sönghljóm.
(Hljóðfærasöngur).
*Jessíka.* Aldrei
Hin fagra sönglist gerir geð mitt kátt.
*Lórenzó.*
Það kemur til af athygli þíns anda,

Því tak þú eptir ólmri og styggri hjörð,
Og eptir folum ótömdum og ungum,
Hve dýr þau stökkva, baula, gnýa og gneggja,
Af því að brennheitt blóðið í þeim svellur;
En ef í svip þau heyra lúðurhljóm,
Ef einhver söngtónn snertir þeirra hlustir,
Þá sjáðu, strax þau standa í sömu sporum,
Og augun viltu horfa gæf og hógleg
Af sönglist sigruð. Því er það, að skáldið
Lét Orfevs teyma eikur, björg og vatnsföll,
Því ekkert er svo staurslegt, stirt og þungfært,
Að sönglist geti ei snöggvast breytt þess eðli.
Hver maður, sem á enga sönglist innra
Og viknar ei af eining sætra tóna,
Er hneigður fyrir hrekki, svik og rán.
Hans anda starf er eins og nóttin þögult,
Hans fýsnir svartar eins og niflheims afgrunn,
Trúðu' aldrei slíkum. — Taktu eptir söngnum.
(Porzía og Nerissa álengdar).

*Porzía.*

Sjá, þarna er ljós. Ur salnum mínum skín það.
Hve kertið smáa lýsir frá sér langt.
Svo ljómar dygð í syndum spiltri veröld.

*Nerissa.*

En ljósið sást ei meðan máninn skein.

*Porzía.*

Svo deyðir stærri dýrðin hina minni.
Með konungs ljóma skattlands stjóri skín,
Unz kemur sjálfur kóngurinn; þá þver
Hans dýrðarskraut sem langt að runninn lækur
Í úthaf tæmist. — Heyrðu þessa hljóma.

*Nerissa.*

Sú sönglist er í yðar eigin húsi.

*Porzía.*

Það sé eg: gott er ekkert utan tillits;
Mér finst hún miklu fegri en á daginn.

*Nerissa.*

Af náttkyrðinni, frú mín, fær hún yndi.

*Porzía.*

Eins fagurt kvakar krákan eins og lerkinn,
Ef hlýða menn á hvorugt; það eg hygg:
Ef syngi' um daga sjálfur næturgalinn,
Er allar gæsir garga, mundu menn
Ei segja hann fremri söngvara en sparrfugl.
Hve margt í heim af tíma sínum tingast
Til mætis síns og fullkomnunar frama.
Þei, Lúna sefur sætt hjá Endymíon,
Og vill ei menn sig veki.

(Sönglistin þagnar),

*Stgr. Th.*

---

## Kórsöngur Ægisdœtra.

(Æschylos, Promeþeifur, v. 406—445; það er nýbúið að negla Promeþeif á Kákasus).

---

*1. erindi:*

Styn eg yfir þínum þungan
Þrautum, Promeþeifur! — hjartað
Ekka, tárum auga' er þrungið,
Yfir kinnar hrynur bjartar
Sorgar jastrið settu hrosta; —
Seifur birtir eldri goðum
Nú með laga nýjum boðum,
Nýja valdsins dramb og rosta.

*1. gagnerindi:*

Stynur lopt og stynur víðir,
Strandir taki' og grundir undir;
Asíu- sakna allir -lýðir
Afreks þíns og höfðingslundar;
Þig sem eldinn seggjum sóktir
Syrgir heimur, þungar raunir,
Góðra verka grimmust launin,
Glúpnaðar allar harma dróttir: —

*2. erindi:*

Skjaldmeyjar og Skýþa mengi,
Skelegast í glaumi hjalta;
Böl þitt lætur blikna drengi,
Búandi við Ellipalta;
Rabítalands rekka hraustu,
Raunir þínar hygg eg græti;
Aldrei framar kviknar kæti
Kákasusar byggjum traustu.

*Eptirsöngur:*

Jötun séð hef einn eg áður
Eins af hörðum mæddan þrautum:
Atlas sífellt þvingast þjáður
Þungum undir himinskautum. —
Holskeflurnar hvítfyrsandi
Hverjar aðrar sollnar elta,
Stynur djúp, en sýður selta,
Sogar brimið andvarpandi;
Elfa belja æstir flaumar
Ymja heljar dökkir straumar.

*Gr. Þ.*



